# Heilagar
# Hugvek-
# JUR /

Þienande til þess,
Ad erva og upptendra þañ Jñra Mañ-
eñ, til ſañarlegrar Gudrækne
og Goods Sidferdis,
Samañſkrifadar Fyrſt i Latinu, Af Þeim
Virduglega og Haa-Lærda Doctore
Heilagrar Skriftar,

## Johañe Ger-
## HARDJ /

Eñ a Jslendſku wtlagdar, Af Þeim
Virduglega Herra
H. Thorlake Skwla Syne /
Byſkupe Hoola Stiftis.
EDJTJO 7.

Seliaſt Alment Jñbunduar 24. Fiſkum.

Pryckt a Hoolum i Hiallta-Dal, Af
Halldore Erikssyne, Anno 1745.

1. Pet. 1. v. 3. 4. 5.

Blessadur sie Gud og Fader Drottens vors JEsu Christi, sem oss epter siñe mikellre Myskunseme hefur Endurfædt, til lifande Vonar, fyrer Upprisu JEsu Christi fra Daudum, til eirnrar O-forgeingelegrar, O-fleckadrar, og O-umskiptelegrar Arfleifdar, sem vardveitest ydur a Himnum, þier sem af Guds Magt fyrer Trwna vardveitter verded til Saaluhiaalpar, þeirrar sem tilreidd er, þad hun openber verde a sijdustu Tijmum.

# Fyrsta Hug-vekia / Um rietta og sanna Pecking Syndanna.

O Þu Heilage HErra og Riettlaate Doomare. Mier eru alltijd fyrer Hugskots Sioonum mijnar Synder. Og eg hugsa a hvorium Deige, umm þinn straanga Riettlætis Doom, Þvi Dauden hanger mier yfer Hofde, jafnann a hvørre Stundu. Eg hura umm þann straanga Riettlætis Doom, a hvorium Deige, Þvi ad Menn munu verda ad standa Reikningskap, af øllu þvi sem þeir hafa adhafst a hvorium Deige. Þegar eg ransaka mitt Lijferne og frammferde, þa finn eg i Sannleika, ad þad er annadhvørt Onijtt edur og so Ogudlegt. Ongvu nijtar eru margar mijnar Synder og Athafner, þo eru enn fleire mijn Ord og Munn-Rædur øngvu nijtar, Enn allra flest er øngvu nijtt af mijnum Þonkum og Hugrenningum. Jaa, mitt

 Lijf-

Lijferne og Framferde (so sem eg strax sagde) er ecke alleinasta øngvu nytt, helldur og eirnenn Illt og Ogudlegt. J þvi finn eg eckert Gott, Þviad þo so sie, ad þar i meige finnast nockud Gott, þa er þad þo i Raun og Sannleika hvorke Gott nie Fullkomlegt, Þviad þad er allt fleckad og fordiarfad, af Saurgun Uppruna Syndarennar, og spilltrar Naatturu. Eg Ottadest þvi øll mijn Verk, ad eg visse þu þyrmder ecke þeim sem syndga, sagde hinn H. Job. Nu ef sa Riettlaate Guds Madur klagar svo, hvad skyllde eg þa Ogudlegur meiga klaga, yfer mijnum Verkum og Framferde? Allt vort Riettlæte, er so sem saurugt Klæde Bloodsiwkrar Kvinnu. Nu ef Riettlæte voru er ei ødruvijs haattad, og þad er svo Andstyggelegt og Ohreint, Hvad meinar þu þa Christenn Saal, ad mune vera vort Rangglæte og Synder? Þott þier giørdud allt þad sem ydur er boded, seiger vor Endurlausnare, Þa seiged: Vier erum Onijter Þrælar. Nu ef vier erum Onijter i þvi, þa vier berum oss ad hlijda DRott ne, Hvad munum vier þa vera Svijvirdeleger þegar vier yfertrodum og forøcktum

hañs Bod og Befalningar? Þad fyrst eg er þier skylldugur uñ Lijf og Saal, og alla Dijrkan, sem þad hvortveggia kañ þier ad giallda, og i frame ad læta, Hvad hef eg þa epter, þad eg kuñe þier ad betala fyrer mijnar Synder? Þaug vor Verk sem fyrer vorum Doome sijnast ad vera Riettlæt, þau eru ei añad eñ Synd ad reikna, skylldu þau berast samañ vid Guds Riettlæte. Eitt Elldlegt Lioos, sijnest skiært liooma i Myrkrunum, Eñ ef þad er wtbored i Soolareñar Geisla, þa misser þad allañ siñ Liooma, og svo sem Formyrkvast. Opt sijnest þad Trie, ad vera Keypriett, sem epter at sañproofast bæde ad vera boged og Hlyckioott, þegar Mæle-Praadureñ er vid þad boriñ. So eins lijka sijnest eiñ Smijdis-Gripur opt Fullkomeñ fyrer þeirra Augum siñ hañ skoda, þar þo Smid ureñ sier vel, ad hañ er i mørgu Ofullkomeñ og Obweñ. Eins lijka er þad margt Einkisverdt fyrer riettu Alite þess ædsta Doomarans, sem Meñ siaalfer virda miøg Heilaglegt Verk ad vera. Þviad Guds Doomur og Mañaña eru miøg Olijker.

Mier stendur Ogn af mørgum Synd-

um, sem eg man mig hafa giört: Eñ þo eru hinar adrar eñ þo lꝏngtum fleyre, til hvørra eg eckert man, og af hvørium eg eckert veit. Hvør kañ ad kañast vid þad, hvørsu opt hañ Syndgar? Af mijnum Heimuglegum og Ovitanlegum Syndum, frelsa þu mig DRotteñ! Eg þore ecke ad upplypta mijnum Augum til Himensins, af þvi ad eg hefe stygt þañ sem a Himnum bijr og drottnar. Eg fiñ eckert Skiool nie Hæle hier a Jørduñe, þvi ecke er Von neirnrar Vinaattu nie Skiools hia Skiepnuñum, Þad fyrst ad Skiepnaña Herra og DRotteñ er af mier styggdur og moodgadur. Miñ Ovinur Diøfulleñ, klagar mig fyrer Gude a þeñañ Haatt, seigiande: Þu Riettlaataste Doomare, Dæmdu hañ ad vera mijna Eign, epter siñe Verdskuldan, med þvi hañ villde ecke vera þijn Eign, epter þiñe framboðeñe Raad og Myskun. Hañ hefur hier aadur tilheyrt, vegna þess þu hefur hañ skapad, Eñ mier heyrer hañ nu til vegna þess hañ hefur laated sier þocknast ad fremia mijn Verk. Hañ var þiñ, þvi þu Endurkeypter hañ med þijnum Dauda og

Pijnu,

Pijnu, Eñ miñ er hañ nu ordeñ, af þvi hañ hefur mier hlijdugre vered eñ þier. Hañ fieck af þier Riettlætesins og Sakleisesins Skrwda, eñ hønum hefur hañ i burt kastad, og teked i Stadeñ af mier þessa svijvirdelega Flijk Ogudlegs Frañferdis; Siaadu hañ kiemur ecke frañ fyrer þig i þeim fagra Skrwda, sem þu hefur hønum feinged, Þar fyrer er Riettvijsast, þu dæmer hañ mier til Handa, og til eilijfra Kvala med mier og ødrum Fortøpudum.

Hier ad auk aaklaga mig allar Høfud Skiepnurnar. Himeneñ seiger; Eg hefe lijst þier, svo þu hefur maatt hafa þijna Unun þar af. Lopted seiger; Eg hefe giefed þier allra handa slags Fugla, sem þier skylldu þiena. Vatned og Siooreñ seiger; Eg hefe giefed þier allra Handa Fiska-Kin þier til Fædis. Jordeñ seiger; Eg hefe giefed þier Korn og Vijn, Mat og Dryck, þier til Atviñu og Foosturs; Eñ allt þetta hefur þu brwkad til Forecktunar vid vorn Skapara; Þar fyrer skyllde allur sa Gode sem þu hefur af oss þeiged, snwast þier til Straffs og Kvala. Ellidureñ seiger; Eg

 vil

vil þig uppbreña. Vatned seiger ; Eg vil
þier drecka.

Mig aaklaga Heilager Einglar, sem Gud hefur mier giefed til Pioonustu i þessu Lijfe, og til Sambwdar og Elskulegrar Uñgeingne, i þvi Okomna Lijfenu. Þviad eg hefe med mijnum Syndum broted af mier, bæde þeirra Pioonustu hier i þessu Lijfe, svo og lijka þa Von sem eg hafde til þeirra Samveru og Uñgeingne i þvi Okomna Lijfenu.

Mig aaklagar hier ofañ a, Eigenlegt sialfs lifanda Guds Ord, sem ad er hañs heilaga Løgmaal, hvørt ad wtheimter, ad eg skule añadhvørt, allt þad giøra, sem þar iñe stendur skrifad, edur og so fyrerfarast ad eilijfu. Nu er mier Omøgulegt Løgmaaled upp ad fylla, eñ Obærelegt ad eilijfu ad glatast. Mig aaklagar loksins sialfur Gud sa straangaste Doomare, hvør ad sijnu Løgmaale hid allra alvarlegasta og streingelegasta frañfylger. Þeñañ Doomarañ kañ eg ecke ad viela med neinure Fegrun miña Maalefna, þvi hañ er siaalfur Vijsdoomureñ. Undañ hañs Dooms Alycktan kañ eg hvørge ad flya, þvi hañ er

þad Almættis Velldé, sem rijker i øllum Aattum.

Hvørt skal eg þa flya? Hvørt skal eg Skiools og Hælis leita? Til þijn alleina þu ærstwdlege og Giæskufulle JEsu, miñ einaste Endurlausnare og Sææluhiaalpare. Myklar og stoorar eru mijnar Synder, og þad er vijst, eñ mykłu stærre er sw Boot, sem þu vanst a þeim, med þiñe Forþienustu. Myked er ad søñu mitt Ræænglæte, eñ læængtum stærra er þitt Riettlæte. Vid þetta mitt Rææuglæte kañast eg, vyrdst þu þess þvi ecke vid mig ad mиñast. Eg dyl þad ecke, þar fyrer lææt þad fyrer þijnu Auglite faled. J hia mier finst eckert añad eñ þad sem mig kañ ad fordæma: J hia þier finst eckert añad eñ þad sem mig kañ Sææluhoolpiñ ad giøra. Margt hefe eg þad framed, hvar fyrer eg mætte med øllum Riette vera fordæmdur; Eñ samt hefur þu ecke þar fyrer mist þa Nææd og Giæsku, wt af hvørre þu kuñer mig aptur hoolpeñ ad giøra.

J Salomonis Lofkvæde stendur, ad eg skule fela mig i Biargskorunum. Þu sialfur ert þetta Hellu-Biarg, eñ Biargskorurnar eru þijn Saar og Under, J þeim skal eg fela mig fyrer Akløgun allra Skiepna. Mijnar Synder

 hroop-

hroopa viijst upp i Himeniñ, eñ langtum hærra hroopar þitt heilaga Blood sem wt er hellt fyrer mijnar Synder. Kreptugar eru mijnar Synder til ad aklaga mig fyrer Gude, Eñ Þusundsiñum kreptugre er þijn saara og bitra Pijna til ad afsaka mig i hañs Auglite. Myked Megn hefur mijn Illskufull Breitne, til ad fordæma, Eñ myklu meir orkar þo þitt allra heilagasta Framferde, til ad giora mig Saaluhoolpeñ. Eg appellera mitt Maal fra Riettlætis Doom-Stoolnum, og iñ fyrer Naadar-Stooliñ, og ecke vil eg añars fyrer Doomenum standa, utañ eg meige þar þijna Forþienustu og Fullnægiu fyrer mig bera.



## Auñur Hugvekia.

Uppvakning til Ydrunar wt af Umþeinkingu og Ihugan Christi Pijnu.

Hugleid og athuga Saala mijn, hær bitru og beisku Kvaler þijns Endurlausnara, sem fyrer þig a Krossenum Pijnest. Athuga hañs sundurflecktu Saar, þar hañ hanger, og hañs Offraun, þar hañ Ondena uppgiefur. Þad Signada Høfuded, fyrer hvoriu sig audmiykia og lijtelæcka þeir Vollldugu Himneſku Andar, verdur i sundur-rifed og krassad med Þyrnaña-Broddum. Þad Signada Andlited, sem ber Frijdleik langt yfer alla adra Mañaña Sonu, verdur med Hrakum Ogudlegra Skalka saurgad og svijvirdt. Þaug Blessudu Auguñ, sem

skiærare

skiærare eru eñ Sooleñ, Formyrkvast og missa sijna Stoon i Andlætenu. Paug Allra helgustu Eyruñ, sem hlijda eiga til Einglaña Packargiorda og Lofsaungva, verda ad heyra uppa Ogudlegra Syndara Spott og Bryxl-Yrde. Sa signade Muñureñ sem predikar wt af Guds Leyndardoomum, og Einglunum kieñer, verdur hier ad drecka Gall og Edik. Peir Blessudu Fæturner; Fyrer hvørra Foot-Skør vier framfollum, og giorum vorar Bæner, peir verda med Noglum ñidur fester. Pær Blessudu Hendurnar, sem hafa Himnana wtpaned, verda a Krossenum wtpandar. Sa allra Heilagaste Lijkame, sem er pad allra hreinasta og Oflekkadasta Herberge og Bwstadur Guddoomsins, verdur med Svipum sleigeñ, og med Spioote i giegnum lagdur. Jaa, hañ gat ecke hrært neirn Lid eda Lim, utañ alleinasta sijna blessada Tungu, med hvørre hañ bad fyrer peim sem hañ Krossfestu.

Hañ sem med Fodurnum stioornar og rijker, hañ er a Krossenum mieg Hørmulega wtleikeñ af Syndugum Moñum. Gud lijdur hier forsmænarlega Pijnu.

Gud sialfur wtheller hier sijnu Bloode. Af Stærd þessa Bitalingsins maa raada, i hvorre og hvilijkre Hættu, ad vier aumar Mañeskiur høfum vered staddar. Af so dijrmætre og myked kostande Lækningu maa siaa, hvad hættelegur ad hafe vered vor Siwkdoomur Stoor hafa þau Saareñ vered, sem ecke kuñu ad læknast, utan med Saarum þess Lijfkroptuga Holldsins JEsu Christi. Þad hefur ad søñu verid þwungt Kraankdæme, vid hvøriu eckert añad aatte, eñ alleinasta Daude Læknarans.

Athuga med þier, þu Christiñ Saal, þa breñande Heiptar Reide Guds i giegn Syndeñe. Guds Eilijfur og Elskulegur Sonur bad Fødureñ fyrer oss, epter þad vorer fyrstu Forelldrar høfdu syndgast; Ecke kuñe eñ þa ad riena hañs Reide. Sa hiñ same giørdest Medalgaangare vor hia Fødurnum, fyrer hvørn hañ hafde Himeneñ skapad; Eñ ecke kuñe þar med ad riena hañs Reide. Endurlausnareñ Jklæddest Mañdoomlegu Hollde, so ad hañ meddeillde þvi Guddoomsins Dijrd og Vegsemd, og uppa þad ad su Mañdoomlega

Naattur-

Nattúran̄ helgadest þar af, og ad sïv eyt-
rada Syndan̄a Soott utdreifdist wr voru
Hollde, med þeim sterka Lækniſdoom fylle-
legs Riettlætis, hvørt þa var orded sam-
teingt voru Hollde; Ecke kun̄e en̄ þa þar
med ad stillast Fodursins Reide. Endur-
lausnaren̄ hlaut ad taka uppa sialfan̄ sig
allar vorar Synder, og so allt þad Straff
sem þær høfdu forskulldad; Þar fyrer læ-
tur han̄ binda sin̄ Blessada Lijkama, Han̄
lætur slaa han̄, særa han̄, stijnga han̄,
Krossfesta, Deyda han̄ og nidurleggia
han̄ i Grøfena. Blooded ren̄ur, dynur og
drijpur, wt af øllum Lidum og Limum
Herrans Christi, wt af Ofraun Pijnun̄-
ar. Han̄s allra Helgasta Saal hryggest
wr Maata. Jaa, hun hryggest allt til
Dauda, og fin̄ur til Helvijtskra Kvala.
Sa eilijfe Sonur Guds verdur ad hroopa
og klaga þar yfer, ad han̄ sie yfergiefen̄,
af sijnum Himneska Fødur. So aakaf-
lega sveittest han̄ Bloodenu, og i so stoorre
Hiartans Angist og Hrellingu var han̄
staddur, ad han̄ vard ad þiggia Styrk og
Huggun af einum Eingle, hn̄ sem þo Hug-
hreyster og styrker alla Eingla. Jaa, han̄
sem

sem ad øllum Lifande Skiepnum giefur Lijfed „verdur ad deya. Ef þetta skiedur vid þad græna Tried ; Hvad mun þa skie vid þad visnada ? Kome slijk Hefnd fram vid þan Heilaga og Riettlaata, hvad mun þa skie vid þan Synduga? Hvad hart mun sa straffa þa enu Raanglaatu, fyrer þeirra eigen Synder, sem svo hart tekur uppa þan Riettlaata fyrer annarlegar Misgiorder ? Eda hvørnen skyllde han kunna ad lijda þad vid Prælana, sem han straffar Sonen fyrer so Vægdarlaust ? Hvad meinar þu þa, þeir munu eiga fyrer Hondum sem han alldeilis fra sier wtskwfar, þar sa lijdur so þwngar Kvaler, sem han hefur sier allra kiærastan ? Ef ad Christur slapp ecke fyrer utan Straff, sem þo kom fyrer utan Synd ; Hvad mykels Straffs eru þa hiner verder, þeir sem koma med Synden i Heimin, lifa i Synden og deya burt i Synden ? O! hvad stoor Heimska er þad, ad Prællen er Ofkaatur, þar ed Sonuren lijdur hans vegna so hardar Hefnder ? Er þad tilheyrelegt, ad Prællen auke Synd a Synd ofan, og sem leike sier ad Raanglætenu, þar Synenum verdur

dur so þrongsookt ad gieta mykt og stillt Fødursins Reide? O! hvad Oendanleg er hañs Bræde? O! hvad Oransakañlega stort er hũs Riettlæte? Sa sem so hrædelega refsar sijnum Elskulegum Syne, ecke fyrer neina hañs eigeñ Søk; Helldur allei na þar fyrer, ad hñ vill frija Prælen; Hvad meinar þu hñ mune þa giøra vid Prælleñ, sem Uggalaust og Ottalaust, leikur sier ad sijnum Syndum og Illsku, og lætur ecke af? Vel være tilfalled, þo Prælleñ af Otta skylse og titrade, og yrde hryggur, vegna siña forþient u Lauma, þar Sonureñ verdur so hart straffadur hũs vegna, hvør þo til einskis Ills hefur uñed. Vel er til fall ed þo Prælleñ skielfest og hrædest, sa sem ecke lætur af ad misgiøra; Þar Sonureñ lijdr so margt og miked fyrer Syndernar. Vel ma Prælleñ vera Ottasleigeñ og Ugg ande um̃ sig, saa sem deydt hefur siñ eigeñ Herra. Vel maa saa Synduge og Ogudlege vera Ottasleigeñ, sa sem þañ Blessada og Heilaga so þiaade. Nu vel elskuleger Brædur, laatum oss heyra þad hañ til vor hroopar. Laatum oss giæta ad hvad hañ oss graatande seiger. Hugleid þu Madur

(seiger

(seiger hañ) hvad eg lijd fyrer þig, og þiña vegna. Til þijn hroopa eg; Þviad þiña vegna lijd eg. Siaa þu þad Straff sem eg þole. Siaadu þa Nagla, med hvørium mitt Holld verdur i giegnum grafed: Mun nockur Pijsl so stoor, ad lijkiast meige vid þessa Pijnu sem eg lijd? Og þo ad su ytre Kvøleñ ligge saart aa, þa liggur þo laangtum saarara a mier su iñre Sorgeñ, sem kiemur þar af, ad eg fiñ og formerke, ad þu ert so Oaþeckaatur fyrer allt þetta.

Myskuna þu oss, Myskuna þu oss hiñ Einaste Myskunsemdaña Herra, og snw þu vorum Stein-Hiørtum til þijn, AMEN:

## Þridia Hugvekia.

### Uñ Avøgst riettrar og sañrar Ydrunar.

RJett og søñ Ydran, er Grundvøllur og Upphaf þesseilijfa Lijfs, Þviad hvar sem ad er søñ Ydran, þar er og Fyrergiefning Syndaña, Eñ þar sem er Fyrergiefning Syndaña, þar er Guds Vingan, Eñ þar sem Guds Vingan og Vinaatta er, þar er Christur, Þar sem Christur er, þar er hañs Forþienusta, Þar sem Christi Forþienusta er, þar er aanægianlegur Betalñingur fyrer Syndernar,

Þar

Par sem ad er fullnægiu Betalingur fyrer Syndernar, þar er Riettlæted, Par sem Riettlæted er, þar er glød og roosøm Samvitska, þar sem er glød og roosøm Samvitska, þar er Heilagur Ande, hvar Heilagur Ande er, þar er sü Guddoomlega Preñing, þar sü Blessada Guddoomsins Preñing er, þar er og eirneñ eilijft Lijf. Hvar fyrer ad þar sem riett og søñ Ydran er, þar er og eirneñ eilijft Lijf. Par þvert aa moote, þar sem ecke er riett og søñ Ydran, þar er og ecke helldur Syndaña Fyrergiefning, ecke Guds Vinaatta, ecke sialfur Christur, ecke Christi Forþienusta, ecke Fullnægia nein fyrer Syndernar, ecke Riettlæted, eige good nie Roosøm Samvitska, ecke H. Ande, ecke Heiløg Preñing, og ecke helldur eilijft Lijf. O! hvad blinder erum vier þa, ad vier drøgum undañ vora Ydran, þvi skulum vier skioota heñe aa Frest til Morguns? Hvorke Morgun-Dagureñ, og ei helldur Ydraneñ er i voru Vallde, og þvi ættum vier ad taka þad hvørtveggia medañ þad giefst. Par kiemur, ad vier verdum fyrer Doomenum Reikningskap ad standa, ecke alleinasta

aſta fyrer Epterkomande Dageñ, edur Morgun-Dageñ, helldur og eirneñ fyrer þañ Dag ſem i Dag er. Ecke er neinum þad ſo viſt, ad hañ mune til Morguns lifa, ſo ſem þad er viſt, ad þeim Ogudlegu er Fyrerdæmingeñ fyrerbweñ. Gud hefur fyrerheited þeim Syndaña Fyrergiefningu ſem ydruduſt, eñ þad, ad þeir ſkylldu lifa til Morguns, þvi hefur hañ þeim ecke fyrerheited. Ecke heyrer þeim til Chriſti Fullnægia, ſem ecke hafa ſañarlegt Angur og Trega i Hiartanu vegna Syndaña. Vorar Synder ſkilia aa mille Guds og vor (ſeiger hiñ heilage Eſajas Spaamadur) Eñ fyrer Ydranena ſnijr Mañeſkiañ aptur, og naalæger ſig Gude uppaa nijtt. Slaa til ad þu þecker þijna Synd, og laater þig hana af Hiarta aangra, þa muntu viſſulega fiña, ad Gud er þier Naadugur fyrer Chriſtum.

Eg wtſkief edur wtſliette þijnar Synder, ſeiger DRotteñ. Þar af er ad merkia, ad þær hafa aadur vered uppſkrifadar i þeirre Himneſku Naadſtofuñe, Þad fyrſt þær verda wtdregnar, edur ad nyu wtſkafnar. Snw þijnu Auglite fraa mijnum

num Syndum, seiger Spamaduren Da vid, Þar af er ad merkia, ad Gud lijtur til Syndaña, og giefur Gaum ad þeim, so ad hañ straffe þær fyrer sijnu Auglite. Snwdu aptur til vor, seiger hiñ Heilage Moyses. Þar af er ad merkia, ad Synd-ernar snwa Gude fra Moñunum, og skil-ia so ad Gud og Meñ. Vorar Synder andsvorudu oss, seiger hiñ heilage Esajas, Þar af siaum vær ad þær klaga oss fyrer Riettlætis Doom-Stoole Guds lifanda. Hreinsa þu mig af mijnum Syndum, seiger David, þar af maa merkia, ad Syn-dernar eru sa andstyggelegaste Saurleike i Guds Auglite. Lækna þu mijna Önd þviad eg hefe syndgad aa moote þier, seiger og David i odrum Stad. Hier af maa siaa, ad Syndeñ er eitt skadnæmt og þun-gt Kraankdæme Saalareñar, hvorn sem syndgar i moote mier, þañ skal eg wtskafa af miñe Book, seiger Endurlausnareñ. Hier af er ad merkia, ad vegna Syndar-eñar verda Meñ wtskafner af Lijfs-Book-enne.

Utsnara mier ecke fra þijnu Auglite seig-er David, Þar af maa siaa, ad Syndernar

faa þvi orkad, ad Madur verdur þeirra vegna wtſkwfadur fra Guds Auglite.

Tak ecke þiñ Heilaga Anda fra mier, ſeiger David i ſama Pſalme, Hier wt af er ad merkia og ſkilia, ad med Syndunum verdur ſa Heilage Ande wtrekeñ af voru Hiartans Herberge og Muſtere. Jaa, Heilagur Ande verdur eins i burtſtygdur med Syndunum, ſvo ſem þad Biiflugurnar verda i burtu drifnar med Reyknum, og Dwfurnar med illum Daun.

Gief mier aptur Glede þijns Hiaalpræðis, ſeiger David: Þar af ſiaaum vier, ad Syndernar giøra Hugſkoted hryggt, og taka i burt alla Hiartans Hugſvølun. Landed er ſaurgad af þeim ſem i þvi bwa, hvørier ed brioota Guds Løgmaal, ſeiger Eſajas Spaamadur: Þar af maa merkia, ad Syndeñ er ſo ſem eitt næmt Eytur, ſem ſnarlega og hættelega kañ ad ſpilla og fordiarfa øllu þvi ſem hana ſnerter. Af Diwpenu hroopa eg til þijn Drotteñ, ſeiger David: Med hvørium Ordum hañ vill kieña, ed Synder og Leſter nidur ſøckve Mañeſkiuñe allt til Helvijtis.

Vier vorum Fordum Dauder i vorum

Synd-

Syndum, seiger Postuleñ: Er þa ecke audskiled, af þeim Ordum, ad Syndeñ er eirn Andlegur Daude Saalareñar? Med sialfviltuglegum Syndum, sem Madur giører þvert a mootSamvitskuñe, þa misser hañ Gud siñ Skapara. Nu er Gud Eilijfur og Oransakanlegur Goode, hvad er þa añad ad syndga, og missa þañ Eilijfa Gooda, eñ ad taka i Stadeñ Eilijfa Oransakanlega Eymd og Ogiæfu? So sem Gud er sa allra beste og ægiætaste Hlutur, medal alls þess sem Nafn hefur, So er Syndeñ sa allra verste og andstyggelegaste sem nefnast kañ. Kross og Mootgæangur er ecke illur i sialfum sier, i Raun og Sañleika, þvi hañ leider epter sig margt Gott. Ad Kross og Mootgæangur sie eirn goodur Hlutur, þad bevijsast þar af, ad hañ kiemur fra DRottne, fra hvørium ecke kañ ad koma nema Gott, þvi hañ sialfur er sw ædsta Giæska og Goode. Kross og Mootgæangur ætte heima hia Christo so leinge sem hañ umgieckst i þessu Lijfe, Nu er þad audvijst, ad eckert þad sem i Raun og Sañleika er i sialfu sier Illt, kañ ad eiga heima hia þeim besta HErranum, Hvørium øll

Giæſka er Eigeñleg.

Kroſs og Mootgaangur leider og eirneñ Mañeñ til eilijfra Giæda, þad er til eilijfs Lijfs, og þvi kañ hañ i Sañleika ecke illur ad kallaſt. Fyrer Kvøl og Pijnu, edur ſo ſem i giegnum Kvøl og Pijnu, þa iñgieck Chriſtur i ſijna Dijrd. Eins lijka iñganga og þeir enu Chriſtnu til þeſs eilijfa Lijfſins i giegnum adſkilianlegar Eymder og Hørmungar. Þar fyrer er eingeñ Hlutur ſo Illur og Vondur ſem Syndeñ, hvør ed dregur Mañeſkiuna fra þeim allra ædſta Gooda, ſem er fra heñar Gude og Skapara. Þeſs meir ſem þu naalgaſt Gud, þeſs leingra ertu burt fraa Syndeñe, og þeſs nær ſem þu ert Syndeñe, þeſs fiær ertu Gude.

O! hvad Heilſuſamlegur og aagiætur Hlutur er þar fyrer Ydraneñ, hvør ed leid er og dregur aptur fraa Syndeñe og til Guds lifanda? Syndeñ er i Raun ad reikna ſvo ſtoor ſem ſa er, ſem hun er aa moote drigd og broteñ. Nu vitnaſt ſo uñ Gud, aa moote hvørium allar Synder verda framdar, ad Himen og Iord, faae hañ ecke iñeluctañ. Hvad Ognarleg maa

þa vera Stærd Syndareñar? Eñ allt uñ þad, þa er Ydraneñ so stoor, ad þa hun skygger æ Syndernar, þa kuña þær ecke ad verda siedar leingur af Gude.

Þañ hiñ Synduga æklagar Samvitskañ, hvøria hañ hefur saurgad, Skapareñ, hvørn hañ hefur moodgad, Søkeñ, a moote hvørre hañ kañ ecke ad þræta, og Skiepnur Guds, med hvøriar hañ hefur illa og Oriettelega fared, jæ, Einglar Guds sem hañ hefur fra sier fælt so tijtt, og Diøfulleñ, hvørs Vilia og Aeggian hañ hefur blijdt.

O! hvad Nytsamlegur, og Heilsusamlegur Hlutur er þa þar fyrer Ydraneñ, sem ad oss frijar fra so stoorum og hættelegum Kiæru-Mæalum og Aklögunum? Kappkostum þar fyrer i JEsu Nafne, kappkostum ad næ so dijrmætum og kræptugum Læknisdoom, fyrer so skadnæmre og bañvæñre Soott Syndareñar.

Hvør sem ecke giorer fyrre Ydran, eñ i siælfum Daudanum, hañ yfergiefur ecke siælfur Syndena, helldur yfergiefur Syndeñ hañ, þvi hañ kañ valla leingur ad syndga þo villde.

Þar finst valla neitt Dæme, ad neirn hafe giort sañaYdran, sem eige hefur teked sig til ad ydrast, fyrr eñ midt i sijnum Dauda og Andlaats-Stundu, utañ alleina Ræningians aa Krossenum. Eg hefe þienad þier i Fioortan Ar, og þvi er Tijmeñ tilkomeñ ad eg hugse fyrer sialfsum mier og mijnu Hwse, sagde hiñ hellage Jacob Forfader vid Maag siñ Laban.

Hafer þu nu þioonad þessum Heime i so laangañ Tijma, edur kañ skie leingur, Mun þa ecke Raadlegt ad taka til ad hugsa nockud fram i Veigeñ uñ Velferd Saalareñar? Vort Hollð eykur sig i Syndunum Daglega, þvi være Þørf, ad Andeñ edur Jñre Madureñ afþvæge þær Daglega med Taarum Ydranareñar: Þaug Ydrunar-Taar faa siñ Krapt i Bloodenu Christi. Christur er þar uppaa daueñ, ad Syndeñ skylde i oss deya, skylldum vier þ i vilia leifa heñe ad lifa i vorum Hiertum, hvørre ad Christur so alvarlega villde fyrerinuna, ad lifa i oss, ad hañ ütgaf þar til sitt eiged Lijf i Daudañ? Guds Sonur geingur ecke iñ i þess Mañs Hiarta med Naadeñe, þar sem Johañes hefur ecke aad-

ur tilbwed honum Veg med Ydraneñe: Gud deyder fyrst med Angre og Trega, so hañ sijdañ lijfge med Huggun heilags Anda. Hañ leider fyrst til Helvijtis med Tilfiñingu Guds Reide, so hañ leide aptur þadañ med Sætleiks Smeck Gudlegrar Nædar-Giæsku.

Esajas Spamadur heyrde i siñe Vitran, fyrst koma eirn myken og sterkañ Storm-Vind, sem uñ koll kastade Fiøllunum og sundurmolade Biørgeñ og Steinana, og epter þañ Storm-Vind, stooran Jardskialfta, og epter Jardskialftañ sa hañ myken Elld, eñ um sijder sa hañ ad kom eirn hægur og miwkur Vindblær: Fyrer Vind-Blæ þeñañ merkest Guds Astar Ilur, til hvørs Mañestiañ kañ ecke ad fiña, utañ ædur hafe undañ fared Ogn, Skielfing, og saart svijdande Samvitska, vegna Syndareñar Þeckingar, Þvi sa sem huggast skal, hañ verdur ædur ad vera ordeñ Hryggur. Sa sem Sediast skal, hañ verdur ædur ad verda Hungradur. Gud læknar einskis þess Saar, sem ecke kañast vid þaug, og lætur sier þikia Raun ad þeim: Gud skijler ecke Syndunum, utañ þu þær ædur vidurkieñer og drager af þeim Skijluna: Hañ fyrergiefur ecke þa Synd, sem þu villt ei medkieña fyrer Synd: Hañ giører þig ecke Riettlætañ, utañ þu vidurkieñer og þig þecker ædur Rangslætañ: Hañ huggar þig ecke, utañ þu fiñer i þia sialfum þier øngva Huggun. Soddañ rietta og saña Ydran, virdstu goode Gud med þijnum heilaga Anda ad uppvekia i oss og vorum Hiørtum, Amen.

## Fioorda Hugvekia.

Uñ þad Sæta JESU Nafn.

Þu Goode JEsu, Vertu mier JEsus, þad er Frelsinn og Hiaalp minnar Saalar, og Myskuna mier þu sem hefur þitt Nafn af Frelsun og Myskun. Þo mitt Lijferne fordæme mig, þa samt mun Nafned þitt JEsu, giora mig Saaluhoolpenn. Fyrer þetta þitt sæta Nafn, Bid eg þu giorer vid mig, epter þvi sem þitt sæta Nafn hlioodar, þad er ad þu frelser mig og hiaalper fraa Fordæminguñe. Med þvi þu ert sa sañe og millde Hiaalpar-Mañ, þa muntu og eirnin þaa til Naadar taka, sem snarlega hafa myklar og stoorar Synder drygt.

Myskuna þu mier goode JEsu, aa med añ Myskunar-Tijmeñ yferstendur, svo eg verde ecke af þier fordæmdur seirna meir, þegar Naadar-Tijmeñ er wte, og Tijme Doomsins og Riettlætesins tekur til, þott þu taker mig iñ i Faang og Skaut þiñar Myskunar, þa verdur þar eins myked Rwm handa ødrum, epter sem aadur, so eingeñ þarf þadañ fyrer mig wte ad lykiast, þo þu goode JEsu gieser mier Molana, af þiñe Giæsku og Myskun, þa mun eingeñ Þurd a heñe siaast samt sem aadur.

Þu

Þu ert miña vegna Fæddur, miña vegna Umſkoreñ, miña vegna ertu og eirneñ JEſus ordeñ, þad er, vor Hiaalpare og Frelſare. O! hvad ſætt og Hiartanlega Gledelegt er þetta Nafned? Hvad er JEſus añad eñ Saaluhiaalpare, hvad kañ þa þeim Saaluhoolpnu ad bera til Meina? Hvad er þad añad ſem vier kuñum ad gyrnaſt, Oſka oſs edur vænta, auk Saaluhiaalpareñar? Taktu mig O Drotteñ JEſu, iñ i Tolu þiña Elſkulegra Barna, ſvo eg kuñe saamt med þeim ad lofa og dijrka þitt Heilaga Lijfkroptuga Nafn. Þott eg hafe firt mig mijnu Riettlæte, ſem þu hafder mier giefed i Upphafe, þa hef eg ecke kuñad ad ſneida þig þiñe Myſkunſeme, ſem hvørke hefur Upphaf nie Enda. So hægt ſem mier hefur vered, ad ſteypa mier i Fyrerdæmingu og Daudañ, ſo hægt er þier ad frelſa mig.

Miñ Gud og O Drotteñ, giæt ei ſo frekt ad mijnum Miſgiørningum, ad þu gleymer þiñe Myſkunſeme

Laat ecke ſo myked rijda mijnar Synder, ad þær kuñe upp ad vega þijna Forþienuſtu, og ſijnaſt þijngre eñ hun, i Meta

skaalum þijns Riettlætis. Siaa þu ecke so grant epter miñe Jllsku, ad þu gleymer þiñe Giædsku, minstu ecke þiñar Reide vid mig sekañ, helldur minstu þiñar Myskunsemdar vid mig Aumañ, þu sem mier hefur giefed þad Hiarta-Lag, ad eg kuñe ad laata mig laanga til þijn, af Hug og Hiarta. Muntu nockud vegna þiñar Hiarta-giædsku, gieta faled þig fyrer þessare miñe Hiartans Gyrnd og Epterlaangan? Þu hefur fram̃ fyrer mig sett miñ Overdugleika og Synder, med hvørium eg hefe med riettu forþienad eilijfa Fyrerdæming. Muntu nu gieta byrgt fyrer miñar Saalar Augum þijna Forþienustu og þitt Fyrerheit mier wtgiefed um̃ þad eilijfa Lijfed? Mitt Maalefne kiemur ad soñu under Doom aa Himnum, Eñ þad gledur mig ad i þetrre Himnesku Raad-Stofuñe, þa var þier giefed þad Nafn, sem merker Frelse og Lausn, þvi ad af Himnum ofañ kom Eingilleñ, med þad signada JEsu Nafn til Mariu Meyar.

O! þu allra Myskunsamaste JESu, hvørium skalltu vera JEsus (þad er Frelsare) ef þu skyllder ecke vera þeim aumu

Synd-

Syndurum JEsus, sem leita sier Naadar og Hiaalpar hia þier einum? Þeir sem treysta uppaa sitt eiged Riettlæte, þeir leita Frelsis og Saaluhiaalar hia siaalfum sier: Eñ med þvi eg fiñ þad eckert i hiaa mier, med hvøriu eg kuñe ad hafa forþienad eilijft Lijf, Þa flÿ eg til þijn þu goode Frelsare og Hiaalpar-Mañ. Hoolpeñ giør þu mig, sem fraam fyrer þig kiem Fordæmdur. Myskuna mier sem til þijn kiem, Synd unum hladeñ. Giør mig Riettlaataañ, sem til þijn kiem Oriettlaatur. Gief mier Sigur i mijnu Maale sem er þwnglega aaklagadur.

Þu DRotteñ ert Sañleikureñ, og þvi er þitt Nafn i Sañleika þad hid sama sem þad þijder, Þar fyrer laattu þad og eirneñ sañast a mier. Vertu mier og eirneñ JEsus, þad er Saaluhiaalpare og Heilsugiafare. Vertu mier JEsus i þessu Lijfe. Vertu mier JEsus a Daudastunduñe. Vertu mier JEsus aa þeim ydsta Doome. Vertu mier JEsus i þvi eilijfa Lijfe. An Efa muntu mier aa øllum þessum Tijmum, JEsus, þad er Frelsare og Hiaalpare reynast, þviad svo sem þu ert Oumbreytañleg-

aññlegur i þiñe Veru, ſo ertu Oumbreyt-
añlegur og alltijd hiñ ſame i þiñe Myſk-
unſeme.

Ecke muntu mijns eins vegna, þo eg ſie
aumur Syndare, uñbreyta þijnu Naf-
ne, helldur muntu og ſvo vera mier, JE-
ſus, Frelſare, þvi þu wtrekur ongvañ þañ
fraa þier, ſem til þijn kiemur, þu ſem mier
hefur giefed þad Siñe ad villia koma til
þijn, þu munt og eirneñ þad veita, ad þa eg
kiem, þa verd eg eirneñ og medtekeñ, og ecke
wtſkwfadur, þviad þijn Ord eru Lijf og
Sañleike. Þar fyrer, þott ad Uppruna
Syndeñ (hvoria eg hefe i Nattu1ruñe, og
med Nattuñe Erft epter mijna Fyrſtu
Forelldra) hun Fordæme mig, þa ertu þo
ſamt miñ JEſus, ſem mig fraa heñe frel-
ſar.

Þott miñ Syndſamlegur Gietnadur
fordæme mig, þa ertu þo ſamt miñ JE-
ſus. Þott mijn Saurug og Syndum
ſpillta Fæding, ſem er Bolvan Logmaal-
ſins under orpeñ, hun fordæme mig, þa
ertu þo ſamt miñ Saaluhiaalpare edur
JEſus. Þott Synder mijns Ungdooms
fordæme mig, Þa ertu þo ſamt miñ JE-
ſus.

sus. Þott allt mitt Framferde sem hefur vered saurgad og fleckad alla mijna Lijf-Daga, med hrædelegum Glæpum og stor-Syndum, þad fordæme mig, þa ertu samt og blijfur minn JEsus. Þott Daudenn, hvør ad er forþient Laun minna Saka og Synda, hann fordæme mig, Samt ertu minn JEsus. J hia mier er Synd, Overdugleike og Fordæming, Enn i þijnu Nafne, er Riettlætingenn, Utvalningenn, og Saaluhiaalpenn. J þijnu Nafne er eg skijrdur, A þitt Nafn trwe eg. J þijnu Nafne vil eg deya. J þijnu Nafne vil eg uppriisa. J þijnu Nafne fyrer Doomenn koma.

J þessu Nafne eru oss aller gooder Hluter til Reidu, og i þvi innelukter, svo sem i einum rijkuglegasta Fiesiood. Þessum Fiesiood kann eckert annad ad svoa edur eyda, enn alleina mijn eigenn Vantrw. Enn ad þad meige ecke skie, Þess bid eg þig minn Endurlausnare, fyrer þetta hid sama þitt Nafn, uppaa þad, ad eg ecke af mijnum Siaalfskaparvijtum, og Vantrw Fortapest, hvørn þu villt med þinne dijrmætu Forþienustu, og med þijnu Heilsusamlega og Lijfkroptuga Nafne Hoolpenn giøra, Amen.

## Fimta Hugvekia.

Hvørnenn Madur skal i Andlaatenu, styrkia og hughreysta sijna Trw, wt af Jhugan þeirrar Elsku, sem Herrann Christur hefur synt Mannlegu Kyne, þar hann þolde Dauda og Kvøl fyrer þad.

SJaa hvad stooran̄ Oriett eg giøre pin̄e heiløgu Pijnu sem þu hefur fyrer mig lided, O! Herra JEsu; Þar mitt Hiarta hryggest, og mijn Saala aangrast þar af, ad hun hefur eingen̄ sijn eigen̄ Verk edur Forþienustu fyrer sig ad bera, Laangtum meira ætte mijnu Hiarta og Saalu ad vera um̄hugad, um̄ þijna helgustu Pijnu, þviad þijn Pijna er þad gooda Verked, sem eg maa alleina fyrer mig bera, og þijn Hlijdne alleinasta er mijn Forþienusta. Oriett giøre eg þa þin̄e saaru Pijnu; Ef eg leitade vid ad setia uppa hana Boot og Lappa min̄a goodra Verka, þar þijn Pijna og hen̄ar Forþienusta hefur øngvan̄ Brest, en̄ Lappar min̄ar eigen̄ Forþienustu eru liooter, og til einkis fyrer þijnu Auglite.

Ef eg finde mig i sialfium mier Riettferdugan̄; Til hvørs ætte mier þa þitt Riettlæte? Edur hvar til skyllde eg þa þitt Riettlæte so freklega gyrnast? Vilie eg stoola uppa Legmaalsins Verk þaug sem eg kan̄ ad giøra; Þa verd eg wt af Legmaalsins Alyktaa Fordæmdur; En̄ Gude sie Lof, sem mier kien̄er þad ad þeckia, ad

eg er ecke under Løgmaalenu, helldur under Naadeñe. Eg hefe lifad Ogudlega, og syndgast i Hiñineñ, og fyrer þier, O! þu Allra Heilagaste HErra og Fader, so eg er nu ecke verdugur ad kallast þiñ Sonur.

Samt bid eg þu virdest ad kalla mig þiñ Þræl. Laat mig ecke gaanga aa mis vid þijna Pijnu, nie heñar Heilsusamlegasta Avaxtar syniad verda. Laat ecke þitt hid Allra Helgasta wthellta Blood, verda so Okroptugt, ad þad giete ecke fært þañ Avøxt hiaa mier, ad mijn Saala verde i þvi Saaluhoolpeñ. Syndernar hafa alltijd hijngad til lifad i mijnu Hollde, Laattu þær nu Loksins meiga fyrer mitt Andlaat wt af deya. Mitt Holld hefur allt hijngad til haft Yfer-Raad yfer mijnum Anda, Laat nu þar fyrer Andañ uñ sijder meiga Yfer-Hend hafa, og Sigurviña aa Holldenu. Laat þañ ytra Mañeñ forrotna, og verda Orma og Madka Fædu, svo sea Iñre kuñe ad verda upphafeñ til Dijrdareñar.

Eg hefe allt hijngad til hlijdt Dioful-sins Aeggian, og illum Iñblæstre; Eñ giefdu nu DRotteñ mier, ad sa Skadlege

Ovin,

Ovin, meige nu Lokſins Undertrodeñ verda, under mijnum Footum. Eg veit ad Diøfulleñ forſoomar ſig nu ecke ; Og ad hañ er nu nalægur, og aaklagar mig nu fyrer þier, eñ hañ hefur eckert med mig ad giøra. Daudans Ognarleg Aſynd ſkielfer mig, eñ þad Hughreyſter mig þar a moot, ad Daude þeſſe mune giøra Enda a mijnum Synda Athøfnum, og mune vera ſo ſem Upphaf og Jñgaangur til eins heilags Frañferdes. Nu Lokſins hiedan af, mun eg gieta fyllelega þocknaſt þier, miñ Drotteñ, nu Lokſins mun eg i þvi Gooda, ſo ſtyrkur verda, ad eg alldrei hiedan af hneygeſt nie teygeſt til nockrar Illſku. Diøfulleñ og Daudeñ hræda mig med mijnum Syndum, eñ eg vil vijſa þeim til ad aaklaga þañ, ſem uppa ſig took allañ miñ Vanmaatt, hvørn og Drotteñ ſloo Søkum miña Synda. Mijn Skulld er ad ſoñu miøg ſtoor, og af heñe kañ eg ecke hid minſta ad betala, eñ ſa ſem i Borgun hefur fyrer mig geinged, hañ er ſo rijkur og Giæſkufullur, ad hañ bæde kañ og vill mig kvittañ giøra, og þvi er allt mitt Trauſt a høñum alleina, og a hañs Hiarta-Giæſku.

Bitale

Bitale sa fyrer mig, sem fyrer mig hefur i Borgun geinged, Svare sa til miña Misverka, sem mijna Søk hefur ad sier teked. Eg hefe ad søñu syndgad, DRotteñ Gud, og mijnar Synder eru Oteliañlega margar, og Ouñrædelega stoorar, eñ samt skal eg ecke vera sekur i þeirre hrædelegustu Synd og Illgiørd, ad eg væne þig Lijge, edur vilie þier ei trwa, hvør ed vottar bæde med Ordum og Verkum, Jaa, og eirneñ med þijnum dijra Eide, ad fylleleg Boot og Bitalingur, sie komeñ fyrer mijnar Synder. So hrædest eg nu ecke mijnar Synder, þvi þu ert mitt Riettlæte. Eg hrædest ecke mijna Heimsku og Faavitsku, þvi þu ert miñ Vijsdoomur og Speke. Eg hrædest ecke Daudañ, þvi þu ert mitt Lijf. Eg hrædest øngva Villu, þviad þu ert miñ Sañleiks Vegur. Eg hrædest ecke Forrotnunena, þviad þu ert mijn Upprisa. Eg hrædest ecke Daudans Harmkvæle, þvi þu ert mijn Hiartans Glede og Giedfrooe. Eg hrædest ecke þañ strauga og sijdasta Doom, þviad þu ert mitt Riettlæte. Lauttu wtflioota og reña, til miñar þyrstrar og uppþornadrar Saalar, Bøkva þiñar Lijfs-

kroptugu Naadar og Huggunar. Miñ Ande hiadnar nu, og ſvo ſem uppþornar, eñ iñañ ſkams mun hañ i mier Endurkvikna og Gladvær verda.

Mitt Holld ſer nu hnygnande til Forrotnunar, Eñ iñañ ſkams mun þad aptur bloomgaſt. Eg verd nu ad rotna og foreydaſt, Eñ þu þeſſare Rotnan og Foreydingu, muntu mig frelſa, þu ſem hefur mig frelſad, fra øllu Illu, þu hefur ſkapad mig, Hvørneñ kañ Verk þiña Handa ad forgaanga? Þu hefur keypt mig frij fra øllum mijnum Ovinum, Hvørneñ kañ Daud eñ þa ad hafa Valld yfer mier? Þu hefur tilkoſtad þijnum Lijkama og Bloode, Lijfe og Ædum, Jaa, ſiaalfum þier, til þeſſ ad kaupa mig aptur i Frid og Frelſan, og ad giøra mig aptur Saaluhoolpeñ. Med hvørium Riette ſkyllde þa Daudeñ meiga hallda þvi ſem þu hefur med ſo dijrmætu Verde keypt og til þijn leyſt? Þu DRotteñ JEſu ert ſiaalft Riettlæted, þvi munu Synder mijnar ecke kuña ad megna a moote þier. Þu ert ſiaalft Lijfed og Uppriſañ, og þvi mun miñ Daude verda undgñ ad laata. Þu ert ſañur Gud, þvi mun

Diofullen̄ eckert meiga ſier a moote þier. Þu hefur giefed mier þin̄ Heilaga Anda, til eins Pants, uppaa allt þad Gott, sem þu hefur mier Fyrerheited. Vid þeñan Pant une eg mier, Vid han̄ gled eg mig, af honum hrooſa eg mier, Trwande þvi Stadfaſtlega og aan alls Efa, ad eg mune iñleiddur verda til Brwdkaups þeſſ Bleſſada Lambſins.

Þa verdur þu mitt Brwdkaups-Klæde miñ Hiartanlegaſte Brwdgume, þviad i Skijrneñe Iklæddeſt eg þier; Þu munt þvi fullkomlega dylia mitt Klædleyſe, med Fegurdar Skrwda þijns Signada Riettlætes. Vid þeñan fegurſta Riettlætes Skrwda, vil eg ongvañveigeñ feſta þa lîootu Leppa og Totra mijns eigeñlegs Riettlætes, edur miña goodra Verka. Hvad er Riettlæte vorra eigeñ Verka, añad ad reikna eñ Saurugur Dwkur eirnrar Blodfallsſiwkrar Kviñu? Hvorneñ ſkyllde eg dyrfaſt ad feſta þañ andſtyggelegaſta Klwt, uppa þad allra Dijrmætaſta Riettlæteſins Klæde Herrans Chriſti. I þeſſum þijnum dijrmæta Riettlætes Skrwda, ſkal eg fram̄koma a Eſſta Deige, fyrer

er þitt Auglite, þegar þu dæmer Heims Kryngluna med Riettvijse, og Sañgyrne. J þessum Skrwda skal eg koma fram fyrer þitt Auglit i Dijrd þijns Himneska Rijkis ad eilijfu. Þesse fagre og dijrmæte Skrwdiñ mun hylia mijna Blygdun, og mitt Bryxle, svo ad þess verde alldrei framar meir minst uñ alla Eilijfd. Þar mun eg byrtast og siaast Dijrdlegur og heilagur fyrer þijnu Auglite, og þetta mitt Holld, og þesse miñ Lijkame, mun þa J-klædast eilijfre Dijrd og Vegsemdar-Kiooma, Jaa, þeirre Dijrd og Vegsemdar-Kiooma, sem alldrei dvijn og alldrei þverrar, uñ Eilijfd allra Allda.

Kom þu snarlega HErra JEsu, aller þeir sem þig af Hiarta Elska, seigia: kom þu snarlega og dvel ecke leingur.

## Siøtta Hugvekia.

Huggun eitnrar Ydrande Sæalar, sem heñe stendur af Pijnuñe Christi, wtdreigeñ af Ordum hins H. Anshelmi Læresøðurs.

Nŭll Vegsemd og Hroosan Christiña Maña, er komeñ under Forsinaan og Fyrerlitningu HErrans Christi, og hañs Pijnu. Øll þeirra Hægd og Roosemd, stendur þeim wt af Saarum og Benium Endurlausnarans. Vo-

rt Lijf er faled i hans Dauda, vor Vegjemd i hans Upphafningu. O! hvad mykel er þijn Myskunsemе, þu Himneske Fader, og Almættuge goode Gud? Ad styggia þig, þad kunne eg ad gieta giort af mijnum Krapte, Eñ hitt, ad sætta mig aptur vid þig, þvi kuñe eg ecke ad faa orkad af mijnum Krapte, þar fyrer gieckstu til, og komst mier aptur i Saatt vid sialfañ þig med Pijnu og Dauda þijns Sonar.

Hugleid nu þar fyrer, þu Heilage HErra Gud, þa furdañlegu Sameingingu mijna vid þig, þar þiñ eigeñ Son er ordeñ Holld af mijnu Hollde, og Blood af mijnu Bloode, og fyrergief mier þess vegna þa Synd og Saurgan, sem eg ber i mijnu Hollde. Alijttu þad sem þiñ goode Sonur hefur lided, og fyrergief þess vegna, þad sem þiñ illur Þræll hefur broted. Mitt synduga Holld og Blood hefur reitt þig til Reide, eñ þijns Sonar Allra Heilagasta Holld og Blood stiller þig aptur til Frids vid mig. Myked Illt hefur mijn Illska og Ohlijdne forskulldad, eñ længtum meira Gott hefur Giæska og Hlijdne mijns Endurlausnara forþienad.

Myked og stoort er mitt Oriettlæte, en myklu meira og stærra er þo mijns Endurlausnara Riettlæte. Hvad so mykla Yferburde, sem Gud hefur yfer Synduga Mañeskiu, So myked hefur og Giæskañ HErrans Christi yfer mijna Illsku, Allt þad eg er, er þitt og þier undergiefed, Laat þad og eirneñ vera allt af þier elskad.

Þu sem giefur mier þa Naad, ad eg giete þig beded, Veittu mier eirneñ þa Naad, ad eg verde Bænheyrdur uñ þad eg bid. Þu veiter mier þa Naad, ad eg leita þijn, Veittu mier og eirneñ þa Myskun, ad eg faae þig funded. Þu kieñer mier ad knya a Naadar Dyrnar, Ljwk þar fyrer upp fyrer mier, þa eg ækny. Þu hefur giefed mier ad gyrnast þijna Naad, Gief þu mier og ad ødlast hana. Þu hefur giefed mier Viliañ til þess Gooda, Gief mier og eirneñ þad sama ad gieta framkvæmt.

Þu Heilage HErra Gud og Riettferduge Doomare, Sie svo eg dylie mijnum Syndum, þa eru þær Olæknañlegar, Eñ ef eg opeñbera þær, þa eru þær Vidurstyggelegar. Þær særa mig i Hiartanu, og skielfa mig i Samvitskune. Halltu nu

þær

þar fyrer ecke iñe þiñe stooru Naad Drottiñ, med þvi þu fiñur i hia mier so stoora Synd: Mykla og stoora Synd fiñur þu hier i hiaa mier, Laattu þar fyrer þess stærre og yfergnæfaňlegre vera Naadena. O! Himneske Fader, wthelltu ecke þiñe Reide yfer mig, med þvi þu hefur aadur sleiged þiñ Hiartans Son, vegna miña Synda. Goode JEsu, Fridadu mig fraa Guds Reide, þu sem hana barst sialfur miña vegna a Krossenum.

Þu H. Verduge Ande, Skijl þu mier med þiñe Huggun fyrer Guds Reide, þu sem i Gudspiallsins Fyrerheitum, bodar øllum þeim Naad og Myskun, sem hafa ydrande Saal og sundurknosadaň Anda.

O! þu Heilage Gud og Riettlaate Doomare, Ecke veit eg þaň Stad, i hvørn eg kuñe ad flya undaň þiñe Reide, Fare eg upp i Himeneň, þa ertu þar, Fare eg nidur til Helvijtis, sie, þa ertu þar naalægur. Þott eg take uppaa mig Vænge Morgun Byrtuñar, og bwe hiaa ydstu Hafsins Endemørkum, þa leider þijn Hønd mig þadaň, og þijn hægre Hønd nær mier þar.

Þar fyrer skal eg flya til Christum, og

 fela

fela mig i hañs Saarum.

O! þu Myſkunſame Fader, aalijttu Lijkama þijns Sonar, hvørſu hañ var allur ſundurflacktur i Saarum, og lijttu ecke aa mijn Synda-Saar, þijns Sonar Blood þvoe og hreinſe mig af øllum Saur og Ohreinendum miña Synda. Heyrdu þær heitu og alvarlegu Bæner þijns Hiartans Sonar, hvørium hañ wtheller fyrer þier, um̃ Saaluhiaalp þeirra Utvøldu.

O! Heilage HErra Gud, og Riettferduge Doomare, mitt Lijferne og Framferde giører mig Ottaſleigeñ, þvi ef þad er innvardelega yferſkodad og ranſakad, þa er þar eckert añad ad ſiña, eñ añadhvørt Synd edur Avartarleyſe, og þo þar meige ſijnaſt ad vera nockur goodur Avøxtur, þa er hañ þo añadhvørt med Hræſne meingadur, edur af einhvørium ødrum Ofullkomlegleika ſpilltur og fordiarfadur, ſo ad hañ þar fyrer añadhvørt kañ ecke ad þocknaſt eda og ſvo hañ ſtoorlega mis þocknaſt i þijnu Auglite. Ad ſøñu, þa er allt mitt Fram̃ferde, añadhvørt Fordæmanlegt, vegna Syndareñar, edur Foracktanlegt, vegna Avartarleyſeſins, Jaa, þad er ecke

alleinasta vegna Avartarleysesins foracktanlegt, helldur og eirnuñ i Raun og Sañleika Fordæmañlegt. Pvi ad hvørt þad Trie sem ecke fœrer goodañ Avoxt, skal upphøggvast og i Elldiñ kastast.

Ecke er alleinasta þvi Trienu i Ellden kastad, sem fœrer af sier illa Averte, helldur og eirneñ hinu, sem øngva Averte fœrer. Eg skielf af þeirre Uñþeinkingu, þegar eg hura uñ, hvørsu þeir siñ a vinstre Hønd Doomarans standa a efsta Deige verda Fordæmder, alleinasta þar fyrer, ad þeir høfdu ecke giørt neitt af þvi Gooda sem Gude þocknadest. Peir høfdu ecke giefed Hungrudum ad eta, og ecke Pyrstum ad drecka, Ecke vitiad þeirra Siwku, og ecke klædt þa Nektu.

O! þu Visna og Avartarlausa Trie, sem hefur forþient ad kastast i eilijfañ Elld. Hvøriu villtu svara, Edur hvad villtu fyrer þig bera a þeim Deige, þegar af þier verdur heimtur Reikningskapur þar af, hvad þu hefur giørt a øllum þeim Tijma, sem þu hefur lifad hier i Heime? Pa mun verda giætt ad hvøriu Høfud-Haare, og þar mun ecke skiootast uñ eitt Augnablik

Tijmans. O! hvad hart mun þa adþreyng ia a allar Slijdur, þegar ødrumeigen̄ standa Syndernar med sin̄e hardre Aklögun, en̄ ødrumeigen̄ Guds strænga Riettlæte med sin̄e skielfelegre Ognan. Þegar nidur under eru uppspertar þær hrædelegu Kverkar og Gin Helvijtis, En̄ upp yfer reidur og bystur Doomare, In̄an̄ fyrer nagande Samvitska, Utan̄ til Verollden̄ i einum Loga? Nu ef sa Riettlaate verdur þa Naumlega Hiaalplegur, Hvad skal þa verda um̄ þan̄ Ogudlega, sem so er stadd-ur og aa sig komen̄? Honum er Obærelegt i Guds Auglite ad standast, en̄ ad skijla sier er Omøgulegt. Hvadan̄ skal þa Saalur min̄e koma Frelse? Hvadan̄ skal hen̄e koma Raad edur Urræde? Hvør er sa sem heiter Eingill hins mykla Raads? JEsus er sa hin̄ same, J millum han̄s Handa er eg skiaalfande og tytrande. Hughreyst þig nu aptur Saala mijn, og ørvæntu þier ei Naadar nie Myskunar, vonadu uppa þan̄ sem þu hrædest. Flijdu aptur til han̄s, fra hvørium þu ert aadur slwen̄.

O JEsu Christe, fyrer þitt sæta og huggunarsama Nafn, sem merker Frelsan, þa giør vid mig epter þessu þijnu Nafne. Wijttu mig Auman̄ og Vesalan̄, sem aakallar

ækallar þitt Nafn, Þott þu taker mig iñ i þad stoora og wtbreidda Skaut þiñar Myskunar, þá verdur þar jafn myked Rwm, epter sem ædur, og þar þreyngest eingeñ wt þar fyrer, Þad er vijst satt, miñ DRotteñ, ad mijn Samvitska hefur forþient eilijfa Glotun, og mier er ecke mogulegt siaalfum, þar fyrer ad bæta. Eñ hier a moote er þad Obrygdanlega satt, ad þijn Myskun er Þusundsiñum stærre eñ nockurt Brot eda Misgiørd kañ ad vera.

J þier DRotteñ er øll mijn Von, og þvi mun eg ecke til Skamar verda Æfenlega.

## Siounda Hugvekia.

Um Avøxt Pijnuñar Christi.

SO opt sem eg þeinke um Pijnuna Christi, þa kañ eg ecke añars eñ ad vera sterkustu Vonar, um Guds Elsku vid mig, og miña Synda Fyrergiefning. Hañ hneyger nidur Høfuded i siñe Blessudu Pijnu, til ad kyssa oss. Hañ wtbreider bæda Arma til ad Fadma oss. Hañ upplijkur Hondunum til ad wtdeila oss sijnum Gæsum. Hañ lætur opna sijna Sijdu, til þess ad sijna oss iñ i þad heita Elsku Hiartad sitt, sem hañ hefur til vor. Hañ lætur upphefia sig fra Jorduñe uppa Krossen, svo hañ drage alla upp i Hæder nar med sier. Hañs Sæar eru blaa af Ofrauneñe, eñ Lioomande af Elskuñe.

Gaungum þui iñ um hañs opnudu

Saar, og skodum hans Hiartalag, sem han hefur til vor. Ad so͞nu er þar Gnægd Endurlausnareñar hia honum; Þviad þar draup ecke ad eins eirn Blood-Drope af hans signada Lijkama, helldur wtstreymde hans allra Heilgaste Dreyre, so sem nockurs konar Flood, edur Fossar af hans Fim̃ Lijkamans Limum; Hondum Footum og Slijdu. Jaa, so sem Vijn-Bered i Vijn-Prwguñe sundurspreingest, af þeim ofur Þwnga sem a þvi liggur, og wtgiefur þvi siñ Løg a allar Sijdur; Eins gieck þad til i Pijnuñe Herrans Christi, hans blessadur Lijkame pressadest under ofur Þwnga vorra Synda og Gudlegrar Reide, og wthellte þvi a allar Slijdur, þeim signada Løg sijns Raudlitada Bloods. Þegar Abraham villde offra sijnum Syne i Breñefoorn; Þa sagde Gud til Abrahams: Nu merke eg i Sañleika, ad þu elskar mig. Mættu vær þa ecke myklu framar, þeckia Elsku-Þel Guds, vid oss þar af, ad hañ villde framselia siñ elskulegañ Son i Daudañ fyrer oss, og laata hañ verda eina Fridþægingar Foorn fyrer vorar Synder? O Rotteñ vor Elskade oss, þegar vier

vorum

na Jungfrw af þeirra Sleckte, Eins nidurstie Christur, af Hædum Himnaña, og wtvalde sier Brwdur, af þvi Fortapada, og i eilijfa Gløtun hrapada, Mañkyne.

Brwdareñar øll Ætt og Slekte var i Ovinaattu vid Gud lifanda, eñ hañ sialfur kom þvi aptur i Saatt og Vingan vid Gud, med siñe Beyskustu Pijnu. Brwdureñ laa nidursleigeñ til Jardar, velkt og kvolud i sijnu eigeñ Bloode, Eñ þesse Brwdgumeñ heñar, þvode hana i Skijrnar-Vatnenu, og hreinsade hana med þvi allra-Helgasta Vatns-Bade, Jaa, hañ burtþurkade og hreinsade Brwdareñar Blood, med sijnu eigeñ Bloode, Þviad Blooded Guds Sonar, þad hreinsar oss af øllum Syndum. Brwdureñ þesse var Ohrein og Oaasiaaleg, eñ hañ smurde hana med Oleo, Þad er med Naad og Myskun. Brwdureñ þesse var miøg illa til Reika, Eñ hañ gaf heñe Gyllene Arm-Bønd, og Eyrna-Skart, þad er, hañ prijdde hana med adskilianlegum Dygdum og Astgiøfum Heilags Anda. Þesse Brwdureñ var so Faatæk, ad hun hafde eckert þad sem hun kyñe honum ad giefa i Tryg-

da

da Pant, Þar fyrer gaf hañ heñe Pant ſijns Heilaga Anda, og took af heñe aptur heñar Holld, og hafde þad upp med ſier i Himnana. Þeſſe Brwduriñ var hwingrud, eñ hañ gaf heñe Similiu Braud; Hunang og Vidſmiør til Fædis, þad er, hañ fæder hana og uppfooſtrar til þeſs eilijfa Lijffins, a ſijnu Hollde og Bloode.

Þeſſe Brwdureñ er Ohlijdeñ ſijnum Brwdguma, og helldur hønum tijtt og opt ecke betur Trw eñ ſo, ad hun þijdeſt Heimeñ og Diøfuleñ, og ſamþyckeſt þeirra Gyrndum og Villa; Eñ ſamt og ædur hefur þeſſe Brwdgumeñ ſo hreint Hiartalag til heñar, ad hañ tekur hana aptur i Saatt vid ſig, ſo opt og tijdum, ſem hun ſnijr ſier aptur til hañs med ſañarlegre Ydran og Yferboot.

Lærdu þar fyrer þu Trwada Saal, ad kañaſt vid ſo mørg og ſtoor Guds Sonar Elſku-Teikn. Lærdu ad elſka þa Elſkuna, ſem kom Guds Sone til ad ſtijga nidur i Jungfrwareñar Kvid þiña vegna. Þeim Mun meir er oſs ſkyllbugt hañ ad elſka, framar eñ ſiaalfa oſs, ſem hañ er ædre eñ vier. Skyllda vor er ad ſtunda til ad lijkiaſt hønum, i øllu voru framferde og Lijferne, ſem wt af Aſt og Elſku til vor, giørdeſt oſs i øllu lijkur, ad Syndeñe undañteкeñe. Sa verdur riettelega halldeñ fyrer eirn Oþacklaatañ Mañ, ſem ecke elſkar hañ aptur a moote, ſem hañ elſkar fyrre; Hvad iñelega bære oſs þa ad elſka hañ aptur a moot, ſem

 oſs

oss elskar so heitt, ad hann (so ad seigia) yfer gaf sijna eigenn Tign vorra vegna? O! hvad Farsæl er su Saal sem teingest vid Christum i þvilijkum Ecktaskap og Hiuonabande, hun maa Oskud sier eigna og ad sier taka, allt þad Gott sem Christur hefur henne utvegad, og forþienad i hiaa sijnum Himnesska Fødur med sinne Hlijdne og sinne Kvøl og Dauda. Þviad eins og Eckta-Kvinnunne verdur sameigenlegt allt þad Gots og øll su Tign og Æra sem hennar Eckta Madur hefur; Eins verdur oss sameigenlegur allur Rijkdoomur Rieттlætesins, og øll Tign Dijrdarenar med Christo, sem hønum sialfum tilheyrer. Enn til þessa Ecktaskaparens kunnum vier ecke ødruwijs ad komast enn fyrer Truna. Eg vil trwlofa þig mier med Trunne, seiger Christur hia Spaamannenum. Fyrer Trwna verdum vier innplantader Christo; Eins so sem Kvisterner verda innplantader i Vijn-Trieed, so ad vier faaum af hønum allann Vøkva Friovsgun og Lijfs-Krapt. Og lijka so sem þad, ad þær tvær Persoonur sem i Hiuonabandenu edur i Ecktaskapnum lifa, verda eitt Holld til samans; So verda og þeir sem Christo samteingiast fyrer Trwna, eirn Ande med hønum; Þviad fyrer Trwna bygger Christur i vorum Hiørtum; Enn sie Trwenn riett og sønn, þa audsyner hun sig og lætur i Lioose i Kiærleikanum. Lijka sem i Gamla Testamentenu attu Kiennemennerner ad gyptast alleina þeim Kvennmans Persoonum, sem vorn Ospilltar Meyar; So tekur og sa Himneske Kiennemadurenn sier til Andlegs Ecktaskapar alleinasta soddann Saal, sem i fremsta Maata fordar sier ad saurgast af Heimenum, Dioflenum, edur Vilia sijns eigenn Hollds.

Gior þu oss Herra JEsu verduga, ad vier umm sijder meigum verda Innleidder i Lambsins Brwdkaup, Amen.

# Fioortanda Hugvekia.

## Umm þa Stooru Leyndardooma, Holldtekiunnar HErrans Christi.

Latum oss umm Stundar-Saker, Kreńa Huga vorum, fraa þessum

Jardneſku og Stundlegu Hlutum, og grunda og yfervega, þa myklu Leyndar-Dooma Holldgunareñar, og Hijngad-fædingareñar HErrans JEſu Chriſti. Sonur Guds ſtie nidur af Himnum til vor, ſo vier yrdum Guds Oſka-Børn. Gud verdur Madur, ſo ad Madureñ verde Gudlegrar Náttúru og Náttúru Hlut-takande. A moote Kvøllde Heimſins villde Chriſtur láta ſig fæddañ verda, ſvo ad hañ teiknade þar med, ad øll Not ſiñar Holldgunar og Hijngadfædingar, heyre meir og framar til þvi epterkomanda eilij-fa Lijfenu, eñ þeſſu ſtundlega og Jardneſka.

A Døgum þeſs Fridſama Auguſti Key-ſara, villde Chriſtur fædaſt, þar med aud-ſynande, hañ kiæme þar til i Heimiñ, ad hañ giørde Frid, i millum Guds og Mañ-ña. A þeim Tijma villde hañ hellſt i Heimeñ fædaſt, þegar Iſraels Foolk var komed under Prældooms-Ok Framande Piooda, til ad ſijna þar med, ad hañ være ſa riette Naud-Hiaalpare og Frelſare ſijns Foolks. Under Stioornañ añarlegs Yf-ervallds villde hañ og eirneñ láta ſig fæ-da, þviad hañs Rijke var ecke af þeſſum

Heime,

Heime. Hañ fæddest af eirnre Ofleckadre Meyu, so hañ kieñe oss þar med, ad hañ kuñe ecke Andlega ad verda gieteñ edur fæddur, utañ i þeirra Hiortum, sem eru Andlegar Meyar, Þad er, i þeirra Hiortum, sem ecke þijdast Vilia Heimsins, Diosulsins nie Holldsins, helldur samteingiast Gude i einum hreinum og skijrum Anda. Hañ fæddest Heilagur og Syndlaus, so hañ helgade þar med vora sauruga og syndumspillta Fæding. Hañ fæddest af þeirre Meyu, sem var Trwlofud til Eckta einum Mañe, so ad hañ þar med gierde Hioonabandenu Æru og Virding, med þvi su Stiett er af sialfum Gude iñsett. Hañ fæddest a myrkre Noottu, þviad hañ var þad saña Lioos sem i Heimiñ kom, til ad upplioома allt Veralldareñar Myrkur. Hañ verdur lagdur nidur i Jotuna, til ad aavijsa og kieña, ad hañ sie þad rietta Food ur vorra Saalna. Hañ verdur fæddur a medal Uxa og Asna, so hañ sette Mañeskiuna aptur til siñar fyrre Tignar og Tegundar, hvør ed fyrer Syndena var ordeñ lijk Skynlausum Skiepnum. Hañ verdur fæddur i Betlehem, þad wtþijdest

i Brauds-

i Braud-Hwsenu, þviad hañ er sa sem hijngad med sier færde þad sæta Brauded, og þær vel-sediande Fædslurnar, Himneskra Velgiorninga. Hañ er Frumgietiñ og Eingieteñ Sonur siñar Moodur hier a Jorduñe, So sem hañ var og epter siñe Guddoomlegre Naatturu Frumgietiñ og Eingietiñ Sonur Fødursins a Himnum. Hañ fæddest i Faatækt og Orbyrgd, so hañ wtvegade oss þar med þaug Himnesku Audæfeñ. Hañ fæddest i fyrerlitlegum Asna-Stalle, so hañ faae oss iñleidt i þañ Konglega Sal eilijfrar Vegsemdar a Himnum.

Þar verdur wtsendur eirn Himneskur Sendebode, til ad kuñgiora þeñañ allra stærsta Guds Velgiorning, þvi þar fanst eingeñ sa a Jorduñe, sem kyñe ad skynia, hvad stoor hañ være og mykels verdur. Þad var og so vel tilheyrelegt, ad eirn Himneskur Utsendare, skyllde kuñgiora soddañ Himneskañ Velgiorning. So gledia sig nu Englaña Herskeiter þar af, ad þær sia og vita, ad vier munum fyrer Christi Holldgan og Hijngadfæding, odlast med sier þa Dyrd og Sælu, i hvorre þeir lifa.

Þesse

Þesse gledelegu Tijdindiñ verda fyrst bodud Hyrdurunum, þviad ſaa ſem nu var fæddur, er ſaa ſañe Saalnaña-Hyrder, ſem komeñ er til þeſs, ad leida þær villtu Sauda Skiepnur, aptur aa riettañ Veg. Fyrerlitnum og audvirdelegum Moñum verdur ſaa ſtoore Fagnuduriñ bodeñ, Þvi ad eingeñ kañ ſaa Gagn edur Nytſemd ad faa af þeſſum Bodſkapnum, ſem ecke er Lijtelmootlegur og Audvirdelegur fyrer ſiaalfs ſijns Augum. Þeim ſem hielldu Nætur-Voku yfer ſiñe Hiord, verdur þeſſe Fæding Christi kuñgiørd, þviad þeir alleina faa Gagn og Nytſeme af heñe, ſem hafa Hiørtun vakande til Guds, eñ hiner adrer ecke, ſem i Syndunum ſofa.

Saa Vollduge Flockur Himneſkra Herſveita, ſijngur haatt Lof Gude med myklum Fagnude, hvør ed aadur var miøg hryggur, þegar ſu ſtora Olucka fiell uppaa fyrer vorum Fyrſtu Forelldrum, ad þaug fiellu i Guds Reide og Oblijdu. Dyrdar-Lioomeñ þeſſa Kongſins og HErrans ſieſt aa Himnum, hvør ed lijtelmootlegur og muñkomulijtell var hallldeñ aa Jørduñe. Eingelleñ ſeiger, ad Meñ ſkule ecke ottaſt,

þvi

þvi ſaa være fæddur, ſem þad allt ſkyllde i burttaka, ſem vera mætte Ordſøk og Efne til allſkins Otta. Fognudurinn verdur af Himnum ofann bodadur, þviad nu er ſaa fæddur aa Jordunne, ſem allann Fognud med ſier færer. Einglarner biooda oſs ad fagna enn ottaſt ecke, af þvi, ad ſaa Ovinſkapur aa millum Guds og Manna, ſem var Ordſøk og Efne alls Otta, være nu i burttekenn. Nu verdur Dyrd tilſøgd og ſungenn Gude i Hædunum, hvøria vorer Fyrſtu Forelldrar villdu ſvo ſem taka og ræna fraa Gude, þa þaug forøktudu hanns Bodord. Saa ſame Fridurinn er nu aptur wtvegadur i Fædingunne og fyrer Fædinguna HErrans Chriſti, þvi aadur fyrre hofdum vier Gud og vora eigenn Samvitſku aa moote oſs. Saa ſanne Frid urenn er nu wtvegadur, þvi hann er nu yfer-unnenn ſem oſs hafde Herteked og faangad.

Laatum oſſ gaanga med Fiaarhirdurunnum til Jotunnar þar ſem Chriſtur liggur, þad er, til Guds Barna Samkundu, þar finnum vier þetta edla Barned i ſijnum Reifum, þad er i Guds heilaga Orde og Ritningunum. Laatum oſs og eirnenn gey-

ma öll Ord þess stoora Leyndardooms, so sem aadur giørde su signada Mey Maria, og hafa þaug yfer Dags Daglega, so þaug falle oss ecke wr Miñe. Tökum under med Einglunum syngiande og seigiande Gude skylldugar Packer, fyrer so stooran Velgiørning, Jaa, Laatum oss syngia fagnande haatt Lof Drottne med øllum Himneskum Herskara, þviad ef Einglarner hafa so stooran Hiartans Fognud hier af vorra vegna; Hvad myklu framar ættum vier þa ad fagna, hvørium ad þetta Barned er fædt og giefed? Ef Israels synner hroopudu upp af Fognude, þegar þeir saau Saattmaals-Orkena til sijn borna, hvor Saattmaals Ork ad var þo alleinasta ein Fygura og Fyrermyndan, uppa Holld ganena Herrans JEsu Christi; Hvad myklu meire Ordsök høfum vier þa til ad fagna og Glediast, þar sialfur DRottiñ er til vor komeñ, Iklæddur voru Hollde? Hafe Abraham orded gladur þar af, ad hañ fieck ad sia Guds Son, i þeirre Mañdoomlegre Asynd, sem hañ hafde uppa sig teked, alleina uñ stundarsaker; Hvad ættum eda mættum vier þa gladiast myklu framar,

framar, þar hañ hefur med so stoorre samteingingu, sier bunded og samteingt vora Nattturu, ad hun varer og sundurslitnar alldrei uñ alla eilijfd? Hier giefst oss Tilefne og Ordsøk, til ad forundrast uppa Guds omælelega Myskun og Millde, þar hañ virdtest nidur ad stijga til vor, med þvi vier gaatum ecke uppstijged til hañs.

Hier giefst oss og eirneñ Orsøk og Tilefne til, ad vier forundrum oss uppa þad Oumrædelega Guds Almætte, med hvøriu hañ þeim tveimur Ojøfnustu og Olijkustu Hlutum, sem er Guddoomlegre Natturu og Mañdoomlegre, kuñe so samañ ad koma, ad nu er eirn og hiñ same bæde Gud og Madur. Oss giefst og eirneñ Orsøk þar til, ad forundra oss uppa þañ Omælelega Guds Vijsdoom og Speke, med hvørre hañ uppa sañ þad Raad og þañ Maata, hvørneñ vier yrdum i hañs Naad og Vingan aptur keypter, hvørt Raad, hvørke kuñu ad uppþeinkia edur skynia, Meñ nie Einglar. Sa Omælanlege mykle og goode Gud, var med Syndeñe stygdur; Þvi þurfte þad ad vera Omælelega stoor Betalingur, sem skyllde kaupa oss aptur i Frid. Mañeskiañ hafde syndgad a moote Gude þar fyrer wtheimtest og so, ad Mañeskiañ skyllde fullu bitala Gude þad Brot. Nu var þvi so vared og haattad, ad hvørke kuñe Mañeskiañ af sijnum Einunges Krapte, ad saa stadest þa Omælanlegu Kvøl og Pijnu, sem Syndeñ hafde forþienad; Eñ þo samt þa krafde Guds Riettlæte þessa Omælanlega stoora Betalings endelega, ef þar skyllde Saatt takast a mille Guds og Maña. Þar fyrer vard Gud Madur, so ad hañ i sijnum Mañdoome, bitalade fyrer Syndena, eñ Guddoomureñ sem i þessum Mañdoome Christi bygde, giørde Bitalingeñ aanægianlega dijrmætañ og fullnægiande. Vel meigum vier hier i þessu Guds Daasemdarverke furda oss þar uppa,

 hvørju

hvorsu þvi straungasta Guds Riettlæte, og hañs allra mivkustu Mysktunseme, vard hier samañkomed.

Þessa Tempran og Stilling Gudlegs Riettlætes og Myskunar, kuñe Eingeñ Skiepna ad upphuxa, fyrre eñ Gud sioalfur hana Openberade, og ecke kañ helldur eñ nu nockur Skiepna hana fyllelega ad skilia, sijdañ hun var af Gude Openberud. Hier ad ber oß helldur ad dyrast eñ smaasmuglega ad Grenslast. Þetta ber oß med Trwareñar Augum giarnañ ad vilia skoda, þott vier faaum þad i þessu Lijfe alldrei fullskodad nie skiled; Medkieñum helldur Veikleika og Vaumaatt i vorum Skilnings Hætte; Eñ þad vier seigium neitt a moote Guds Almætte, Amen.

# Fimtanda Hugvekia.

Um̃ þaug Not sem vier høfum þar af, ad Guds Sonur uppaa sig took vort Holld og Blood.

EG boda ydur mykeñ Fognud, seiger Eingelleñ a Fædingar Tijma Lausnarans. Vissilega maa þad mykeñ Fognud kalla, þvi hañ yfergeingur allañ Mañlegañ Skilning. Þad var mykel Olucka og Eymd, þegar vier vorum komner under Valld og Herteknung Diofulsins, og vorum fallner i eilijfañ Dauda, Eñ þo var þad eñ stærre Eymd, ad Meñ lietu sier ecke þar fiñast til þessarar Andlegu Oluckn, og kuñu ecke ad þeckia nie kañast vid þa stooru Eymd: Þess vegna er þad hier þvert a moote, mykell Fognudur, þar oß verdur hier bodad, ad sa sie nu i Heimeñ

meñ fæddur, sem oss frije og frelse, fra allre ædurgreindree Eymd og Olucku.

Þar er komeñ Læknis-Meistareñ til þeirra enu Siwku, Frelsareñ til þeirra Herteknu, Vegureñ til þeirra Villtu, Saaluhjaalpeñ til þeirra Fortøpudu. Eins og þad Moyses var sendur af Gude Fordum, þess Erendes, ad frelsa Israelis Lijd wt af Egypta-Lands Prældoome: So er og Christur af Fodurnum sendur, til þess ad Frelsa og Endurleysa allt Mañlegt Kyn wt af Diøfulsins Hertekningu og Prældooms Oke. So sem Dwfañ bar Oliu-Vidar Kvist i Orkena, epter þad ad Jørduñe var upp aptur skoted wr Vatns Floodenu, So kom og Christur i þeñañ Heim, til ad boda þañ Frid og þa Saatt siñ være komeñ a millum Guds og Mañá. Þar fyrer høfum vier nooga Ordsøk til ad glediast hier af, og meigum riettvel vona oss og vænta mikels Goods af vorum Mysk unsama Gude og Fødur. Meinar þu ad sa sem elskade oss so heitt, ad hañ virdtest ad samteingia sijnum Guddoome vorn Mañdoom med einu Eilijfu og Osundurslijtanlegu Samteingingar Bande; þeg-

ar vier vorum hañs Oviner, hañ mune nu hiedañ af kuña oss nockurs Hlutar ad syn-ia, þar vier erum ordner hañs Holld og Blood? Hvør hefur uñ Allder sitt eiged Hollþ hatad? Hvørneñ skyllde sw hædsta og stærsta Myskunseme, gieta nu snarad oss wt fra sier, þar vier erum somu Naatturu og Tegundar og huñ? Ecke er mogulegt nockrum Mañe, ad Jhuga edur yfervega Stærd og Mykeleik þessa Leyndardoomsins: Hvad myklu sijdur hañ med Ordum ad wtskijra.

J Christi Holldgan samteingest hin hædsta Hæatign, vidur þa Fyrerlitleguſtu Læging: Sa hædste Stirkleiks Kraptur vid þañ veikasta Vanmætt; Þad Edsta Vellde vid þad Vesælasta Volæde. Hvad er Tignarlegra eñ Gud, og Lijtelmootlegra eñ Mañeskiañ? Hvad er Styrkvara eñ Gud, og Veikara eñ Mañeskiañ? Hvad er Farsælara eñ Gud, og Vesællra eñ Mañeskiañ? Samt fañ Guds Speke og Almætte, þañ Midel og Mæta, med hvørium ad þesser so harla Olijker og O-jafner Hluter, kyñe ad Samteingiast, so ad Guds Riettlæte yrde þar med

stillt og sefad. Hvorneñ er nockrum Mañe mogulegt ad yfervega, hvad stoor ad sie þesse Leyndardoomur?

Omælanlega stoor Boot og Bitalingur wtheimtest fyrer Mañskiepnuñar Brot og Avyrding, þviad Mañskiepnañ hafde falled fra þeim Omælanlega mykla Gooda, þad er Gude, eñ hvar skyllde Mañskiepnañ so stoorañ Bitaling taka, sem samgyllte vid þa Oþrioqtanlegu Guds Giæsku, sem stygd og moodgud var? Hañ var ecke hia Mañlegum Krapte ad fiña, og þess vegna þa tekur Gud þeñañ Fullnægtu Bitalingeñ, so sem hia sialfum sier, og af sialfs siins Hende, þar hañ sialfur Skapareñ liidur Piinu og Dauda i siinu Hollde, ad vier Skiepnur hañs skylldum ecke piinast Eilijflega i voru Hollde. Þar var stygd og moodgud sw Omælañlega stoora Giæska, þvi kuñe sa alleina ad wtvega oss Saatt og Binaattu aptur, sem sialfur hafde Omælañlegañ Krapt og Almætte. Nu er sa eingeñ, ad Gude einum Undañteknum, sem so Omælañlegañ Krapt hafe. Þar fyrer sætte Gud sialfur Heimeñ aptur vid sialfañ sig, vard

sialfur Medalgangare vor, og Endurleiste sialfur Mankyned med sijnu Bloode.

Hvor kan fyllelega ad grunda, skynia edur skilia, hvad stoor ad sie þesse Leyndardoomur? Sa ædste Herra og Skapare allra Hluta, var til Reide reittur og stygdur, og Skiepnan sem han stygde, bar sig i ongvu ad blijdka han aptur, eda komast aptur i hans Vingan, hvar fyrer sa hin same sem stygdur var, og misgiort var vid, hlaut ad taka uppa sig Holld Skiepnunnar, og koma hene so aptur i Saatt vid sig. Mankiepnan var fallen fra Gude, og hafde giefed sig til Diofulsins, sem ad er Guds æfenlegur Ovinur; En samt sem aadur er Gud so trwr, vid þessa sijna Otrwu Skiepnu, og svo lætur han sier vera þar um hugad, ad faa hana aptur wr Flock Dioflana, ad han sialfur leitar epter hene, og bijdur hene med allra Hugarlaatleguistu Ordum, ad koma til sijn aptur.

Er ecke slijkt Omælanleg Myskunseme, hvør ed laangt geingur yfer allan Mannlegan Þanka og Skilning? Myklu framar er nu vor Naattura prijdd vegna Christi Hollduekiu, en bad hun var aadur nijdd vegna Adams Syndar; Meira odlunst vier aptur fyrer Christum, en vier mistum fyrer Adam; Synden yfergnæfde, en nu yfergnæfer laangtum framar Naaden; Vier mistum i Adams Falle vort Mein-

Meynleyse, eñ feingum aptur fyrer Christum, fullkomed Riettlæte. Furdanlegt er ad soñu GudsAlmætte, eñ þo er ecke siidur furdañleg Guds Giæska og Goodgyrne. Postt Skøpunar Verked sie mjøg dasamur Hlutur, þa er þo Endurlausnar Verked epter mijnum Doome eñ dasamlegra. Myked er þad, ad skapa Mañeñ þegar hañ var eingeñ, og kuñe þvi eckert ad hafa af Gude forskulldad; Eñ langtum meira er þad, ad Endurleysa hañ aptur; þegar hañ hafde Illt forskulldad, og taka uppa sig hañs Søk og Syndagiølld; Dasamleg Giæska Guds er þad, ad hañ virdtest ad skapa og mynda vort Holld og Bein, eñ þo er þin Giæskañ eñ þa Dasamlegre, ad sialfur Gud villde verda Bein af vorum Beinum, og Holld af voru eigeñ Hollde. O! þu Saala mijn, vertu þacklaat þijnum Gude, sem þig hefur skapad þegar þu varst eingeñ; Sem þig hefur Endurleyst, þegar þu varst vegna Syndaña Fordæmd; Sem þier hefur tilbwed hañ Himneska Føgnudeñ, ef þu med Trwñe helldur þier vid Christum, Amen.



## Sextanda Hugvekia.

### Uñ Andlega Sadning og Endurnæring þeirra Gudhræddu.

SA Millde og Myskunsame Gud hefur tilbwed myked Giestabod, eñ til þess eiga alleina ad koma Hwngrud Hiørtu. Saa kañ eingeñ ad seigia af Sætleika þessa Himneska Giestabodsins, sem þad sinackar ecke, eñ saa sinackar þad ecke, sem ecke hwngrar þar epter. Saa kiemur til Giestabodsins sem trwer aa Christum, nu kañ eingeñ saa Riettelega ad trwa, sem ecke kañast vid sijnar Misgiørd-

er, og giører saña Ydran og Yferboot. Pad sama Angur og Tregie, sem Guds Børn hafa i Hiartanu, vegna siña Synda, þad er þetta Andlega Hwngred Saalareñar, eñ Trweñ er su Andlega Sadningeñ.

Gud gaf Fordum Israels Lijd i Eydemørkeñe Himna-Mioled til Fædu, sem kallast Eingla-Braud; Eñ i þessu Giestabode þess Nya Testamentesins giefur Gud laangtum betra Himna-Braud, þad er, sijna Naad, Fyrergiefning Syndaña, Jaa, lijka eirneñ sialfañ Sontñ siñ, hvør ad er Einglaña HErra og DRottenn. Christur er þad rietta og saña Braud, sem nidurstie af Himnum, so hañ giæfe Lijf allre Verølldeñe. Saa sem fullur er af Drafe Svijnaña (þad er af Vellystingum þessa Heims) hañ laungar ecke til Sætleika þessa Giestabodsins; Saa ytre Madureñ skyniar ecke hvad þeim iñra Mañenum er Heilsusamlegt, og vel smackande.

A Eydemørkuñe giefur Gud sitt Himna-Miøl, þad er, þegar øll Jardnesk Fæda, øll Jardnesk Huggun kañ ecke ad hiaal pa. Þeir sem gypter voru og høfdu sier

Konu

Konu keypta, villdu ei koma til Gieſtabodſins, Eñ ſkijrlijfar Meyar, þad er þær Sæler, ſem hvørke hafa bunded ſig vid Heimeñ med Vellyſtinguñe, nie Dioful eñ med Syndeñe, þær koma til þeſſa Gieſtabodſins.

Eg hefe Trwlofad ydur ſo ſem eina Oſleckada Mey, einum Mañe, ſeiger Poſtuliñ. Þar fyrer ætte Sæl vor ad fordaſt ad drya Andlegar. Hooraner med Dieflenum, og ſiæ til hun sampycke ecke hañs Vilia, ſvo ad Guds Sonur giete teked hana ſier til Eckta. Þeir ſem lietu ſier vera ant uñ ad ſkoda ſiñ Bwgard, villdu ecke koma; Eins ſkiedur þad og ſo eñ, þeir ſem elſka Aud og Vellyſtingar þeſſa Heims, þeir læta ſier all-lijted fiñaſt til þeſs Hiñneſka Sætleikans. Gyrnd, Giedþocknan og Hugferde Hiartans, er ſo ſem nockrar Fætur Sæalareñar, æn hvørra hun kañ ecke ad komaſt til þeſs Andlega Gieſtabodſins. Su Sæl ſem er offødd og mettud af Huggun Stundlegrar Velgeingne og Sælu, kañ ecke vel ad hafa Gyrnd nie Epterlæangan epter Sætleika Hiñneſkrar Farſælldar.

Þegar sa rijke Yngis-Madur, sem gietur i Gudspiallenu, heyrde þad, hañ munde verda ad yfergiefa sijn Audæfe vegna Christi, vid hvor hañ hafde fest sitt Hiarta, þa vard hañ hryggur, og gieck i burt.

Christur vor Himneske Eliseus iñhellner ecke fyrre Vidsiniore þess Himneska Sætleikans, eñ þad ad Kiereñ eru øll tom. Ecke er møgulegt ad Elskañ til Guds kuñe iñ ad gaunga i Hiarta Mañsins, utañ þvi ad eins, ad wt þadañ rijme aadur fyrre Elskañ til Veralldareñar, og til siaalfra vor. Hvar sem hellst ad er vor Fiesioodur, þar er og eirneñ vort Hiarta.

Elskañ hefur þañ Krapt med sier, ad hun samteinger Mañ vid þad sem hañ elskar, þar fyrer, ef þu elskar Heimeñ, þa verdur þu eirn af Heimsins Limum.

Elskañ hefur og eirneñ þañ Krapt med sier, ad hun umbreyter þeim sem elska. Þar fyrer, ef þu elskar Verølldena, þa verdur þu Verålldlegur, og elsker þu Himineñ, þa verdur þu Himneskur.

Þeir sem ad Akneyte keyptu, og ofnisg voru aastundunarsamer uppaa sijna Veralldlega Hondlan, komu ecke til Brwdkaups-

kaupsins; Eins er þvi vared og hattad eñ nu, þeir sem festa sitt Hiarta vid Stund legañ Aud og Rijkedæme, þeir fara O- giarnañ miøg freklega leitande epter Him neskum Audæfum.

Veralldlegur Audur og Rijkedæme, ver Mañeskiuñe svo i Augum, ad heñe syn- est Gotz og Audur mune kuña ad aanægia sier til allra Þarfa, og þess vegna lætur Mañskiepnañ sier þar nnz aanægia, eñ leit ar ei Guds siaalfs, sem alleina kañ Gyrnd Saalareñar ad fullnægia. Allur Ver- alldlegur Audur og Rijkedæme er iñefaleñ i skøpudum Skiepnum, so sem ad er i Sylf re, i Gulle, Hwsum edur Gørdum, i Føstu og Lausu Gotze, eñ eingeñ þessara Skiep- na kañ fyllelega ad sedia Gyrnd Saalar- eñar, þviad hun er øllum ødrum Skiepn- um ædre og ypparlegre, eñ aller adrer Hluter eru heñar vegna skapader, og heñe til Þienustu. Hvad vamnaattugar all- ar skapadar Skiepnur sieu til þess, ad vei- ta allt þad sem Saaliñ gyrnest, þad siest og sañast hellst i Daudanum, edur a Dauda- Stunduñe, þegar allar Skiepnur yfer- giefa oss. Undur meiga þad vera, ad vier

holldum

hölldum ofs so fast vid Skiepnurnar, þar þær hallda ecke fastara vid ofs, eñ so.

Þegar ad Adam snere sijnu Hiarta fra þeirre Unan, sem hañ skyllde hafa i Gude, og leitade sier Jñdæles af Skilnings-Trienu Goods og Jlls, þa vard hañ strax wtrekeñ af Paradijs.

Eins geingur og so til fyrer vorre Sälu, ef hun snijr sier fra Gude, og til Skiepnaña, þa fyrrer hun sig þar med Himneskre Huggun og verdur wtrekeñ fra þvi rietta Lijffins-Trie.

Eñ hvörs hafa þeir ad vænta sier, sem forsooma og forsmaa þetta Giestaboded i Heimuriñ forgeingur og aller þeir sem festa Hug siñ og Hiarta a hönum. Skiepnurnar forgaanga og aller þeir sem setia Von sijna til þeirra. Saa Himneske Fadereñ hootar med Eyde, ad eingeñ þeirra Maña skule smacka sijna Kvølldmaaltijd, sem sijn Naut, Bwgarda edur Egta-Kviñur, þad er, nockurn Hlut Jardneskañ, virda meir og framar, eñ þad Himneska Giestaboded. Sie Kvølldmaaltijdeñ forsoomud, þa er eingeñ Von a nockre Maaltijd edur Bordhallde þar epter.

er. Sie Christo gleymt i þessu Lijfe, þa er Vonarlaust um̃ nockra Huggun þadan̄ i frꜳ. Þeir sem þetta Giestaboded forsmꜳ, skulu straffast med eilijfu Hwngre og eilijfum Myrkrum. Þeir sem ecke vilia giegna þessu Bodenu Christi, þar han̄ seiger: Komed til mijn aller, þier sem Erfvided og erud Þwnga þꜳder, þeir munu heyra þan̄ Ognarlega Utskurden̄, þar han̄ so seiger: Fared frꜳ mier Bølvader i Eilijfan̄ Elld.

Þeir i Borgen̄e Sodoma, urdu þvi af Himneskum Ellde uppbrender, ad þeir forsmꜳdu Predikun Loths, i hvørre han̄ baud þeim til þessa Giestabodsins, Eilijfur Guds Reide Elldur mun þa uppbren̄a, sem þetta Giestaboded forsmꜳ, þegar þeir eru med Heilogu Evangelio til þess boðner og kallader.

Þær Fꜳvijsu Jungfrwrnar sem ei høfdu Oleum i sijnum Lømpum, tøfdu ofleinge upp fra þvi Brwdgumen̄ kom, og þvi var Dyrunum a medan̄ apturluckt, Eins vill þad og so til gꜳnga, ad þeir sem ecke hafa Hiørtun full af Heiløgum Anda, hier i Heime (hvør ad er þad Andlega Vid-

Vidsinired) þeim mun Christur ecke leisa iñ ad gaanga i siñ Fognud, helldur mun fyrer þeim verda apturluckt Dyrum Fyrergiefningareñar, Dyrum Myskunareñar, Dyrum Huggunareñar, Dyrum Vonareñar, og Dyrum Ydranareñar.

Gud hefur eñ nu eirn añañ Maata ad kalla til þessa Siestabodsins, og þad skiedur hid Jñra i Hiartanu, þegar Guds Sonur slær, klappar og kallar uppaa Dyr vors Hugskots, med Goodfwsre Gyrnd Hiartans, med andmiwkum Andvarpunum, med Gudhræddum Paunkum, sæll er sa sem þa upplijkur Hiartanu fyrer Guds Syne med riettre Yferboot, þegar hañ so kallar og uppaa klappar: Þar fyrer, nær sem þu fiñur eda formerker nockra Heilaga Gyrnd edur goodfwsa Tilhneiging i þijnu Hiarta, þa vit þu fyrer vijst, ad siaalfur Christur klappar þar uppaa þitt Hiarta, og vertu strax til Reidu, ad liwka upp fyrer hønum, adur eñ hañ vijkur i burt aptur, so ad hañ apturlyke ecke epteraa seirna sijnum Naadar Dyrum fyrer þier. Nær sem hellst þu fiñur nockurn goodañ Neysta Gudhræddra Hugreñinga i þijnu Hiarta, þa vit þu fyrer vijst, ad hañ mune vera uppkveiktur og komeñ af þeim breñande Loga Gudlegrar Elsku, (þad er af H. Anda) nærdu og aldu þañ Neysta, so hañ vaxe og verde uñ sijder ad Ellde breñande Elsku. Mundu þig, ad þu wtslöckver ecke Andañ, og forhindrer ecke þad uppbyriada Guds Verk. Hvør sem nidurbrijtur Guds Mustere, mun verda fyrer hañs straungum Doome. Vort Hiarta er Guds Mustere, eñ sa nidurbrijtur þad, sem ecke vill giefa Heilögum Anda Rwm þar iñe, þegar hañ kallar hid Jñra, fyrer Ordsins Kieñing. J Gamla Testamentenu, heyrdu Meñ Gud tala hid Jñra i Vitnisburdar Tialldbwdeñe; J þvi Nyja Testamentenu, fiña Riett-Trwader Guds Meñ til þvilijkra

liifra Hræringa og Bendinga Heilags Anda hid Jñra Sæler ern aller þeir sem þeim hlijda og eptersylgia, Am̃.

# Seytianda Hugvekia.

Um̃ þad hvøria Averte Skijrneñ med sier færer.

Miñstu Riett-trwud Saal a þa mykklu og stooru Naad Guds, hvøria hañ hefur þier veitt i Skijrneñe. Skijrneñ er Endurgietningar Laug; Hvar fyrer sa sem Skijrdur er, verdur hreinsadur af Saurgun siñar Fyrre Fædingar, edur siñar Holldlegu Fædingar, og er af Gude aptur ad niju fæddur, fyrer Vatn og Heilagañ Anda, og er þess vegna ordeñ Guds Sonur, Erfinge eilijfs Lijfs, og eilijfrar Sælu. So sem Gud Fader vottar um̃ Soneñ siñ, þar hañ var Skijrdur, ad þesse sie siñ Elskulegur Sonur, svo tekur hañ alla þa sem trwa, og verda skijrder, sier til elskulegra Oska Barna. So sem þad heilagur Ande Openberadest i Dwfu-Lijking, þegar Christur var Skijrdur, so er hañ eñ nu naalægur i vorre Skijrn, ad giøra hana kroptuga, Jaa, Heilagur Ande veitest i Skijrneñe øllum þeim sem trwa, og verkar þad i þeirra Hiørtum, ad þeir verda einfallder sem Dwfa, og forsiaaler sem Hogg-ormar.

ormar. So sem þad gieck til i Skøpuneñe, so geingur þad og eirneñ til i Endurfædinguñe. J Fyrstu Skøpun allra Hluta, þa færdest AndeDRottens yfer Vøtneñ, og gaf þeim eina lifande Lijfs Hræring og Krapt; So færest og Heilagur Ande yfer Skijrnar-Vatned, og giører þad ad heilsusamlegum Midel, og Verkfære vorrar Saaluhiaalpar. Endurlausnareñ vor JEsus Christus villde þess vegna siaalfur skijrast, ad hañ vitnade þar med, ad vier yrdum hañs Limer i Skijrneñe. Høfuded þoott þad sie heilbrygdt, tekur opt Læknisdoomeñ til sijn, uppa þad, ad adrer Lijkamans Limer, sem veiker eru, verde þar med heilbrygdader. Christur er vort Andlegt Høfud, þvi tekur hañ þeñañ Heilsusamlega Læknisdoom Skijrnareñar uppa sig, so ad vier sem erum Limer a hañs Andlegum Lijkama, yrdum þar med Heilbrigdader. Lijka sem ad Gud batt siñ Saattmaala, a Tijmum Gamla Testamentesins vid sitt Foolk i Umskurneñe; So bindur hañ siñ Saattmaala nu vid oss, a þessum Nija Testamentesins Tijmum i Skijrneñe; Þvi ad i Stadeñ Umskurnar-

eñar er Skijrneñ komeñ: Hvør sem nu er Jñteken i Guds Saattmaala, hañ þarf ei ad kvijda fyrer Aklogun Diøfulsins. J Skijrneñe verda Meñ Jklædder Christo, hvar fyrer Ritningeñ so ad Orde kvedur, ad þeir Utvøldu og Heilogu, hafe þveiged og hvijt giort sijn Klæde i Lambsins Bloode. Pad fullkomna Guds Sonar Riettlæte er sa fagre Skrwdeñ; Hvør sem hønum er Jklæddur, hañ þarf ecke ad feila sier vegna Syndareñar Saurgunar.

Hia Jerusalem var eitt Dijke, i hvørt Eingell Guds nidur stie a vissum Tijmum og upphrærde Vatned, so ad hvør sem nidur stie Fyrstur i þad Dijke, epter þa Vatnsins Hræring, hañ vard strax Læknadur, af hvoriu sem hellst Kraankdæme hañ hafde: Petta Dijked merker Skijrnar Saaeñ; Þviad Skijrnar Vatned vort, læknar oss af øllum vorum Synda-Kraankleika; Þegar Heilagur Ande nidur stijgur i Skijrnar-Saaeñ, og samañ hrærer Vatned vid Guds Sonar Blood; Þviad eins og Blooded Foornaña sem offradar voru i Jerusalem, var nidurþveiged i aadurnefndt Dijke; so þvæst og eirneñ allur Kr-

aptur Bloodsins Christi (hvør ed vard ein heiløg Foorn, fyrer vorar Synder) ofañ i vort Skijrnar-Vatn, hvar af þad og lijka tekur allañ Krapt og allt sitt Heilnæme. Þar upp yfer sem Christur var Skijrdur, opnuduſt og upplukuſt Himnarner; Eins verdur og eirneñ Dyrum Himnarijkis upploked fyrer oſs i vorre Skijrn. Vid Skijrnena Christi var nææleg øll heiløg Preñing; Eins er hun og eirneñ nææleg i vorre Skijrn, so ad vier medtøkum med Trwñe i Skijrneñe, Arfleidslu og Oskabarna Riett af Fødurnum, Frijun og Fullnægiu Frelse af Synenum, og kroptuga Endurgietning af H. Anda. So sem i Hafenu Rauda dreckteſt Pharao og allur hañs Her; So dreckeſt og so i Skijrneñe vorre, sa hiñ Gamle Adam med øllum Hoop og Her illra Lasta og Odygda, eñ aller Riett-trwader komaſt med heilu og holldnu iñ til þeirrar fyrerheitnu Arfleifdar siñar i Himnarijke. Þar fyrer er Skijrneñ vor þad hid sama Gler-Hafed, edur sa Gler-Siooreñ sem Poſtuleñ Johañes saa i Anda, so sem þar uñ maa lesa i hañs Openberingar Book, þviad i giegnum Skijr-

nar

nar-Vatned vort, so sem i giegnum añad Gler, skijna þeir fogru Geislar Riettlætes Soolareñar, það er, Herrans JEsu Christi, iñ i vorar Sææler og Hiørtu. Þetta Gler-Hafed var frame fyrer Lambsins Velldis Stoole. Lambsins Velldis Stooll er heiløg Guds Sonar Christne, hia hvørre su heilaga Skijrnar-Laugeñ a alleina heima. Spaamañenum Ezechieli vitradest eitt Vatn, sem framflaut af Musterenu, hvort Vatn ad Lijfgade allt, og grædde allar Meinsemder; Eins skiedur það eñ nu i Dag, ad i þvi Andlega Mustere, það er unidt i Guds Barna Søfnude, uppsprettur eñ nu i Dag, það heilnæmasta Flood Skijrnar-Vatnsins, so ad i Diwp þess sama Vatnsins, verdur søkt øllum vorum Syndum, og allt verdur það læknad og endurlijfgad sem Straumur þvilijks Vatns-Floods snerter og vidkiemur: Skijrneñ er það Andlega Vatns-Flood, i hvøriu ad allt Holld Syndareñar dreckest og deydest. Hrafneñ, sem merker Diøfuleñ, flygur i burtu, eñ Dwfañ, sem merker og þijder heilagañ Anda, flygur heim aptur þangad, hvadañ heñe var burtsleppt i Falle vo-

ırra fyrſtu Forelldra, þad er, ín i vor Hiør-
tu, og ber þangad med ſier Oleuvidar Lauf-
blød, þad er Frid og Rooſemd Samvit-
ſkanar. Münſtu þar fyrer, chriſten Saala,
á þa allra ſætuſtu Naad og Myſkun, ſem
þier veiteſt i Skijrneñe, og ſiaa til ad end-
urgiallda Gude ſkylldugt þacklæte. Eñ
þeſſ meire Naad og Myſkun, ſem ockur ver-
dur veitt i Skijrneñe, þeſs Vandlegar þurf-
um vid ad geima og forvara hana ſo feing-
na, ſo vier miſſum hana ei aptur ad niju;
Þar til og þeſs vegna verdum vier grafner
med Chriſto fyrer Skijrnena i Daudañ,
ad ſo ſem Chriſtur er uppvakeñ fra Daud-
um fyrer Dijrd Fødurſins, ſo eigum vier
ad gaanga, i Endurnijung Lijfdagaña.

Vier erum i Skijrneñe Læknader af vorn Andlegu Kr-
aankdæme, þvi er oſs Vandlega tilſiaaande, ad vier Synd-
gum ecke leingur, ſo ad oſs hende ecke (kañ ſke) añad verra.
Vier høfum Eittſiñ Jklædſt Chriſti Riettlæte, ſem er ſa
allra Dijrmætaſte Skrwde; Þar fyrer ættum vier ad taka
oſs vel i Vakt, ad vier hañ ecke a oſs ſaurgum nie kvolum,
med Syndareñar Saur og Ohreinleika. Vor gamle
Madur er Kroſſfeſtur og daaeñ i Skijrneñe, þeſs vegna æt-
te ſa nye Madureñ ad lifa i oſs. Vier erum i Skijrneñe
Endurgietner og Endurnyader i Anda vors Hugſkots.;
Þeſs vegna ætte ecke Hollded ad hafa Yferraad yfer And-
anum. Vier erum ordner Guds Børn i þeirre Andlegu
Endurgietninguñe; Høgum oſs þvi og hegdum ſvo ſiñ rie-
ttum Børnum ſoddañ Fødurs vel hæfer og ſoomer. Vier
erum

erum ordñer Mustere H. Anda, Tilbwum þvi tilbærelegañ Sess og Sæte, handa so Virduglegum Gieste i voru Hiarta. Vier høsum svared Gude aptur ad nyu Trw og Hollustu, og erum so aptur iñtekner i hañs Stattmaala; Þvi er Ovidurkvæmelegt, ad vier hiedañ af, høllдum oss i Flock med Diøflenum, edur laatum siaa oss under hañs Merkium. Frañkvæmdu þetta allt samañ i øllum oss; Þu allra Helgasta Preñing og eine Gud, þu sem veiter oss yfergnæsañlega stoora Naad i Skijrneñe; Veittu oss og eirneñ, ad vier kyñum heñe stadfastlega ad behallda, og alldrei heñe ad sleppa ad Eilijfu, Amen.



## Atianda Hugvekia.

Um þa Lijfkrøptugu og Heilsusamlegu Naautn og Medtekning Hollдsins og Bloodsins Christi.

Hvør hañ Etur mitt Holld, og Drekur mitt Blood, saa lifer eilijflega, seiger Christur siaalfur. Þad var ad søñu eirn Daasamlegur og yfer Maata stoor Velgiørningur sem oss veittest, þegar Endurlausnareñ uppaa sig took vort Holld, og upphoof þad so til þeirrar Hædstu Haatignar i Himneska Dyrd; Eñ þo er þetta eñ Daasamlegra og Furdañlegra Millde-Verk, ad hañ fæder oss og fóostrar aa sijnu Hollde og Bloode til eilijfs Lijfs. O! hvad Heilsusamlegar eru þessar Kræsingar Saalareñar? O! hvad æskelegt er þetta Giestabod? O! hvad sætt er þetta Eingla-Braud? Þo ad Einglarner hafe

mykla Gyrnd og Fysn aa, ad ydka sig i Umþeinkingu þessa Leyndardoomsins, þa hefur þo Endurlausnareñ ecke þeirra Nattturu, helldur Abrahams-Sæde, uppaa sig teked; Og er hañ þess vegna oss laangtum skylldare og i Teingdum naanare, eñ sialfum Einglunum.

Þar af faanm vier ad þeckia hañs heitu Elsku til vor, ad hañ gaf oss af sijnum Anda, Jaa, ecke alleinasta af sijnum Anda, helldur og eirneñ af sijnu Hollde og Bloode, Þviad so seiger Sañleikureñ um Brauded og Vijned sem wtdeilest i Kvølld maaltijdeñe, Ad þad sie siñ Lijkame, og þad sie sitt Blood: Mun þa DRotteñ gieta gleymt þeim hinu sømu, sem hañ Endurleyste med sijnu Hollde og Bloode, Og hañ fæder og sedur med sijnu Hollde og Bloode? Þvi so stendur skrifad: Ad hañ sem etur Christi Holld, og dreckur hañs Blood, hañ blijfur i Christo, og Christur i hønum. Stoorlega maa Madur sig forundra, uppaa þa Naakvæmu Guds Myskun, ad hañ hefur taled øll vor Høfud-Haar, og hañ hefur skrifad oss uppaa sijnar eigeñ Hendur, og ber oss i sijnu eigeñ

Lijfe,

Lijfe, Eñ Þusundsiñum Furdanlegre Giæska er þad, ad vor Endurlausnare Herrañ Christur, fæder oss og foostrar a sijnu eigeñ Hollde og Bloode. Mykel Virding veitest vorum Saalum, sem fæddar og saddar verda a þvi dijrmæta Verdkaupe, med hvørin þær voru leystar og Endurkeyptar. Mykel Virding og Tign veitest vorum Lijkømum, hvørier ad Endurleyster verda med Christi Lijkama, og fædast a Christi Lijkama, og verda so Mustere Heilags Anda, og Ibwd þeirrar allra Helgustu Þreñingar. Omøgulegt er, ad þeir blijfe Æfeñlega i Grøfeñe, þad fyrst þeir eru a so Lijfkroptugre Fædu fædder og uppfoostrader i þessu Lijfe. Þetta er siw dijrmæta Fædañ, hvørrar þo vier neytum, þa um̃breitum vier heñe ecke, helldur um̃breiter hun oss, og giører oss sier lijka, Jaa, hun giører oss ad Lidum og Limum Christi Lijkama. Þetta er þad Brauded sem af Himnum ofañ nidur stie, og giefur Lijfed Heimenum, Hvør sem af þvi etur, hañ skal ecke Hwngra ad Eilijfu. Þetta er Naadareñar og Myskunnareñar Braud, og hvør sem etur af þvi,

hañ fær ad smacka og siaa hvad sætur ad DRottenñ er, af hvørs Uppfyllingu vier faaum Naad fyrer Naad. Þetta Braud er Lijfsins Braud, sem ad ecke alleinasta i sialfu sier er Lifande, helldur og eirneñ adra af sier Lifande giører, hvar fyrer, hvør sem af þvi etur, hañ Lifer ad Eilijfu. Þetta Brauded er þad sama Braud, sem af Himnum ofañ stie, og er þvi ecke alleinasta sialft Himneskt, helldur og eirneñ giører alla þa Himneska sem af þvi neyta med Trwñe, þeir verda Himnesker sem af þvi neyta, þviad þeir munu ecke deya, helldur munu þeir a efsta Deige verda upp vakter, Jaa, ecke uppvakter til Doomsins, þvi ad hvør sem etur af þessu Braudenu, hañ kiemur ecke fyrer Doomeñ, Ecke verda þeir helldur uppvakter til Fyrerdæmingareñar, Þvi þar er eckert Fordæmañlegt a þeim sem eru i Christo JEsu, helldur verda þeir uppvakter til eilijfs Lijfs og eilijfrar Sælu, Þviad, sa sem etur Holld Mañsins Sonar, og dreckur hañs Blood, hañ hefur Lijfed i sier blijfanda, og mun i þvi Lijfenu lifa Eilijflega.

Hollded Christi er sañarleg Fæda og hañs

hañs Blood janarligur Dryckur, Laatum oss þvi sediast, ecke af vorra Verka Forþienustu, helldur af þessare Fæduñe sem Guds Sonur oss giefur; Laatum oss verda druckna, ecke af Gnægd vors Hwss, helldur af Gnægd Guds Hwss. Hier er sa riette og sañe Lijfsins Bruñur, hvør sem dreckur af hañs Vatne, af hønum munu Straumar frameña til Eilijfs Lijfs.

Komed hingad aller þier sem þyrster erud til þessa Vatnsins, og þier sem ecke hafed Sylfur ad kaupa med, skunded ydur hijngad, og kauped fyrer eckert, so þier sadder verded. Aller þeir enu þyrstu eru hijngad bodner; Þu ert ein i þeirra Tølu Saala mijn, sem ert þiskud under Hita og Þwnga Syndañа, kom þar fyrer og tef ecke vid, og forsooma øngvañeigeñ þetta Naadar Boded; Þyke þier þig vanta Gialld eda Sylfur þiñar eigeñ Forþienustu, þa vertu þess fwsare til ad koma og tef þess sijdur vid, þvi hier er þier tilsagt, ad þu maatt kaupa aan Gialldz og Peninga. Hier hia þessu Brand-Hwsenu er Sængar Herberge Christi, og Christeñar Saalar, og so sem þad ad Synderuar kuña ecke ad varna eirne Ydrande Saalu Jñgaungu i þetta Herberge; So kañ og ecke helldur, Mañleg Forþienusta sier þar iñ ad þreingia med Saaluñe, helldur geingur Saaleñ Ohindrud og einsømul, iñ til sijns Brwdguma. Hvad er vor eigenleg Forþienusta ad reikna? Þeir vega wt Sylfred, eñ þar verdur ecke Braud fyrer keypt, og Erfided, eñ þad wtvegar ecke Sadningena, seiger Spaamadureñ: So sedia og ecke helldur vor eigeñleg Goodverk Samvitskuna, og ecke helldur gietum vier keypt med Peningum vorrar eigeñ Þioonustu, Guds Naad og Myskun. Giefdu þar fyrer Gaum ad þessu Bodenu, Saala mijn, og neyt þess hins Gooda, sem hier

 verd-

verdur a Bord bored, og forlystadu þig af Feytleika þessa Giestabodsins. Þesse Ord ern Ande og Lijf; Jaa, þetta er Ord eilijfs Lijfs, Kaleikureñ yfer hvørn vier blessum, er Hlutdeilld Bloodsins Christi, og Brauded sem vier brjootum, er Utdeiling og Medtekning Holldsins Christi: So samteingiunst vier nu Drottne ecke alleinasta þar med, ad vier høfum somu Tegundar Naattnru og hañ, helldur og eirneñ þar med, ad vier neytum hañs Hollds og Bloods; Þar fyrer vil eg ecke seigia med þeim Vantrwudu Gydingum; Hvørneñ kañ þesse ad giefa oss sitt Holld og Blood til Nautnar? Helldur vil eg af Furdu og Forundran upphrópa og seigia: O! hvad Daasamlegt Verk Drottens er þad, ad hañ giefur oss siñ Lijkama til Fædu, og sitt Blood til Dryckiar? J þessu Daasemdarverke vil eg helldur daast ad Giæsku Drottens, eñ ad hnijsa i hañs Almætte. Eg vil helldur tilbidia hañs Giæsku sem i þessu Daasemdarverke skijn, eñ ad grenslast uñ hañs Almættes Krapt, hvørn eg sæ ecke skiled. Eg trwe fyrer vissañ Sañ, ad Hollded og Blooded Christi, frambreidest og medtakest i þessu Giestabode, eñ med hvøriun Hætte þad er naalægt, kañ eg ecke ad vita, þo veit eg sú Naalægd er Obrygdañlega viss og stadføst. Vier erum Limer hañs Lijkama, Holld af hañs Hollde, og Bein af hañs Beinum; Hañ bijr i oss, og vier i hønum. J Afgruñ þessa Leyndardoomsins Gudlegrar Giæsku og Myskunar, Gyrnest eg ad Saal mijn med sijnum Þenkum, mætte sem Diwpast nidur sockva, Amen.

## Nijtianda Hugvekia.

Uñ Leyndardoom DRotteñlegrar Kvølldmaaltijdar.

Þessare Allra Helgustu Kvølldmaaltijd DRotteñs, verdur oss Møñunum tiedur eirn Haaleitur og Dijrmætur Leyndardoomur, hvør ed maa reiknast so sem nockurskonar Fie-

fiodur

ſtoodur , edur Audæfa-Hyrdſla allrar Guds Nadar og Myſkunar.

Vier leſum, ad i Paradys hafe Lijfs-Tried plantad vered af Gude, hvørs Averxter ættu ad hallda vorum Fyrſtu Forelldrum, og þeirra Epterkomendum vid Magt, i þeirre Odaudleikans Farſælld ſem þeim var medfædd, og ſkøpud af Gude. Þar ſtood og ſo i Paradys Skilnings-Trie Goods og Ills, þeirrar Meiningar af Gude þar plantad, ad vorer Fyrſtu Forelldrar ſkylldu ydka ſijna Hlijdne vid ſiñ Skapara þar i, ad neyta ecke af Averxte þeſs ſama Tries, hvad þeim hefde vered hin meſta Farſælld, og meſta Æra, eñ ſem ſu auma Mañeſkia hlijdde meir og framar Diøfulſins Slægdarfullre Aeggian, eñ Guds Fødurlegu Bode og Vilia, þa vard þeim þad ſama, ſem Gud hafde þeim til Farſælldar og Æru ſett og ſkapad, Tilefne til Dauda og Fyrerdæmingar. So er hier nu aptur ad nyu plantad þad rietta og ſaña Lijfſins-Trie, þad ſæta og Heilnæma Tried, hvørs Lauf-Blød eru til Lækningar, og Averxterner til Heilſugiafar, hvørs Sætleike i burt tek-

ur alla Beyskiu hvorskins Mootlætis og Eymda, og lijka vel sialfs Daudans.

Israels Sonum var Fordum giefed Himna-Miøled, so ad þeir urdu fædder af þeirre Himneskri Fædu; Hier er þad rietta Himna-Miøled, sem af Himnum ofañ nidur stie, so þad giæfe Lijf Heimenum, þetta er þad Himneska Brauded, og su Einglaña Fæda, af hvørre ef nockur neyter, hañ mun alldrei hwngra.

Israels Lijdur hafde hiaa sier Saatt-maals-Ørkena og Naadar-Stooliñ, hvar þeir kuñu ad heyra DRottiñ vid sig talanda fraa Auglite til Auglitis; Eñ myklu Ædre Sattmaals-Ørk er þo hiaa oss og aa medal vor, sem er saa Allra Helgaste Lijkaine Christi, i hverium ad eru hulder og iñeluckter aller Fiesiooder Vijsdoomsins, Þeckingareñar og Spekeñar; So er hier og eirneñ saa riette Naadar-Stooll-eñ, þad er Forþienustañ Bloodsins JEsu Christi, hvør ad þvi orkar, ad vier verdum elskader i þeun Elskanlega. Jaa, hañ talar ecke alleinasta vid oss hid iñra med Hugguneñe, helldur bijr hañ, og so eirneñ sialfur i oss hid iñra. Hañ fæder oss ecke med

Himnia-Braudenu, helldur med sialfum sier. Hier er þad rietta Port Himnaña, og Stijge Einglaña. Sañlega er þetta eirn Oumrædelega stoor Pantur vorrar Saaluhialpar. Gud hafde eckert añad ædra eda ypparlegra oß ad giefa, eñ hañ gaf, þvi hvad kañ ad vera ædra og ypparlegra eñ hañ sialfur? Eda hvør Hlutur er hönum so naakvæmlega teingdur, sem hañs eiged Holld og Blood? Hvørt hañs Holld og Blood er iñteked i Samfielagskap þeirrar bleßudu Preñingar, og rædur yfer øllum Fesioodum Himneskra Aud æfa. Med þessum Himneskum og Dijrmætum Fædslum, nærer hañ og foostrar oß auma Jardar-Madka, meddeilande oß so þar med sijna eigenlega Naatturu, hvørneñ skyllde hañ þa ecke Naadena under eins meddeila? Hvør hefur nockurn Tijma sitt eiged Holld hatad? Eñ hate ecke Guds Sonur sitt eiged Holld, hvørneñ skyllde hañ þa hata edur forsmaa þaa sem hañ fæder med sijnu Hollde, og dryckiar med sijnu Bloode? Hvørneñ skyllde hañ gieta laated þa falla sier ur Miñe, eda gleymt þeim sem hañ hefur giefed sitt eig-

enlegt

enlegt Holld til Minnis-Pantz? Hvørnenn er møgulegt, ad Diøfullinn megne nockurn Hlut aa moote oß, sem erum fædder og uppalder aa þeirre Himneſku Fædunne, og verdum þvi O-yfervinnanleger i Skijrnenne.

Heitt hefur Christur elſkad oß, þar hann keypte oß so dijrt, heitt hefur Christur elſkad oß, med þvi hann fæder oß aa so dijrmætre Fædu. Þeſſe Fædann alleina er so dijrmætur Læknis-Doomur, ad hun wtdriifur øll Andleg Mein og Sootter; Þeſse Fædann er saa Læknisdoomur, sem duger ecke aa moote Lijkamlegum, helldur eilijfum Dauda, og maa þvi med riettu kallaſt Odaudleikans Balſam, þviad hvør Synd kann ad finnaſt so ſtoor, ad Hollded Chriſti kunne hana ecke ad græda? Hvad er so Banvænlegt, ad Daude Guds Sonar kunne þad ecke i burt ad taka? Hvar eru so Daudleg Skeyte Diøfulſins, ad þau orke aa Skiølld Gudlegrar Naadar? Hvar er so ſtoor Fleckun Samvitſkunnar, ad Blooded Guds Sonar kunne hana ecke ad hreinſa?

DRotten var Fordum hiaa Iſraels Foolke i Skyenu og Elldenum, enn hier er hann oß naalægur i ſijnu eigenn Hollde, so ad

þad

þad Skyed er nu i burt viked, og Soolen Riettlætesins skiin oss Ohindrud, med ollum sijnum Lioomа. Hier finnum vier ecke til Ellds nie ofur-Hita Gudlegrar Reide, helldur til þess hægasta og mіwkasta Varma Gudlegrar Elsku; Þesse Naalægd DRottens, vijkur ecke fra oss, so sem Sky Stoolpenn og Elld-Stoolpenn, veik fra Israels Foolke umm sijder, helldur blijfur hun hia oss Æfeńlega, og inn til eilijfs Lijfs.

Vorer Fyrstu Forelldrar, voru innleidder i þann Lystelega Aldengard (sem var Figura og Fyrermyndan uppa þa Himnesku Sælunna i Himnarijke) svo ad þeir skylldu þar med aaminter verda, umm Gudlega Giæsku og Velgiørninga, sem hann þeim veitte, og lærdu þar wt af, ad veita sijnum Skapara skyllduga Hlijdne, Enn hvad er Paradijsar Vellysting ad reikna hia þessare Vellystingunne? Þar Skiepnan verdur fædd og sødd med Skaparans Hollde, Þar Ydrande Samvitska verdur þveigenn og hreinsud med Guds Sonar Bloode, Þar Limerner Christi, næraſt af Hollde sijns Høfuds, Þad er sialfs Herrans Christi. Sa allra Heilagaste Guds Sonar Lijkame, hvørn Einglarner og Høfud-Einglarner Tigna og Tilbidia i Einingu Christi Persoonu, fyrer hvørium ad Magtarvølldenn skialfa og hrædast, ad hvørium Kraptarner daadst med Forundran og Lotningu, Sa hinn same Guds Sonar Lijkame verdur hier vor Andleg Fæda. Hier vid meiga glediast Himnarner, og Jørdenn fagna, Enn þo laangtum framar ein Christenn Saal, hvørre so dijrmætur og Haaleitur Hlutur verdur veittur.



# Tuttugaſta Hugvekia.

Um̃ þad, hvørneñ Madur ſkal ſig alvarlega tilbwa og tilreida, ædur eñ hañ geingur til þeſſ Hæverduga Alltaresins Sacramentis.

Þegar vier gaungum til Guds Sonar Kvølldmæltijdar Sacramentis, þa ſkulum vier vita, ad vier gøngum þar ecke til nockurs almeñelegs Gieſtabods, eda nockrar Konglegrar Veitſlu, helldur til þviliijks Bordhallds, i hvøriu ad framreiddur og Handtieradur verdur ſa allra Heilagaſte Leyndardoomur Hollds ſins og Bloodſins Chriſti, hvar fyrer oſs byriade vandlega ad tilreida oſs og bwa þar til, ſvo ad vier medtøkum ecke Daudañ fyrer Lijfed, og ecke Afellisdoom yfer oſs, i Staden̄ frambodeñar Myſkunſemé, ſem hier er til Reidu af Guds Hende, øllum þeim þad verduglega medtaka.

Forfadereñ Abraham, hverium ad hrooſad verdur i Ritninguñe fram̃ yfer alla adra Meñ, vegna þeſs ſtoora Trwareñar Styrkleika, ſem Gud hafde hañ med bigæfad, hañ er ſamt ſo hræddur og Ottaſleigeñ, þegar Guds Sonur Openberadeſt hønum i Mañlegre Lijkingu, og talar

vid hañ um̃ Foreydslu Borgareñar Sodomæ og Gomorræ, ad hañ vidurkieñer sig Ösku og Dupt Jardar, og alldeilis Overduguñ, ad hañ skule vid sin̄ Herra og Gud tala, edur hønum so nærlægur standa. Eñ i þessu Giestabodenu fäum vier ecke alleina ad siaa þad blessada Guds Lamb, sem Abraham Fordum vid talade, helldur fäum vier eirneñ ad neyta þess Hollds og drecka þess Blood: Hvad tytrande mættum vier þa vera, af hvilijkre Nærlægd Guds Sonar? Þegar Usias gieck of Drystuglega ad Guds Sættmaals Ørk, þa vard hañ strax sleigeñ af DRottne med Spitelsku. Hvør villde þa læta sig furda, þott þeir ete og drecke siælfum sier Doom, sem Overduglega eta af þessu Braudenu, og drecka af þessu Vijnenu? Þviad i þessu Giestabode, er su rietta Sættmaals Ørk þess Nija Testamenteſins, hvorrar Figura og Fyrermyndan su Gamla Sættmaals-Ørkeñ var, i hinu Fyrra Testamentenu. Eñ hvørneñ Madur skule sig verduglega tilbwa og reida til Medtekningar Hollds-sins og Bloodsins Christi i Sacramentenu, þad ærvijsar Postuleñ og kieñer med

einu Orde, seigiande: Hvør Madur proofe sig sialfañ, og ete so af þessu Braude, og drecke af þessum Kaleik, etc. Nu med þvi þetta er ein Andleg Proofan og Andlegt Ransak, sem Postuleñ bijfalar oss hier ad hafa, þa a hun ad vera epter Reglu og Mæta Guds Orda.

Ransokum þar fyrer fyrst vorn eigeñlegañ Brest og Veikleika: Hvad er Madureñ? Hañ er Molld og Aska, vær erum af Jørduñe skapader i Fyrstu, vier fæddustum og nærunst af Jørduñe, ad Jørdu verdum vier uñ sijder aptur epter vorn Dauda. Hvad er Madureñ? Hañ er i fyrstu anstygdarlegt Bloods-Sæde, Saurenda Seckur og Madka Fæda, Madureñ fædest til Prældooms, eñ ecke til Herradooms, til Omaks, eñ ecke til Hvijldar, til Sorgar, eñ ecke til Glede. Madureñ af Kviñuñe fæddur, fædest i Saurgan Syndareñar, og hefur sier fæarra Lijfdaga ad vænta, hvar fyrer hañ verdur alla Daga ad vera uggande fyrer Daudanum; Eñ þær stuttu Lijfstunder eru fullar adskilianlegra Eymda og Armædu, og ma þvi Madurinñ ævallt hryggur vera. Þær eru

þvi

þvi fullar Synda, ad hvørke Saleñ nie Lijkameñ eru frij. Saalena aastrijda Synder og Lester, Lijkamañ adskilianleg Olucku Tilfelle. Madureñ veit eige hvad uñ sig lijdur i Hijngadfædinguñe, ecke helldur veit hañ hvad uñ sig lijdur i Daudanum edur Burtførene. Hañ er so sem þad Bloomstur, sem ad Morgne bloomgast, eñ ad Kvøllde visnar. Þeir faau Lijfdagar færa med sier ecke allsaar Synder og Astrijdur. Rañsokum þar næst vorn Overdugleika. Eingeñ er su skøpud Skiepna, ad ecke sie ad reikna hia sijnum Skapara so sem Skugge eda Draumur; Jaa, so sem eckert: Hvad er þa Madureñ ad reikna i Guds Auglite? Ef adrar Skiepnur eru eckert, þa er Mañeskiañ þo eñ miña, hvør ad hefur styngt siñ Skapara med Syndeñe. Gud er i siaalfum sier til og i siñe eigeñ Nautturu eckert añad eñ siaalfst Riettlæted, þvi kañ hañs Nauttura ecke añars eñ reidast Syndeñe: Hvørneñ skulum vier þa visen og uppþornud Straa, kuña ad standast Naalægd þessa fortæranda Ellds ins? Hvørneñ skulu vorar svijvirdelegar Athafuer standast Naalægd þessa Riettlæte-

ſins? Hvørneñ vill þad fara um̃ vora Illſku, hvøria þu Drotteñ ſetur fram̃ fyrer þitt Auglite? Og um̃ vorar Avirdingar ſem eru giørdar fyrer Liooſe þijns Andlitis? So ſem þu ert Omælanlega ſtoor, og Omũrædelegur i øllu ødru; So ertu og eirneñ i þijnu Riettlæte og þiñe Reide. Mun ta ſem ecke þyrmde Synenum, nockud þyrma eirnre ſkapadre Skiepnu? Sa ſem ecke þyrmde þeim allra Heilagaſta, mun nockur Von a, hañ þyrme ſijnum Hreckvijſum Præl? Gud hatar ſo miøg og mykelega Syndena, ad hañ ſtraffar hana, lijkavel hia þeim, ſem hønum hafa vered ædur fyrre hiner Kiæruſtu, hvar til vier ſiaum Dæme a Lucifer, ſem ædur var Einglaña Høfdinge, eñ ſijdañ var wtkaſtadur i eilijfa Gløtun, og er fiøtradur med Myrkraña Hleckium vegna ſijns Brots.

Proofum þar næſt og Ranſøkum þad Bleſſada Braud, ſem oſſ veiteſt i Kvølldmæltijdar Sacramentenu, hvørt Braud ad er Meddeiling Chriſti Lijkama, ſvo ſem Poſtuleñ þar um̃ ad Orde kiemſt. Hier ſiaum vier þañ rietta Nædar Bruñ, og þa Obverranlegu Myſkunſemdaña Uppſprettu. Mun møgulegt ad Drotteñ kuñe oſſ ølldungis ad gleyma, hvøria hañ hefur giørt Hluttokendur ſijns eigeñlegs Hollds? Þviad hafe eingeñ um̃ Æfe ſitt eigeñlegt Holld hatad, þa er eñ ſijdur Von, ad Chriſtur mune ſitt Holld hata. Þeſſe ſignada Fæd-

ān

añ umbreyter og Forklaarun veiter vorum Saalum, Pesse Guddoomlega Fædañ giörer oss Gudoomlega Meñ, sem aadur vorum Holldleger Meñ, iñ til þess vier fyllelega medtøkum þa Ofomnu Dijrdena, þar sem Gud verdur allt i øllum, og vier alldeilis Gude lijker, hvad vier ødlunst hier i Trwñe, eñ þar i fyllelegre Medtekningu. Vorer Lijkamer munu og eirneñ ødlast þa Vegsemd, ad vier saaum i þeim ad sia Gud, Auglite til Auglitis, hvørier ad nu erum Mustere Heilags Anda, helgud og lijfgud fyrer Medtekningu Holldsins og Bloodsins Herrans JEsu Christi. Pesse allra Helgasta Lækning, Græder øll Syndaña Saar. Petta Lijfsrøptuga Hollded ysekviñur og wtdriifur alla Daudlega Synd, Petta er þad allra Helgasta Iñsigle Gudlegra Fyrerheita, hvørt vier kuñum fram ad bera og sijna, fyrer Guds Doome, a sijdasta Deige. Fyrst oss er þesse Pantureñ giefeñ, uppaa þad eilijfa Lijfed, þa meigum vier oss þar sво fast uppaa reida, so sem vier hefdum þad allareidu medteked. Pad fyrst oss verdur giefed Christi Holld og Blood, þa verdur og saññarlega þar med og under eins oss giefed allt þad Gooda, sem þad allra Helgasta Holldeд og Blessada Bloodeд hefur wtvegad og forþient. Sa sem hefur giefed oss þad sem meira er vert, skyllde hañ nockud spara oss þad sem miña er vert? Fyrst Gud hefur giefed oss siñ Son, skyllde hañ þa ei giefa oss allt añad med hønum? Fagne þar fyrer og glediest Brwdureñ Christi, þviad sa Tijme er fyrer Hende a hvørium hun mun verda kølluд og leidd iñ i Brwdkaup Lambsins: Iklædest hun þvi dijrmætum Bwnade, og take uppaa sig Brwdkaups Klæded, so hun verde ecke fundeñ Nakeñ, þad Klæde er hñar Brwdguma Riettlæte, hvøriu hun hefur vered Ikladd i Skijrneñe. So laangt er þad fiærre, ad vort eigenlegt Riettlæte sie þad rietta Brullaups Klæded, ad þad er kallad fyrer Guds Anda, eitt saurugt Klæde Bloodfalls-Siwkrar Kvinu. Munum oss þar fyrer, ad vier ecke færum med oss i

þetta Giestaboded, þaug andstiggelegustu og saurugu Klæde vorra eigenlegra Verka, hvør ed aungvañveigeñ kuña ad starta fyrer Gude. DRotteñ Iklæd þu oss þeim rietta Skrwdanum, svo vier verdum ecke fundner Nakter, AMEN.

## Tuttugasta og Fyrsta Hugvekia.

Um̃ Christi Uppstigningu.

NErdugt er Christeñ Saal, ad þu hurer um̃ Uppstigningu þijns Brwdguma HErrans JEsu Christi. Hañ villde þvi ecke vera leingur sijnum Riett-trwudum synelega Nærverande i þessu Lijfe, eñ hañ var, svo ad þeir mætte þess heilldur ydka sig og æfa i Trwñe a hañ, þvi sæler eru þeir, sem ecke siaa, og trwa þo.

Þar sem vor Fiesiodur er, þar skyllde og so vort Hiarta vera; Nu er Christur (sem er vor Ædste Fiesioodur) a Himnum, þar fyrer ætte vort Hiarta ad hallda sier vid þa Himnesku Hlutena, og þad sem þar er uppe.

So sem Brwdureñ gyrnest Hiartanlega, ad siaa siñ Brwdguma sem snarast aptur til sijn komande; So æ og eirneñ hvør Riett-trwud Saal, avallt ad ofka og gyrnast, ad saa Dagur mætte sem snarast koma, a hvørium hun meige vera iñleidd

leidd i Brwdkaup Lambsins. Hun mæ vel treysta uppa þañ gooda Pant, þess Verduga Heilaga Anda, hvorn DRotteñ epterskilde hiaa heñe, þa hañ af Himnum ofañ stie i vort Hollð. Hun mæ treysta uppa Hollð og Blood DRotteñs, sem hun medtekur i þeim stoora Leyndardoome þeirrar Heilögu Kvølldmaaltijdar, og vissilega trwa, ad vorer Lijkamer sem fædast og næraft, a þvilijkre Odaudlegre Fædu, mune sijdar meir upp aptur rijsa. Pad sem vier trwum nu, þad munum vier þar siaa, og þess sem vier nu væntum, þad mun þa i Raun og Sañleika framkoma.

DRotteñ JEsus er hiaa oss, a þessum Vegferdar-Veige, so sem i añarlegre Mynd og Asynd; Eñ i þvi Himneska Giesta-Herbergenu, þegar vier erum konner til Sætis i vort rietta Fødur-Land, þa munum vier riettelega faa ad þeckia hañ, og siaa hañ svo sem hañ er.

Endurlausnareñ villde þar fyrer helldur uppstijga af Fiallenu Oliveti, eñ añar-Stadar, þviad Oliu-Vidureñ er Teikn, bæde Fridar og Fagnadar. Riettelega stie hañ upp af Oliu-Vidar Fiallenu, sem

Frid og Roo, Glede og Fognud hafde wtvegad, hrædduni og sturlüdum Mañaña Samwitskum. Riettelega mætte sa af Oliu-Fiallenu uppstiga, vid hvørium ad Himnaña Herskeiter taka med Glede og Fognude. Gaungum uppa Hæder Fiallaña med Christo; Gaungum pad med Hiartans Gyrnd og Fysne, med pvi vier kuñum pad ei med Lijkamans Fotum ad giøra, petta kieña ofs Epterdæme peirra Heilogu. Moyses gieck uppa Fialled pa hañ villde tala vid Gud. Peir Heilogu Forfedur geingu uppa Fialled, pa peir villdu giøra sijnar Bæner, og Offra Gude. Forfaderen Abraham wtvalde sier Fiall-Byggdernar, eñ Loth Sliettlended: So byriar Trwadre Saal ad giøra, ad skilia sig vid Sliettlende Veralldareñar, pad er heñar Vellystingar, og kieppast uppa Hæder med Gudhrædd̄re Astundan, so fær hun ad heyra Guds Elskuleguſtu og Lijfsleguſtu Vidrædur hid iñra i Anda; So fær hun uñskwed med Abraham pad eilijfa Baal og Bruna, sem Helmsins Sliettlende er fyrerbwed.

Bethania merker Eymda og Hörmunga-

unga-Hws; J giegnum þetta Hwsed liggur vor Leid sem ferdast vilium upp i Himna-Dyrd, lijka so sem Christur uppstie wr þessare Eymd i eilijfa Dyrd.

Adur Christur uppstie til Himna, þa var Himeniñ so sem aptur-byrgdur og lucktur fyrer oss, og su Himneska Paradijs var oss vareñ og bonud, med þvi Elldlega Sverde Eingelsins; Eñ nu sem Christur hefur Sigureñ uñed, þa stijgur hañ upp til Himna, og upplijkur so Himnenum aptur, so ad hañ vijsade oss Veg upp aptur þangad, hvadañ vier vorum aadur fallner. Læresveinarner stoodu og horfdu upp i Himeneñ, þegar Christur fraa þeim upp stie, hvar med þeir kieña oss sem vilium vera rietter Læresveinar Christi, ad upplypta vorum Hiartans Augum til vors Endurlausnara, sem i Himnenum rijker.

O! HErra JEsu, Hvad Dijrdarleg Ending vard aa ollum þijnum Eymdum, og aa þiñe Pijnu? Hvad snogg og good Umskipte verda hier? Hvad mykell Munur var ad siaa þig i þiñe Kvol, aa Fiallenu Golgatha, og ad siaa þig nu uppstijganda

a Fiallenu Oliveti? A Fiallenu Golgatha varstu Einmana; Eñ hier a Oliu-Fiallenu eru i kriingum þig margar Þusunder Eingla. Þar a Høfud-Skiella-Fiallenu, varstu upphafeñ a Krossen, eñ hier verdur þu i Skyenu Uppnumeñ til Himna. Þu varst þar Krossfestur i millum tveggia Ræningia; Eñ hier ertu dijrdarlegur mitt i Bland Himneskra Hersveita. Þar varstu med Nøglum nidur negldur a Krossen og til Dauda fordæmdur; Eñ hier ertu laus og frij, og þar til þo Frelsare þeirra Fordæmdu. Þar varstu staddur i Dauda og Kvøl; Eñ hier i Glede og Dijrdarlegre Sigurviñingu. Christur er vort Høfud, eñ vier erum hañs Limer. Fagna þvi og gledst þu Trwud Saal; Su Vegsemd sem Høfdenu veitest, hun veitest og ødrum Limunum, sem Høfdenu eru samteingder. Þar sem vort Holld Drottnar, þar muñum vier og eirneñ Drottna. Þar sem vort Blood Rijker og Drottnar, þar meig um vier vissilega vænta og vona, ad vier munum þar og eirneñ Dijrdleger verda, og þo ad Syndernar vilie þetta hindra, þa hindrar þad þo ecke su sameigeñlega Nattura,

ura, sem vier hofum med Guds Syne. Þar sem Høfuded er, þarngad munu og hi-ner adrer Limerner safnast. Nu er vort Høf ud Christur iñkomeñ i eilijfa Dyrd, þar fyr er hafa hiner adrer Lider og Limer aa hañs Andlega Lijkama, fulla og alla Ordsek til ad vænta sier og vona eirnrar Himneskrar Dyrdar; Þad fyrst Høfudid hefur med-teked Himneska Sælu, þa hafa og eirneñ hiner Limerner Eignar-Riett til somu Sælu, hvøria Sælu Christur hefur alla Reidu þeirra vegna utteked aa Himnum, so ad hañ afhendte þeim hana aa Efsta Deige. Christur nidur stie af Himnum til þess ad hañ giørde oss Riettlaata; Eñ hañ uppstie aptur til Himna, so ad hañ giørde oss Vegsamlega og Dyrdarlega. Vorra vegna er hañ fæddur, Vorra veg-na pijndur, þar fyrer hefur hañ og eirneñ vorra vegna til Himna aptur uppstijged. Ut af Christi Pijnu, þrooast vor Elska til Guds, Eñ i hañs Upprisu styrkest Trweñ vor, so nærest og Voneñ vor i hañs Upp-stigning.

Nu eigum vier epter ad fylgia vorum Brwdguma, ei alleinasta med goodfwsre Gyrnd Hiartans, helldur og so med Gudrækelegre Hlijdne ytre Verkaña. J þa

Himnesku

Himneskri Guds Barna Borg maa eckert Saurugt inngaanga, hvar uiu Einglarner vockurnveigen bera vitne, med sine Hegdau, hviad þegar þeir nidurstigu fra þeirre Himnesku Jerusalem, hijngad a Jördena, þa lietu þeir sig sia Iklædda hvijtum Klædum, hvør ed merkia hreinan og Oflecfadan Heilagleika og Meinleyse. Med Lærermeistara Lijtelætesins kañ eingen Drambseme upp ad stijga, og ecke helldur med Födur Giæskuñar Prettvijseñ. Ei kañ helldur med Fridar Höfdingianum ad uppstijga Osambycked, og ecke helldur med Meyar Synenum Loste og Oshreynsla. Jaa, aungver Lester kuña ad vera i Fylgd og För med Födur allra Dygda, og ei helldur kuña Synduernar ad fylgiast ad med þeim Riettlaata, edur Beykleike med Læknaranum. Sa sem gyrnest sijdar meir, ad sia Gud Auglite til Auglitis, hañ stunde til ad lifa hier sem ber, fyrer hañs Auglite. Sa sem vænter sier þess Himneska, hañ forackte þad Jardueska. Hneig þar til vor Hiörtu goode JEsu, og drag oss og vorn Vilia epter þier, Amen.

## Tuttugasta og Auñur Hugvekia.

Uñ Heilagañ Anda.

Þegar Drotteñ vor JEsus uppstie til Himna, og Jñgieck i sijna eilijfu Dijrd og Begseind, þa sende hañ Læresveinunum H. Anda a sialfre Hvijtasuñu Haatijdeñe: Og so sem ad þa Gud wtgaf Logmaaled a Fiallenu Sinai i Gamla Testamentenu, þa stie hañ sialfur a medañ nidur til Moysen; Eins skiedur nu i Nija Testamentenu, þegar Postularner eiga ad wtgaanga uñ allañ Heimeñ

meñ og Predika Evangelium, þa nidur stijgur Heilagur Ande til þeirra. Þar heyrdust Skruggur, Elldingar og Reidarþrumur, og miøg stoor og skielfelegLwdurs Hliood, þviad Løgmaalsins Raust upphefur sig med stoorre Ognan a moote vorre Ohlijdne, og audsijner oss ad hafa forskulldad eilijfa Guds Reide; Eñ hier heyrest so sem eirn hægur Vindblær, þviad Evangelij Naadar Bodskapur hughreister aptur og endurnærer Istødulaus og Ottasleigeñ Hiørtu. Þar vard allt Foolked hrædt og skiaalfande, þviad Løgmaaled verkar Reide; Eñ hier þys stoor Hoopur og Mañfiølde til samans, til ad heyra Guds Furduverk. Fordum nidur stie Gud i Elldenum, eñ þad var hañs Reide Elldur, hvar fyrer Fialled allt titrade skalf og rauk; Nu nidurstijgur H. Ande og so i Ellde; Eñ þad er hañs Elsku Elldur og Kiærleiks Elldur, hvar fyrer ad Hwsid sem Postularner voru iñe, skalf ecke af Gudlegre Reide, helldur uppfyllteft med Dijrdar Liooma Heilags Anda. So sem Christur var wtsendur i þeñañ Heim, til ad frelsa Mañlegt Kyn; So verdur og eirneñ hañs Hei

lagur

lagur Ande wtsendur til ad helga þad og Upplijsa i allre Trwareñar Þeckingu. Eckert Gagn hefde oß staded af Christi Pijnu, hefde hun ecke vered oß kiend og kuñgiord i heilögu Guds Evangelio, þviad hvør kañ ad hafa Gagn af geymdum edur leyndum Fiesiood? Þar fyrer villde sa Himneske Fader Myskunsemdaña, ecke alleinasta tilreida eirn myken Velgiørning, fyrer Pijnuna Christi, helldur villde hañ þañ Velgiørning laata øllum Heimenum framboden verda, fyrer Utsending heilags Anda. Ein good Mooder nærer sitt Barn a bædum sijnum Briooftum; So giefur oß sa goode Gud bæde sijn Brioost, þad er Soneñ og heilagañ Anda. Heilagur Ande kiemur yfer Postulana, þa þeir voru med einu Samhellde, hvør med ødrum, ad bidiast fyrer, þviad þetta er Ande Bænareñar, hvør ed fyrst verdur feingeñ af Gude med Bæneñe, og sijdañ sialfur uppvekur og æfijser til Bænareñar, þviad hañ er þad Samband, sem oß og vor Hiørtu samteinger vid Gud, so sem hañ samteinger Fødureñ og Soneñ, verande þeirra beggja sameigeñleg og samverande Iñbyrdes Elska

Elska. Þesse Andleg Samteinging vor vid Gud, hun skiedur wt af Trwñe, hvør Trw ad er Giøf og Gaafa heilags Anda, Trwna ødlunst vier med Bæneñe, eñ rietteleg Bæn skiedur alleinasta fyrer Hiaalp og Hiaastod heilags Anda. J Salomonis Mustere, þegar þar var fyrst Offrad Drottne Breñefoorn, þa uppfyllte Dijrd DRottens allt Mustered; Eins skiedur þad so tijtt og opt, sem þu offrar Gude þijnum Bænum, þa uppfyller Dijrd heilags Anda allt Mustere þijns Hiarta. O! hvad daasamleg er þesse Guds Myskunseme og Naad, þad Fadereñ lofar ad Bænheira oss, Sonureñ leggur til med oss, og heilagur Ande bidur i oss og med oss; Eñ heilager Einglar bera fram vorar Bæner fyrer Gud, so ad Naadar-Dyrunum verdur alldrei fyrer þeim aptur luckt? Sa Myskunsame goode Gud giefur oss fyrst tilhneygianlegt Hiartalag til Bænareñar, þviad hañ giefur oss Anda Bænareñar og Naadareñar. Hañ giefur og Bæneñe sijna Framkvæmd, þviad hañ Bænheyrer ætijd vorar Andvarpaner. Og þo þad skie ei alltijd epter vorum Villa, þa skied-

ur þad þo alltijd epter þvi ſem oſſ beſt hagnaſt og gagnaſt. Heilagur Ande kom yfer Poſtulana, þegar þeir voru ſamhuga aller i einu Hwſe, og i einum Stad ſtadder, þvi heilagur Ande er Ande Eindrægneñar og Elſkuñar; Hañ ſamteinger oſs vid Chriſtum fyrer Trwna, eñ Gud ſamteinger hañ vid oſs aptur fyrer Kiærleikañ; Og i ſama Maata ſamteinger hañ oſs Iñbyrdis vid vorn Naunga fyrer Kiærleikañ.

Diofulleñ er Upphaf alls Sundurlyndes og Tvijdrægne, hvør ed adſkilur oſs fra Gude, med Syndunum, og fra vorum Naungum, med Hatre; Prætum og Sundurlynde: Eñ hier þvert a moote þa ſamteinger heilagur Ande oſs aptur vid Gud og Gud vid oſs med ſiñe Verkan, lijka ſo ſem þad hañ ſamteingde þa Guddoomlegu og Mañdomlegu Nattuuruna i Chriſto, med ſiñe Daaſamlegu Yferſkyggingu. So leinge ſem Heilagur Ande blijfur i Mañenum, med ſiñe Naad og Aſtgiøfum, ſo leinge er Madureñ Samteingdur Gude; Eñ ſo ſnart ſem Madureñ fyrer Syndena ſlepper Trwñe og Kiærleikanum, og wtrekur heilagañ Anda, þa fraſkilur hañ

ſig

sig fra Gude, og slijtur bad helgasta Samband sitt vid Gud, sem heilagur Ande hafde bunded. Sa sem bijr yfer Heilogum Anda og hefur hañ i sijnu Hiarta, hañ hatar ecke siñ Broodur; Eñ hvørneñ kiemur bad til? Pad kiemur so til, ad hañ er ordeñ eirn Limur a beim Andlega Lijkamanum Herrans Christi, hvørs Limer ad eru aller Heilager og Gudhræddcr. Nu so sem ecke kañ eirn Limureñ añañ ad hata, a Naattur legum Lijkama; So kañ og ecke hélldur eitt Guds Barn añad ad hata, med hvøriu bad er orded eirn Sameigenlegur Limur under einu Høfde.

Sa sem bijr yfer heilogum Anda, og verdur af hønum stioornadur, hañ elskar eirneñ sijna Ovine; Hvørneñ kiemur bad til? Ordsok bar til er besse, ad beir sem hallda sier vid DROtteñ, beir verda eirn Ande med hønum, og eins siñader og hañ. Nu lætur Gud sijna Sool uppreña jafnt yfer Vonda sem Gooda, lijka vel yfer sijna Ovine sem yfer sijna Vine. Sa sem bijr yfer heilogum Anda, hañ er Reidubweñ til ad giora ollum Gott epter sijnu Megne, og vill giarnañ vera sem flestum til Gagns

K og

og Pienustu, breitande i þvi sama, epter sinum Skapara, hvør ad er Bruñur allrar Mýskunsemdar, Giæsku og Milldе vid alla Meñ. Heilagur Ande uppvekur þvilijkar Hugreñingar og Vilians Tilhneigingar i Mañenum, so sem hañs eigenleg siaalfs Naattura er til, þad er heilagar og Gude þocknanlegar. So sem þad Saaleñ giörer Lijkamañ lifande, tilfiñañlegañ og hræranlegañ; Eins lijka giörer heilagur Ande, Mañiñ andlega lifande, lætur hañ fiña til þess stoora Sætleika Guddoomlegrar Naadar, hrærande og styrande øllum hañs Lidum og Limum, til Hlijdne vid Gud, og Elsku vid Naungañ.

Sa Pytur kom þvi af Himnum ofañ, hvør ad var Teikn Heilags Anda Tilkomu til Postulaña, þvi sa Heilage Ande hefur Himneska Naatturu, verande samrar Veru med Fødurnum og Synenum, af hvørium bаadum Fødur og Syne hañ er Fraumgaangande fra Eilijfd til Eilijfdar. Þesse Heilage Ande maa þvi og eirneñ Himneskur kallast, af þvi hañ kiemur oss Møñunum til ad hugsa um þad Himneska, og þad sem þar uppe er. Sa sem fester Hiartad sitt vid Jardneska Hlute, og Heimeñ Of-fastlega elskar, hañ same hefur eñ nu ei ødlast þeñañ Himneska Anda. Heilagur Ande kom i einum Vindblæ edur Guste yfer Postulana, þess vegna, ad hañ audsijnde sig ad vera þañ hiñ sama, sem med sier færer lifande Huggun og Hugsvølun þeim hinu Sorgfullu. Vier lifum voru Holldlegu Lijfe, af þeim

Anda,

Anda, sem vier giefum fra oss og til vor drøgum i Loptenu, Þar syrer villde H. Ande koma under Teikne og med Teikne eins Vindblærs, hvør ad oss þad veiter, ad vier kunnum ad lisa Andlegu Lisse Sæalareñar. Vindureñ blæs þar sem hañ vill, og þu heyrer hañs Þyt, eñ hvørt hañ ser, eda hvadañ hañ kiemur, þad veitstu ecke: Eins er hættad uñ alla þa sem af Andanum eru fædder. Sa Vind-Þytur, i hvørium H. Ande kom yser Postulana, var mykell og sterkur, þviad H. Ande hrærer kroptuglega og vollduglega Hiørtu Heilagra, i hvørium hañ biir til alls hiñs Gooda, Jæa, hañ hrærer þaug so og hughreyster, ad þaug hrædast hvørke Hootaner Ogudlegra Tyraña, og ecke Svikræde Dissulsins, og ecke Hatur Verallðareñar. Sa verduge H. Ande, færer med sier Postulunum til Handa, Kyñing og Skilning allra Tungumæala, med þvi ad Raust þeirra Predikunar ætte wt ad gæanga uñ øll Lond, og a medal allra Piooda, So tokst nu i burtu allur Oskilianlegleike Tungumælaña, hvør ed var Gudlegt Straff fyrer þa dæarlegu Mañaña Dirfsku, þegar þeir so sem i Træss vid Gud uppbygdu Turneñ Babel, So verda allar Piooder, sem ædur voru sundurdreisdar med Adskilnade Tungumælaña, aptur samañsafnadar i Trwareñar Einingu fyrer Verkan H. Anda. Heilagur Ande openberadest þvi i Tungnaña Lijkingu, ad hañ villde þar med audsijna, ad hañ være sa hiñ same, sem styrt hefur Fordum Tungu Spæamañaña, og añara Guds Maña, þa þeir wt af hañs Jñblæstre, toludu og spæadu i Gamla Testamentenu, So og være hañ eirneñ sa hiñ same, sem tala skyllde fyrer Muñ Postulaña, og sijdañ skyllde ævallt leggia Guds Ord þeim i Muñ, sem kieña eiga i Guds Søfnude.

Blessadur og dijrkadur ad Eilijfu, sierlu Verduge H. Ande, æasamt med Fødurnum og Synenum, fyrer so margar og stoorar Astgiafer, Amen.

* * *
** ** **

## Tuttugasta og Pridia Hugvekia.

Um Tign og Vegsemd Guds Heilagrar Christne.

Hugleid og athuga Christen Saal, hvad mykell og stoor Velgiørningur þier var veittur af Gude, þegar hañ kallade þig i Samfielagskap sinar Heilogu Christne. Ein er su mijn Elskulega Uñusta, seiger Christur i Lofkvæde Salomonis. Sañlega mæ hun Ein kallast, þvi ecke er utañ eirn Søfnudur allra Riett-Trwadra, bæde þeirra sem vered hafa, eru, og epterkomande verda, og þesse Søfnudureñ er Christi Elskuleg Brwdur. Fyrer utañ Christi Andlegañ Lijkama, er ecke hañs Ande, Eñ þeir sem ei hafa Christi Anda, þeir heyra hønum ecke til, þeir sem ecke heyra til Christo, kuña ecke ad eignast Hlutdeilld i þvi eilijfa Lijfe.

So sem ad Fordum allar Skiepnur æ Jørduñe, Drecktust og Tortijndust i Vatns-Floodenn, þær sem voru fyrer utañ Orkena; Eins skiedur þad eirneñ, ad hvørier sem ecke eru iñeluckter og iñtekner i þa Heilogu Ork Guds Safnadar, þeir verda Eilijflega Glatader og Tortijnder. Sæ þarf ecke ad vænta sier, ad hañ eige

Gud fyrer Fodur a Himnum, sem ecke hefur hañs H. Christne, so sem fyrer eina Andlega Mooder a Jordune.

Athuga og gaumgiæf vandlega Saal miin, ad þess vegna nidurstijga til Helvijtis Dags Daglega Oteljanlega margar Saaler, ad þær hafa ecke vered hier a Jordune, i Hoop og Samneyte Guds Heilagrar Christne. Pad ad þu fer ecke somu Leid med þeim hinu Fordæmdu, er ei ad þacka þiñe Naatturu, hvør i sialfre sier er mioglijk Naatturu hiña þeirra Fortopudu; helldur er þad Guds Myskun ad þacka, hvør ed alleina Greinarmun giørde a millum þijn og þeirra. Pegar þang þreifanlegu Myrkur geingu i Egypta-Lande, þa var þo lioos Dagur, so vijda sem Israels Syner binggu. So er og eirneñ Lioos Gudlegrar Peckingar, alleinasta hia Guds Christne, eñ hia þeim sem eru fyrer utañ þa somu Christne, er Myrkur Villudoomsins i þessu Lijfe, hvort ed þa framleider til Myrkurs eilijfra Kvala i odrum Heime. Saa sem ecke er Lidur og Limur Christneñar, sem strijder hier i Heime, hañ verdur og ecke helldur heñar Lim-
 ur

ur nie Lidur, þegar hun skal Sigre hroosa Aññars Heims i eilijfu Lijfe, þviad þesser Hluter eru miøg samteingder millum sijn Jñbyrdis, sialfur Gud, hañs Heilaga Ord, Trweñ, Christur, Christi wtvaleñ Søfnudur, og þar med eilijft Lijf.

Guds Christne, hun er bæde Mey, Mooder, og Trwlofud Brwdur. Mooder er hun þess vegna, ad hun fæder Gude Dags Daglega Andleg Børn, Eñ Mey er hun þar fyrer, ad hun þijdest ecke Diøfulsins nie Heimsins Raad nie Vilia. Eñ Trwlofud Brwdur er hun, þvi Christur hefur Trwlofad hana sier til Handa med eilijfum Saattmaala, og giefed heñe Heilagañ Anda i Egta-Pant.

Guds Christne maa lijkiast vid þad Skip, þar sem Christur og hañs Læresveinar eru Jñañbords, hvørt ed alla sijna Skipveria flitur og færer uñ sijder iñ aa Høfn eilijfrar Sæln og Roosemdar. Jñ aa þessa Høfnena, helldur Guds Christne, hafande Trwna fyrer Stioorn og Styre, eñ sialfañ Gud fyrer Styremañeñ, og Einglana fyrer Lidsmeñ. Mastur i þessu Skipenu er Kross-Tried HErrans

ans JEsu Christi; Eñ fyrer Segled mæ merkiast og þijdast Heilagt Guds Evangelium og Nædar-Bodskapur, og þegar nu Guds Heilagur Ande blæs i þetta Segled, þa geingur alltijd og byriar æfrañ til Hafnar þeirrar eilijfu Sælu og Rosemdar

Guds Christne mæ lijkiast vid þañ Vijngard, hvørn Gud hefur plantad hier æ Jørduñe, hvørn hañ hefur vøkvad og yferdøggvad med sijnu eigeñ Bloode. J krijngum þeñañ Vijngardeñ hefur hañ gyrt med sterkum Mwr-Vegg Heilagra Eingla Verndar og Vardveitslu. Hañ hefur hier nidurgrafed eina Vijn-Pressu, þad er sijna Heilaga Kvøl og Pijnu, og hefur teked i burt Steina og Pysila og allt añad þad Vijngardsins Frioofgun kañ ad hamla og hindra.

Guds Heiløg Christne er su hin sama Kviña, sem Jklædd var Sooluñe, þvi ad hun er Jklædd JEsu Riettlæte. Su sama stood æ Tunglenu, þviad Guds Christne ber ad forackta Jardneska Hlute, hvorier ad eru forgeingeleger og Østøduger, so sem Tunglsins Byrta.

Myked Dijrmæter og Ypparleger eru

aller þesser Hluter, vid hvoria Guds Christne hefur nu samlijkt vered, og þvi er skylldugt, þu færer Gude myked Packlæte þar fyrer, ad þu ert Limur þessa so Dyrdar lega og Tignada Hoopsins. Mykla og stoora Velgiorninga, lætur Gud i tie vid sijna Christne, eñ þo þær ødlest ecke aller, þviad Christne DRotteñs, hun er uñgyrtur og apturlucktur Allдеñgardur, og sa Jñsiglade Bruñuriñ. Eingeñ kañ ad seigia af Fegurd þessa apturluckta Alldengardsins, utañ sa sem þar er iñe fyrer; So kañ og eingeñ helldur þa stooru Guds Velgiørninga ad sia og þeckia, sem hañ i tie lætur siñe Christne, utañ sa sem er i Christneñe.

Pesse Brwdureñ HErrans Christi, er dock Asyndum hid Ytra. Eñ harla Frijd og Fogur hid Jñra. Petta Skipid skiekst og hrekst miøg, midt i Ossooknaña Bylgium og Mootblæstre, eñ Tortijnest þo alldrei. Petta Vijn-Tried ver þess betur, sem þvi er nær geinged, og fleire Kvister eru af þvi høggner. Pessa Kviñuna muñsitur sa Helvijtske Dreke a margañ Hatt, Eñ fær heñe þo ecke grandad. Pad er

er vijst satt, ad Christne Guds er ein fogur Lilia, eñ samt vex hun sem aadur aa millum Þyrnaña. Guds Christne er vijst saa allra Bloomlegaste Alldengardur, samt drijpur ecke þad sæta Balsam af þessa Alldengardsins Avoxtum, fyrr eñ þad Nordañvindureñ blæs og brwsar yfer hañ

Guds Christne er ad søñu Guds eigenleg Dootter, eñ samt er hun Heimenum andstyggeleg og Ogiedfelld. Hun bijdur og vænter epter Himneskre Arfleifd, þess vegna verdur hun i þessum Heime ad vera so sem aðrar Pilagrijmur og Vegfarande. A þessare Vegferdar-Reisu siñe kvelst hun miøg og þijngest; J Kvøleñe og Þreinginguñe er hun þeygiande; J Þøgneñe sterk og hughraust, Og i þessum Styrkleikanum yfervinñur hun uñ sijder.

Þott Christne Guds sie Andleg Mooder, þa verdur hun þo ad standa under Krossenum, so sem Mooder Christi Maria. Christne DRottens er so sem eirn Paalmavidur, þviad þess meire Þwnge Harmkvælaña og Freistingaña sem aa heñe liggur, þess helldur rietter hun sig upp fraa Jørduñe til Himensins.

Hura þu Saala mijn um̃ þvillijka Tign Guds H. Christne, og siaadu til þu hafer eckert þad i Fare þinu, sem heñe meige vansooma. Christneñ er Andleg Mooder, þar fyrer varastu ad forackta heñar Ord og Amiñingar. Hun er þvi Mooder, ad þier ber æ-Jafnañ ad hallda þier vid heñar Brioost, eñ Christneñar Brioost eru Orded og Sacramentiñ.

Christne Guds er Ospillt Mey, þar fyrer, sertu heñar Sonur eda Dootter, þa siaadu þig vid ad drija Andlegar Hooraner med Diøflenum, bad er, ad þu Syndger eige. Christneñ er Christi Brwdur, þvi ber heñe vel ad taka sier Vara fyrer, ad hun hafe eingeñ Møk nie Vinaattu-Hoot vid Diøfuliñ. Hun er Brwdur Christi, þvi ætte hun vandlega til ad siaa, ad hun misse ecke fraa sier Pant Andans, sem Christur hefur heñe giefed i Trygda-Gaafu. Hun er Brwdur Christi, þvi byriar heñe O-aflaatanlega ad bidia, so ad heñar Brwdgume kome snarlega, og iñleide hana til Brwdkaupsins. Þesse Brwdgumeñ mun koma aa Nottu Uggaleysesins, bad er, þegar sem sæster taka sier

Vara

Vara fyrer hañs Tilkomu, og Meñ lika Athugalauser og Uggalauser.: Vak þar fyrer Saala mijn, so ad Brwdguminñ fiñe þig ecke sofande þegar hañ kiemur, og wtelyke þig ecke af Dyrum eilijfrar Saaluhiaalpar; Laattu Vidsmiør þiñar Trwar loga og lijsa, so þu þurfer ecke ad sakna þess þa hid fyrsta, þegar Brwdguminñ kiemur.

Þu ert hier iñañ Skips-Borda stødd, stødu til, þu steyper þier ecke wt i Haf Veralldareñar, fyrr eñ þad þu kiemst i Høfnena: Þu ert iñañ Skips-Borda stødd, þar fyrer bid þu Gud, ad hvørke Stoormvindur Mootlætesins, og ei helldur Bylgiur Freistingaña kuñe þier ad Kollkasta. Þu ert Guds Vijn-Trie, kastadu þvi fra þier Onytsamlegum Greinum, Verke og ødru þvi sem Ofriooffsamt er, so sem ad eru øll Verk Holldsins og spilltrar Naatturu. Laattu allañ þañ Tijma sem þu hier lifer, vera þier so sem Hreinsunar og Hagunar Tijma, þa muntu þess Bloomlegre byrtast a Deige DRottens. Þu ert eirn Iñplantadur Kvistur i þad rietta Vijn-Tried, sem ad er Christur; Stødu þar fyrer til, ad þu hallder þier þar vid hañ, og siert Grood-ursett i hañs Undum, so ad þu færer myken Avøxt, Þvi hvørn þañ Kvist a Vijn-Trienu, sem ecke færer Avøxt, þañ hiñ sama vill sa Himneske Vijngards-Madureñ burt høggva, eñ hiñ sem Avøxteñ færer, vill hañ hreinsa, so hañ kuñe eñ ysergnæsanlegre Avøxt ad færa. Þu hefur Iklædst Christo fyrer Trwna, og ert þessare Riettlætes Sooluñe so uñgiefeñ; Stødu þar fyrer til, ad þu under Footum troder Tungled, þad er alla Jardneska Hlute, og vyrder allt lijtels hia þeim Himnesku og Eilijfu Audæfunum.

O! þu goode JEsu, sem oss hefur leidt i Samfielag-

skap þinar Christne, sem hier strijder a Jorduñe, Leid þu og eirneñ oss nu sijder, þangad sem þiju Christne er Sigre hroosande a Himnum, Amen.



## Tuttugasta og fiorda Hugvekia.

Ein Christeleg Umþeinking uñ þad, hvorniñ Gud hefur fyrerætlad alla þa Trwudu til Eilijfrar Sælu.

SAala mijn; So opt sem þu villt hura uñ hvort Gud hefur fyrerætlad þig til Eilijfs Lijfs edur ecke, þa rendu strax þijnum Hugskots Augum til Christum, þar hañ haanger a Krossenum og deyr fyrer allar Heimsins Synder, og Uppriis sijdañ oss til Riettlætes. Taktu fyrst til ad hura um Christum, so sem hañ liggur i Asnastallenum Nifæddur, og svo fraũ epter, og þegar þu hefur yfervegad, hvar til hañ er fæddur, og hvar til hañ hefur allar Kvaler lided, þa sier þu vel Guds Fyrerotlun, og ætsett Raad uñ þijna Saaluhialp.

Gud wtvalde oss ædur eñ Grundvøllur Veralldareñar var lagdur, eñ þo wtvalde hañ oss alleinasta i Christo, hvar fyrer, ef þu ert i Christo fyrer Trwna, þa Efadu øngvañeigeñ þar uñ, þu ert þa visselega eirn af Tolu þeirra Utvølldu. Eñ hvør sem ødruvijs vill ransaka, grunda og

kaña, þad ſtoora Diwp þeſſa Leyndardo-
omſins um̃ Gudlega Fyrerhyggiu, hønum
er hætt vid, ad hañ meige falla i Diwp Or-
væntingareñar. Þeim ſem eru fyrer utañ
Chriſtum, þeim er Gud eirn fortæranlegur
Elldur. Siaaidu þeſs vegna vel fyrer, þu
komer ecke aan Chriſti fram̃ ad þeſſum Ell-
denum, ſo hañ fortære þier ecke. Þa alla
ſem ecke hafa med Trwñe medteked Herr-
ans Chriſti Bitaling fyrer Syndernar,
og ecke gieta hañ fyrer ſig bored, alla þa kl-
agar Gud med ſijnu ſtraunga Løgmaale,
og alla þa Fordæmer hañ med ſijnu Oſtod-
vanlegu Riettlæte. Varaſtu þar fyrer ad
vilia leita i Guds Løgmaale þar epter, hvo-
rt þu muner eirn i Utvalldra Tølu eda
ecke, þad kieñer ecke Løgmaaled, helldur
Evangelium og Guds Fyrerheit; Grenſ-
laſt ecke helldur ſmaaſmuglega epter, hvad
Gude mune hafa geinged til þeſs og þeſs,
ſem hañ giort hefur, ſo ad þijner eigeñ
Þankar og Meiningar ville þig ecke. Gud
bijr i þvi Liooſe ſem eingeñ fær tilkomeſt,
Siaaidu til þu komer ecke Of-nærre þvi
Liooſe, þvi þad giorer þig fyrre Blindañ
eñ ſiaaande. Gud hefur feinged þier añad
Lioos

Lioos Evangelii Kieñinga; J þvi hinu sama Liooſenu, kuñum vid ad ſiaa þetta Heimuglega Guds Raad; J þeſſu Liooſenu ſier þu þad rietta Skilnings Lioos, bæde uñ þeſſa Trwareñar Grein og adrar. Grenſlaſtu ecke epter hvad Gud hefur aaſett ſier i ſijnu Heimuglegu Raade, helldur athuga þad ſem Gud hefur Openberad þier a þeſſum Naadar Tijma, med ſijnu liooſu Orde uñ ſiñ Vilia og Aſetning. Sw Riettlæting Mañſins ſem ſkiedur hier Tijmanlega, hun er ſo ſem añar Speigell og Jmyndan þeirrar Utvalningar til eilijfs Lijfs, ſem ſkiedur fra Eilijfd.

Lærdu ad þeckia Guds Reide, wt af hañs Løgmaale, og giørdu Ydran fyrer Syndernar. Lærdu ad þeckia Myſkunſeme DRottens, wt af hañs Naadar Bodſkap og Evangelio, ſem þier verdur framboded fyrer Chriſti Maklegleika, uñ eilijfa Saaluhiaalp. Lærdu ad fara riettelega med Trwna þijna, ſo ad þu audſijner hana, og laater hana frañkoma, i allre Chriſtelegre Uñgeingne og Meinleyſe. Legge Gud þier nockurn Kroſſ uppa, þa lærdu ad þeckia, ad þad er hañs Fodurleg Hyrting,

ing, og þu eiger hañ þar fyrer ad lijda med Poleiñnæde. Þegar þu hefur allt þetta Lært; Taktu þa hid fyrsta til ad tala uñ, hvørt Gud hefur fyrerætlad þig til eilijfs Lijfs edur ecke. Þessa Atferd vill Postuleñ vier høfum, þviad hañ hefur og eirneñ hana sialfur fyrer oss haft.

Þrijr eru þeir Hluter, sem Meñ eiga hellst ad athuga, i þessum Leyndardoom uñ Gudlega Fyrerøtlun og Asetning, uñ hvørs Mañs Saaluhiaalp; Fyrst Myskunseme Guds, hvør ed Mañeñ elskar; Þar næst Fullnægia Christi, sem fyrer hañ pijndest; J þridia Maata Naad heilags Anda, sem fyrer Evangelium kallar til Gudlegrar Kyñingar. Øllum Møñum er giefeñ Guds Myskunseme; Þviad Gud elskade allañ Heimeñ, Jordeñ er full af Guds Myskunseme, og Guds Myskunseme er stærre eñ Himen og Jørd, þviad hun er so stoor sem Gud er sialfur, hvør ed i Skrifteñe nefnest sialfur Kiærleikureñ. Hañ hefur vitnad i sijnu Orde, ad hañ vilie einskis Mañs Dauda; Ef þier ecke aanægia Guds Einfølld Ord, þa hefur hañ þad sama stadfest med sijnum Eyde; Gieter þu ecke

trwad

trwad Guds Fyrerheite, þa trwdu hans Eyde; Han kallast Fader Myskunsemdanna, hvriad hønum er eingenn Hlutur so eigennlegur, sem ad myskuna sig yfer þad auma Mannkyn, og þvi ad vægia. Til Myskunar upphvetur hann, hans eigennleg Nattura, enn til ad dæma og hefna, neyda hann vorar Synder, so ad þar af mæ siaast, ad laangtum Natturlegra, (ef so mætte seigia) geingur frann af hans Hiarta Myskunsemenn enn Hefndenn. Christi Forþienusta er þvi øllum giefenn, ad Christur leid fyrer allar Heimsins Synder: Hvar kann sterkare Vitnisburdur ad faast umm Gudlega Myskunseme oss til Handa, helldur enn sa, ad Gud elskade oss, þegar vier vorum øngver? Hvriad Elsku hans var þad ad þacka, ad hann skapade oss nockurn Tijma. Hann elskade oss og eirnenn, þegar vier vorum fra hønum fallner; Hvriad Elsku Guds var þad ad þacka, ad hann wtgaf Sonenn oss til Endurlausnar.

Gud Fader talar þessum Ordum vid eirn og sierhvørn syndugann Mann, sem er epter sinne Verdskulldan Fordæmanlegur til eilijfra Kvala, og hefur eckert fyrer sig

ad

ad bitala: Taktu miñ eingieteñ Son og bitaladu med honum þijnar Synder. So seiger og eirneñ Sonureñ: Taktu mig, so þu Fridkauper þig.

Christur kallast i Ritninguñe, Flos campi non Flos horti. Pad er, þvilijkt Bloomstur, sem wte vex a vijdum Vollum, eñ ecke i Alldengordum, þviad Alldengardarner eru umkryngder hæxum Veggium, so ad þaangad naa ecke aller þeir ed vilia; Eñ Jlmur þessarar Myskunsemdar, sem af Christo stendur, hañ er fyrer ongvum læstur nie lucktur, helldur ollum þeim til reidu, sem hañ af Hiarta riettelega gyrnast; Og uppa þad þu skuler ecke efa þar uñ, hvort Christur hefur fyrer alla pijnst edur ecke, og fyrer allar Synder bitalad, þa bidur hañ siñ Himneska Fodur fyrer þeim, sem hañ Krossfestu. Hefde hañ ecke fyrer þa somu bitalad, þa hefde hañ ecke helldur beded Fodureñ fyrer þa; Nu med þvi hañ wthelller sijnu Bloode, lijka vel þeim til gagns og gooda, sem hañ særdu, pijndu og deyddu, þa er þad ecke ad efa, ad fyrer alla adra mune hañ og eirneñ sijnu Bloode hafa wthellt.

 Fyrer-

Fyrerheiteñ sem standa i Heiløgu Guds Evangelio, heyra og eirneñ øllum Møñum til i Verølldeñe, þviad til allra seiger hañ so: Komed til mijn, aller þier sem Ervided, og etc. Hvørke er eg nie þu, eirn edur añar hier undañtekeñ, helldur so sem Vitalingureñ er wtlagdur fyrer alla; So er og øllum til hañs boded i Evangelio, so ad þeir hañ medtake med Trwñe. Þess leingra sem þu aufram geingur a Footum stødugs Trwnadar Traustis til Guds, þess meira eignastu af þessum Arfenum. Øngvum syniar Gud siñar Naadar, utañ þeim alleina, sem ecke virdast hana ad medtaka, og wtelykia sig so siaalfer fraa heñe. Athuga þar fyrer Saala mijn, þessa þriaa Stoolpa, edur þriaa Vegge uppa hvøria bygd er Guds Fyrerhyggia, edur aasett Raad uñ þijna Saaluhiaalp. Sa fyrste Grundvallar-Stoolpeñ, er þesse, ad þa þu varst eingeñ, þa skapade Gud þig af øngvu. Hiñ añar er þesse, ad þa þu varst fordæmdur vegna Adams Falls; Þa endurleyste Guds Sonur þig aptur sier til Handa. Sa þridie, þegar þu varst fyrer utañ Guds Christne, fæddur Neideñar

eñar Barn epter spilltre Natturu þiña Forelldra, þa kallade hañ þig i Hoop siña Barna fyrer Skijrnena. Þegar þu hurar um̃ þessa um̃lidna Guds Velgiorninga, þa hefur þu øngva Ordsok ad efast, um̃ hañs epterfylgiande Naad og Myskun a seirna Tijmanum. Þegar þu visser ecke af þijnum Saaluhiaalpar Veige, þa uppfrædde hñ þig med sijnu Orde. Þegar þu foorst villt, þa Leidriette hañ þig. Þegar þu stoodst, þa hiellt hañ þier vid sig, so þu skylldir ecke falla. Þegar þu gieckst aafram̃ i þijnu Kalle og Embætte, þa leidde hañ þig. Þegar þu snerer þier til hañs, þa took hañ seigens Hende vid þier. Jaa, hañ sijnde aavallt sitt Laanglundar Gied i þvi, ad bijda epter þier, og sijna Fødurlega Myskunseme i þvi, ad fyrergiefa þier. Nu med þvi, ad svo margar Guds Myskunsemder gaanga undañ, þa Efast ecke, ad lijka mune Myskunsemd DRottens a epterfylgia. Myskunsemd Drottens hefur undañ þier geinged, og so sem leidt þig, svo þu yrder Læknadur, þar fyrer mun hun og eirneñ fylgia þier epter, so þu verder Vegsamlegur og Dijrdlegur.

Myskunsemd DRottens hefur undan̄ þier geinged og vijsad þier Veg, hvørnen̄ þu skyllder Gudlega og Christelega lifa hier i Heime; Þar fyrer mun hun og eirnnīn fylgia þier epter, stidia þig og stoda, ad þu meiger eilijflega med hønum lifa.

Hvørnen̄ kom þad til, ad þu slasadest ecke þa þu fiellst? Eda hvør var til Reidu ad stydia þig med sijnum Høndum? Var þad ecke DRotten̄ sialfur, sem þig studde? Jaa, San̄arlega var han̄ þad en̄ eingen̄ an̄ar. Vertu þar fyrer Hughraust, og vænntu þier og vonadu Efalaust Myskunar og eirnen̄ fram̄veiges, og trwdu þvi, ad Gude mune ecke leidast ad giøra þier til gooda, þar til han̄ hefur Jn̄leidt þig i þad eilijfa Lijf. Þviad i hvørs Høndum skyllder þu helldur vilia vita Saalu hiaalp þijna vera komna; En̄ i han̄s Høndum sem skapad hefur Himen og Jørd; Jaa; J þeim Høndum sem alldrei verda styttre; J þeim Høndum sem eru fullar af Naad og Myskun, hvøriar og eirnen̄ eru i giegnum grafnar, svo ad þar i giegnum kūne off helldur Naad og Myskun ad wtflioota, og til þijn nidur drwpa?

minstu

Minstu og eirneñ Saala myn, ad vid erum af Gude wtvaleñ, uppa þad vid skulum vera Heilög og Ostraffanleg i hañs Auglite, hvar fyrer, þeir sem ecke hugsa uñ ad lifa Heilaglega, þeim heyrer ecke til Utvalningeñ. Vier erum Utvalder i Christo, eñ i Christo bliifum vier fyrer Trwna; Trweñ audsiiner sig i Kiærleikanum: Hvar fyrer, ad þar sem ecke er Kiærleikureñ, Þar er ecke helldur Trweñ, Þar sem ecke er Trweñ, þar er ecke Christur, Eñ þar sem Christur er ecke, þar er og ecke helldur Utvalningeñ. Guds Grundvallan stendur stødug, hafande þetta Teikn, ad Drotteñ þecker siina, sem Saaluhiaalpena munu erfa, Eñ samt seiger Ande DRottens, ad aller þeir skule fra Raanglætenu vijkia, sem i þessum Hoopnum vilia vera, og Nafn DRottens aakalla. Eingeñ sliitur Christi Saude wr hañs Høndum, samt wtheimter Christur þad af siinum Saudum, ad þeir skule heyra hañs Raust, ef þeir vilia hønum faster i Hende vera. Vier erum Guds Hws og Herberge, eñ siaaum til vier hølldum søñu Trwnadar Trauste og Voneñe stødugléga allt til Enda.

O! DRotteñ Gud, þu sem giefur oß Raad til þviliikt ad gyrnast; Gief þu oß og eirneñ Krapt til, þad ad framkvæma, AMEN.

## Tuttugasta og Fimta Hugvekia.

Uñ þad, hversu mykils Goods ad Bæn eins Christiens Mañs fær Orkad.

HAD maa Eitt reiknast hiñ stærdste Guds Velgiorningur medal añara, ad hañ ecke alleinasta leyfer, helldur befalar oß vid sig ad tala i vorum Bænum Daglega. Mykeñ Krapt hefur Bæneñ sem aa Jørduñe verdur wthellt, Eñ

kiennur ollu þvi til Leidar, sem hun vill aa Himnum. Bæn eins Gudhrædds Maññs er svo sem eirn Lykell til Himnarijkis. Þegar Bæneñ uppstijgur i Himeniñ, þa nidurstijgur Frelse og Myskunseme fraa Gude af Himnum aptur, til þess sem bidur aa Jordune. Bæniñ er saa agiæte Skielldur, hvør ed Maktarlausar giører allar Orvar og Skeyte Dioefulsins. Þegar Moyses upphof sijnar Hendur til Bænareñar, þa vañ Jsraels Lijdur Sigur aa þeim Amalechitum; Eins maattu og eirneñ Sigur viña aa Dioflenum, ef þu upprietter þijnar Hendur til HErrans, þad er, bidur Riettelega. So sem Mwr-Vegguren stendur fyrer Ovinunum, og hamlar þeim ad komast iñ i Borgena, so wtelykst fraa oss og so Guds Reide fyrer Bænena, Svo hun kañ ei til vor ad komast edur naa.

Siaalfur Endurlausnareñ vor badst fyrer, ecke þess vegna, ad hañ hefde þar Þørf fyrer, helldur uppaa þad, ad hañ þar med kiende oss, hvad ypparlegur og Omissanlegur Hlutur ad Bæneñ være.

Bæneñ er so sem nockurs konar Skattur,

ur, hvørn vier eiguum ad giallda Gude, so sem adra rietta Þegn-Skylldu, Þviad Gud hefur þad befalad og uppaalagt, ad vier skulum Daglega færa hønum vorar Bæner, so sem nockrar Andlegar Skylldur. Bæneñ er so sem añar Stijge, upp epter hvørium vier kuñum ad gaanga, allt upp i Himeneñ fraῖ fyrer Guds Naadar-Stool; Þviad hvad maa Bæneñ añad reiknast, eñ so sem eñur Vegferd edur Upp stigning Hugskotsins og Hiartans, hiedañ fraa þessum Hiegoomlegum Hlutum og upp til Guds i Hæderner; Bæneñ er vor Skiølldur og Hlijfd, þvi Saal þess Mañs sem i Bænrækneñe lifer, hun fær alldrei Skada af Diøfulsins Ahlaupum edur Araasum. Bæneñ er so sem Eirn Trwr Sendebode og Erendsreke, Þviad hun kiemur fraῖ fyrer Guds Velldis-Stool, Oskande Hiaalpar og Lids af Drottne; Þesse Sendebodiñ fraῖkvæmer alltijd sitt Erende, og fer alldrei Erendslaust, Þviad allt-jafnt Bænheyrer DRotteñ oss, og þegar þad skiedur ei epter vorre Meiningu edur Asetninge, þa skiedur þad þo epter þvi sem Gud sier oss muune vera

 fyrer

fyrer Beſtu. Aňars hvørs þeſſa meigum vier oſs Oefad vænta af DRottne, ſem er, haň mune aňad hvørt giefa oſs þad vier uň bidium, Ellegar og ſvo þad ſem haň veit ad vera Heilſuſamlegra, eň hitt, ſem vier uň bædum.

Gud Fader gaf oſs þaň ædſta Skeink, ſem er ſiň Eingieteň Son, þegar vier bædum haň ecke; Hvad ſkyllde þad þa vera, ſem haň ſkyllde oſs nu ei giefa, þar vier haň bidium? Hvørke hofum vier Riett til ad efa uň þad, hvørt Gud Fader mune Bæn heyra, þegar haň er bedeň, og ecke helldur ad tvijla uň þad, hvørt Sonur Guds mune voru Maale fylgia eda ei hiaa Fódurnum. Hvad ſem þu villt uppbyria eda framkvæma, þa ſiaadu til, ad þu aadur, fyrer Bænena gaanger med Moyſe iň t Tialldbwd DRotteňs, ſo þu leiter Raada hiaa hønum, þa muntu ſnarlega heyra, hvøriu DRottiň ſvarar þier.

Þegar Guds Sonur HErraň Chriſtur badſt fyrer, þa Forklaaradeſt haňs Aſiauna, ſvo hun vard Lioomande; Svo verda og ſtoor Uňſkipte og Uňbreytingar i vorre Saalu, þegar vier ydkum Bænena

ena. Bæneñ er Lioos Saalareñar, hvor ed opt giører þañ Hughrauſtañ og Gladværañ i ſijnum Anda, þegar hün vid hañ ſkilur, þañ ſem hun i Fyrſtu fañ Sorgande og Orvæntande. Hvørneñ ſkyllde Madur meiga dyrfaſt ad lijta til Soolareñar, utañ hañ hafe aadur fyrre tilbeded þañ ſem hefur ſkapad og tilreidt ſo aagiætt Lioos fyrer Mañaña Augum? Hvørneñ ſkyllder þu meiga nidur ſetiaſt til þiñar Maaltijdar, utañ þu aadur fyrre tilbidier þañ ſem þier veiter ſoddañ Rijkuglegar Gaafur, med þvørium hañ þig Nærer og Fooſtrar? Med hvørre Samvitſku kantu ad leggia þig til Svefus, edur triwa Nætur-Myrkrunum til þijn, utañ þu aadur wtbrynier þig med Bæneñe? Hvørra Nota ſkyllder þu meiga vænta þier af þijnum Handa-Verkum, utañ þu Akaller og Tilbidier þañ hiñ ſama, aan hvørs Styrks og Adſtodar allt Ervide er Førgiefens og Gagnlauſt? Þar fyrer, hvørt þu villt helldur ødlaſt Andlegar eda Lijkamlegar goodar Gaafur, þa bid þu uñ þær, og ſvo munit þær þier veitaſt. Gyrneſt þu Chriſtum, ſvo leitadu epter

hønum med Bæneñe, og þa muntu fiña hañ. Gyrnest þu ad Náadar-Dyrunum sie fyrer þier upploked, þa klappadu þar uppaa med Bæneñe, og munu þær fyrer þier upploknar verda. Ef þig heimsæker i Eydemørku þessa Heims Þorste Freistingaña og Ørbyrgd aa Andlegum Audæfum, þa gacktu til þeirrar Andlegu Hellunar, sem ad er Christur, med Hiartans Auðmykt, og slaadu uppaa hana med Bende Bænareñar, og jafnsnart muntu fiña og formerkia, ad Vatns-Straumar Gudlegrar Náadar munu sløckva Þorsta þiñar Faatæktar. Vilier þu færa Gude Eitt þacknæmelegt Offur, þa Offradu hønum Bæneñe, þar mun uppleggia Sætleiks-Ilmur af heñe til Guds, so ad hañs Reide mun stillast. Vilier þu Daglega umgaangast med Gude, svo elskadu Bænena, hvør ad er eitt Andlegt Samlag a millum Guds og Gudhræddrar Saalar. Vilier þu smacka hvad sætur ad Drotteñ sie, þa lockadu DRotteñ med Bæneñe iñ i Herberge þijns Hiarta.

Nu þo ad Bæneñ þockneft Gude, þa verdur hun þo ad vera Riettelega skickud

og

og a sig komeñ; Ef ad hun skal hønum þocknast. Þar fyrer, hvør sem vill vera Bænheyrdur, hañ siaae til ad hañ bidie
1. Forsiaallega. 2. Alvarlega.
3. Lijtelaatlega. 4. Stadfastlega i Trwñe. 5. Diarflega.

Fyrst skal hañ bidia Forsiaallega, so hañ bidie uñ þad alleina sem Gude meige koma til Lofs og Dijrdar, eñ Naunganum til Gagns og Gooda. Gud er Almaattugur, þar fyrer aattu ecke ad setia hønum fyrer Hætt nie Maata, med hvørium hañ skule hiaalpa. Hañ er hiñ allra Vijsaste, þar fyrer þarf hønum ei fyrer ad seigia Stund nie Tijma Hiaalpareñar. Bænena eigum vier ecke ad giøra Oforhugad, edur med Flapre, helldur epter þeirre Reglu, sem Trweñ til seiger: Nu geingur Trweñ epter Ordenu og hefur Orded so sem fyrer Speigel; Hvar fyrer, ad hvad sem Gud hefur i sijnu Orde fyrerheited aan Forords, þess meigum vier og eirneñ aan Forords bidia; Eñ þad sem hañ hefur med Fororde heited og lofad, so sem ad eru þesse Stundlegu Giæde, uñ þad eigum vier og eirneñ med Fororde ad bidia; Eñ þad sem hañ hefur

ur med øngvu moote lofad nie fyrerheited i Ordenu, þess eigum vier og eirneñ med øngvu moote ad bidia. Gud veiter þad opt þeim sem hañ er ordeñ reidur; Hvad hañ munde ei giefa nie veita hinum ødrum, sem hañ er Milldur og Blijdur. Hafdu þar fyrer Dæme Christi, hvør ed allañ siñ Vilia lagde i Skaut og Fadm Fødursins, Bidiande, ad ecke skyllde siñ Vilie skie, helldur hañs.

Oss ber og so eirneñ Alvarlega ad bidia, Pviad hvørneñ kantu ad heimta þad, ad Gud hañ giefe Gaum ad þiñe Bæn, þar þu siaalfur ecke Gaumgiæfer hvad þu talar med Muñenum? Hvørneñ kantu ad wtheimta, ad Gud miñest þijn nie þiña Naudsynia, þar þu siaalfur miñest þeirra ecke, og lætur þier ecke vera neitt af Hiarta uñ þær hugad? Þegar þu villt bidiast fyrer, þa gacktu iñ i þitt Svefn-Herberge, og laattu aptur Dyrnar epter þier, Svefn-Herberge þetta er þitt eiged Hiarta; Iñ i þad aattu ad ganga; Þad er, þu aatt þang ad ad safna øllum Krøptum þiñar Saalar; Ef þu villt Riettelega Bidia: Dyrnar verda og eirneñ aptur ad laatast, svo ad

Umhuxan

Umhuran Veralldlegra Hluta Umsorgunar komest þar ecke inn so leinge, svo þu hindrest ecke. Fyrer Guds Eyra Hlioomа eingenn Ord so haatt, so sem Gyrnd og Tilhneyging Hiartans og Saalarennar, þar fyrer er Hiartalag hvors eins Manns, þaug Ordenn sem gloggvast verda heyrd af Guds Eyra.

Hiartad a so ad frammleggia sig, til alvarlegra Guddoomlegra Hluta i Bænenne, ad Munnenum og Tvngunne sie Omøgulegt, alla þa Þanka wt ad skijra; Og þad heiter ad bidia i Anda og Sannleika so sem DRottenn bifalar, ad Menn skule og bidia.

Christur þegar hann badst fyrer, a Fiallenu, þa Upphoof hann sijn Augu til Himens; So eigum vær ad upplypta vorum Hugskots Augum fra øllum skøpudum Skiepnum til Guds sem i Hædunum Helgedoomsins situr; Oriett giorer þu Gude, ef þu bidur hann ad hlijda þijnum Bænar Ordum, enn giefur þo ei Gaum ad sialfur, nie Hugleider hvad þad er, sem þu talar vid Gud. Oaflaatanlega er oss skipad ad bidia, og þad gietum vier eirnenn gio-

rt,

rt, ef vier bidium Gud i Anda og Sañleika, þad er, ef ad vor Hiørtu og Hugskot vaka avallt i Gude, med heilagre og goodfwsre Gyrnd Saalareñar. Ecke þarf i Bæneñe alltijd hatt ad hroopa, þvi ad Gud Bænheyrer og eirneñ Andvarpaner Hiartans, med þvi hañ bijr i Hiørtum þeirra Gudhræddu. Ecke er alltijd Þørf a Margmælge edur Orda-Fiølda i Bæneñe; Þviad DRotteñ er nalægur vorum Hugreñingum. Ein Andvarpan sem H. Ande uppvekur med oss, og vier so offrum Gude i Andanum, er Gude þeckare og kiærare, helldur eñ Lestur edur Þulning langra Bæna, þegar Muñureñ og Varernar tala ad eins, eñ Hiartad er Þeigiande.

Oss ber og so Audmiwklega og Lijtelatlega ad bidia, og koma ecke fram̃ i Trauste vorrar, helldur alleina Christi Forþienustu. Ef vier byggium Bænena uppa vora eigeñ Forskulldan, þa er hun fordæmañ legur Hlutur i Guds Auglite, lijka vel þo hun være so heit og alvarleg, ad hun kiæme Mañe til ad sveitast Bloodenu.

Eingeñ kañ Gude ad þocknast ødruvijs, eñ alleinasta i Christo, þar fyrer kañ eing-
eñ

eñ riettelega ad bidia, utañ hañ bidie i JEsu Nafne. Foorner þær allar, sem ecke voru offradar a þvi einasta Altare Tialldbwdareñar, sem þar til var skickad af Gude, kuñu hønum ecke ad þocknast; Só kuña þær Bæner Gude ecke ad þocknast, sem hønum eru ecke offradar uppa þad rietta Gull-Altared Herrañ JEsum, þad er, þær sem ecke eru frañfluttar i Trauste Herrañs JEsu Christi Forþienustu, Dauda og Pijnu.

Israels Lijd var lofad og fyrerheited, ad hañ skyllde verda Bænheyrdur, þegar hañ snere sijnu Andlite til Jerusalems Musteris, og bædest so fyrer, Svo eigum vier og eirneñ vorum Sælar Augum ad lijta til Christum, i Bæneñe, hvør ad er þad rietta og saña Mustere Guddoomsins. Christur þa hañ vill bidiast fyrer i siñe Kvøl og Pijnu, þa fellur hañ frañ a sijna Asioonu til Jardar: Siaadu hier hvad miøg sa Blessade Edla HErrañ Lijtelæckar sig fyrer Guddoomlegu Vellde sijns Himneska Fodurs, Hvad meinar þu þa þier byrie ad Lijtelæcka þig, þegar þu skallt bidia?

Vier skulum og eirneñ bidia i sterkre Trw, verande i Trwareñar Styrkleika Neidubwner til ad gaanga a Mis allrar Stundlegrar Glede, og þar þvert a moote, ad gaanga under allañ Kross og Hørmungar, sem Gud vill laata oss ad Høndum koma, med Poleinmæde. Þess stiootara sem einum er til Bænareñar, þess Gagnlegra er þad hønum, og þess optar sem hañ bidur, þess meire Avining hefur hañ; Eñ þess Iñelegar og Alvarlegar sem hañ bidur, Þess kiærare verdur Gude Bæneñ.

Vier

Vier eigum og svo ad vera Stadfaster i Bæneñe, og Preytast ecke, Hviad, þegar Gud dregur undañ ad veita þad vier mñbidium, þa giører hañ þad þar til, ad oss skule þess meira þykia koma til hañs Hiaalpar, þegar hun sæst, eñ ei þar til, ad hañ vilie oss alldeilis synia, hviad þad sem vier þreygium og kriaaum leinge epter, þad verdur oss þess kiærkomnara, þa þad kiemur.

Vier eigum og so med stadføstu Traustie ad bidia, Efande ecker uñ Guds Raadar Vilia, sem er æiijd Neidubweñ oss til Hiaalpar.

O! þu Myskunsamaste Gud, sem oss hefur bifalad ad bidia: Uppfræd þu oss med þijnum Heilaga Anda, so vier kuñum þad Riettelega ad giøra, Amen.

## Tuttugasta og Siøtta Hugvekia.

Uñ Vernd og Vardveitslu Heilagra Eingla.

Skaadu Christeñ Saala, og athuga hvad stoor ad sie su Guddoomlega Raad og Myskun, þar DRotteñ setur hier sijna Heilaga Eingla til Verndar og Pioonustu. Gud Fader wtsende siñ Elskulega Hiartans Son, oss til Lausnar og Frelsis. Sonureñ tekur uppaa sig vort Holld og Blood, so ad hañ af Stad kome þessu Frelsenu. Heilagur Ande DRotteñs verdur wtsendur, so ad hañ oss Heilaga giøre. Einglarner verda tilskickader, ad þeir oss Vernde og Vardveite. So er þa allur Høfdingskapur Himnaña so sem oss Pioonande. Ecke skal mig kyn-

ia leingur, nie undra þad, þott allar adrar Skiepnur sieu skapadar Mañenum til Pienustu, Gagns og Nytsemdar, med þvi ad siaalfer Einglarner, hvorier ad eru øllum ødrum skøpudum Skiepnum ypparlegre, frambiooda oss og eirneñ sijna Pienustu. Ecke er Undur þo Himineñ giefe oss Lioos og Byrtu aa Deigenum, so vier gietum þioonad og uñed, þad oss Naudsynlegt er, edur Myrkur og Skugga aa Noottuñe, so vier þa kuñum ad hvijlast af voru Erfide, med þvi þeir Himnesku Iñbyggendur eilijfrar Dijrdar, Einglarner, þioona oss og þiena. Ecke er undrande þoott Lopted fære oss Lijfs-Anda og uppfoostre allra Handa Fugla-Kyn oss til Iñdælis, med þvi þeir Himnesku Andar vaka yfer oss og voru Lijfe, so þvi eckert grande. Valla er þad ad undra, þoott Vatned slocke vorn Þorsta, og hreinse oss af Saurendunum, vøkve og nære aptur þad sem of-þurt er, og uppfoostre i sier vorra vegna adskilianlegt Fiska-Kyn, med þvi ad siaalfer Einglarner eru oss naalæger, þegar Ofur-Hite Eymdaña og Freistingaña astrijder, so ad þeir oss Endurnære. Va-

lla er furdande, þott Jordeñ bere og lijde vorn Pynga, nære og fooſtre oſs med Mat og Dryck, og uppfylle vor Matbord, med allra Handa Averte, og allra Handa Kiøte Dijraña, med þvi ad Einglunum er befalad, ad þeir ſkule giæta ad oſs aa øllum vorum Vegum, og bera oſs ſier aa Hondum, ſo ad ecke ſteyteſt Fotur vor vid Steine.

Hvad mieg og naakvæmlega ad Einglunum hafe vered um̃hugad um̃ Chriſtum, þa hañ um̃giengſt i þeſſu Lijfe, þad vottar oſs Ritningeñ Liooslega, þviad Eirn Eingell bodade Fyrſt hañs Gietnad. Eirn Eingell predikade openberlega wt af hañs Hijngadfædingu. Eingell DRottenſ aavijſade Joſeph, ad hañ ſkule flya med Chriſtum i Egyptaland. Einglar Guds þiena Chriſto i Eydemørkeñe epter yferſtadnar Diofulſins Freiſtingar. Einglarner þioonudu hønum allañ þañ Tijma ſem hañ um̃giengſt Hollldlega hier i Heime og Predikade. Eingell DRottenſ kiemur til hañs, þa hañ ſtrijdde vid Daudañ. Einglarner Openberaſt þegar hañ reis upp fraa Daudum. Einglarner eru naalæger i hañs Uppſtigningu til Himna-

Himna; So vitum vier og eirneñ, ad Einglarner innnu med hønum koma, og hønum næalæger vera, þegar hañ kiemur a Efsta Deige til Doomsins. So sem nu ad Einglarner hafa laated sier vera uñhugad uñ Christum sialfañ, og hafa hønum þienad, þa hañ umgieckst hier hiaa oss i voru Hollde; So munu þeir og vera Umsorgunarsamer og Þenustusamer oss til Handa, sem erum Christo iñlijfader, þad er, ordner Lider og Limer aa hañs Lijkama, So sem þeir hafa þienad Høfdenu, so munu þeir og hinum ødrum Limunum þiena. Þad er þeirra Glede og Inndæle, ad þiena þeim hier aa Jørduñe; med hvøriuin þeir eiga sijdar meir ad uñgaangast aa Himnenum Eilijflega.

Þegar Jacob Forfader var aa Veigenum heim til sijns Fødur-Lands aptur, þa Openberudust og vitrudust hønum Herbiwder Himneskra Eingla; So eru og Einglaña Fylkingar næalægar øllum Guds Børnum i þessu Lijfe, hvørt Lijf ad er so sem Vegferd edur Reysa heim til vors rietta Fødur-Lands. Einglarner vardveita Danielem midt a millum Leonaña, So

vernda og eirneñ Einglarner eñ i Dag, alla Gudhrædda, fra Umsaatre þess Helvitska Leonsins, sem ætijd geingur i krijng, leitande ad þeim sem hñ kuñe upp ad svelgia. Einglarner hiaalpa Loth wt af Sodoma, so ad hañ fyrerfarest ei i þvi Baale, So hiaalpa og Heilager Guds Einglar oss, med Heilögum Jnblæstre og Verndan a moote Dioflenum og Freistingunum, so vier föllum ecke i þad Helvitska Hefndar Baal. Einglarner bera Saal Lazari upp i Skaut Abrahams, So bera þeir og so Saaler allra Utvaldra i þañ Unadarsama Hvijldar og Fagnadar Stad Himneskrar Dijrdar. Eingelleñ wtleider Petrum wr Myrkva-Stofuñe, So hiaalpa og so Einglar Guds tijtt og opt, þar vier erum stadder midt i midium Haaskasemdum og Lijfs Faare. Þar fyrer, þott mykel sie Magt vors Mootstandara Diofulsins, þa maa oss þo hugga Vernd og Vardveitsla Heilagra Eingla, hvör ad er laangtum sterkare. Vissulega eru þesser vorer Hiaalpendur og Lids Herrar oss allstadar Naalæger i öllum vorum Haaska og Voda, þviad þeir verda lijkter i Skriftene vid Mynd-

er Cherubim og Seraphim, hvørier ad eru Flíwgande, so ad þu meiger vita, ad þeir kuñe Fullsnart þaangad ad koma, sem þijn vidliggiande Naudsyn wtkrefur, Efast þu ecke þar uñ, ad þesser Verndarar mune þier naalæger vera i øllum Stødum, þeir eru þvilijker Andar, hvøria eingeñ Mwr, Hindran eda Fyrerstada kañ wte ad lykia wr neinum Stad. Aller synelleger Hluter verda fyrer þeim ad vijkia, og þar kañ hvørke Stockur nie Steirn, Jarn edur Maalmur fyrer þeim ad standa, nie þa ad hindra, þviad þeir kuña i giegnum allt soddañ ad gaanga so sem i giegnum akañ þuñañ Reik. Ecke er helldur ad efa, ad þesser goodu Andar mune vita af øllu þvi, sem þig kañ ad skada edur ad aangra, þiaka edur þvijnga, þviad þeir siaa alltijd Auglit þess Himneska Fødursins, og eru þvi Reidubwner til allra þeirra Erenda, sem hañ vill laata þa framkvæma.

Athuga þar næst Saala mijn, ad þesser Andar eru Hellager, hvar fyrer þier byriar ad stunda epter heilogu Lijferne og Frameferde, ef þu villt faa þeirra Fylgdar og Adstodar ad nioota. Þeir kuña hellst

til samans ad vera, sin lijkastier eru i sijnum Athøfnum og Dagfare; Par fyrer, ef þu villt Vinskap binda vid H. Guds Eingla; Pa stundadu uppa gott og Gudlegt Framferde. Siertu eirn og i afvike staddur, þa vertu þo blitwgur fyrer Hellogum Einglum, og varast þu ad laata þa sia þig þad neitt adhafast, sem þu munder skamast þijn ad giøra i Manana Asiduruvist.

Þesser Andar eru skijrlijser og hreinferduger; Par fyrer verda þeir i burt fælder og stygder med Klaamlegum og Otuktuglegum Ordum og Athøfnum. Vijflugurnar flya fyrer Reyknum, og Dwfurnar fyrer illum Odaun; So flya og þeir goodu Vardhallds Einglar fyrer þeirre Grætlegu og illa lucktande Syndana Idkan. Misser þu vegna Syndana þenan Lids-Afla heilagra Eingla; Hvørnen kantu þa sijdan ad vera forvaradur fyrer Diøfulsins Umsaatre og Illskufullum Ahlaupum? Sie ecke Einglana Mwr i krijngum þijna Saal til Verndar og Forsvars, þa er Dieflenum hægt ad sigra hana og yfer vina med sijnum Tælingum. Þeir hellogu Einglar verda wtsender af Gude, til ad

þiona

þioona Moñunum, þar fyrer liggur þier a ad komast, fyrst i Sætt og Vingan vid Gud med Trwñe, vilier þu niotande verda Einglaña Verndar og Vardveitslu. Hvar sem ecke er Guds Nææd og Vingan, þar er ecke helldur Einglaña Vernd nie Voktun hia þeim himum sama Mañe. Einglarner meiga Reiknast ad nockru Leite so sem Guds Hendur, hvorlar ecke hræra sig til nockrar Þienustu, utañ þeirrar sem Gud siaalfur stijrer þeim og wtriettar þær til. Einglar Guds a Himnum glediast yfer einum Syndugum sem Ydrast og Leidriettest; Hvar fyrer ad Taar eirnrar Ydrande Mañskiepnu, eru so sem nockurs konar Vijn eda Glede-Dryckur Einglaña, eñ Ydrunarlaust Hiarta burt drijfur þa og fæler fra sier. Giørum þar fyrer Ydran, so vier aukum Guds Einglum þar med Glede og Fognud.

Einglarner hafa Himneska og Andlega Nææturu. Hugsum þar fyrer um̃ þad Himneska og Andlega, so þeir meige hafa Lysting af, ad bwa hiaa oss. Einglarner eru Lijtelaater og hata Drambsemena, hvad þeir andsijna þar i, ad þeir virdast til ad þiena Ungbørnunum, Hvar fyrer Hrokar fier þa Molld og Aska Jardarcñar, med þvi þeir Himnesku Andarner Lijtelæcka sig so miøg? A Dauda-Stundu̇ñe er hellst hætt fyrer Diøfulsins Slægd-

um, hvad so stendur skrifad, At Hoggormsins munne unntitia ad bijta Kvinnunar Sæde i Hælenn: Þesse Hællenn sem er sa Ytste og Seinaste Partur Lijkamans, merker Dauda-Stundena, Hvør ad er sa Ytste og Seinaste Partur Lijfdaganna. J þvi Dauda Strijdenu liggur mest Magt a Englanna Adstod og Vardveitslu, so þeir vernde oss fyrer Elldlegum Skeytum Diofulsins, og bere vorar Sæler i Paradijs, þegar þær utlijda af Lijkamanum. Þegar Zacharias framde Gudlega Þionustugiörd i Musterenu, Þa kom Engell DRottens til hanns, Eins er þvi og vared, Sie so þu gyrnest ad Idka þig i Heyrn Ordsins og Bænenne, þa nalægiast þier Guds Heilager Englar med sinne Adstod og Þienustu.

O! þu Mysktunsame og Millde Gud, hvør ed med þijnum Heilögum Englum leider oss umm Eydemörku þessa Lijfs; Gief þu oss ad vier af þeim sömu Heilögu Englum, verdum innleidder til þess Eilijfa Lijfsins, Amen.

## Tuttugasta og Siounda Hugvekia.

Umm Slægd og Ummsatur Diofulsins.

Hugsadu umm fyrer þier Christenn Saala; J hvad stoorum Haaska þu ert stodd fyrer Saker Aklefdar og Ummsaaturs þijns Mootstandara Diofulsins. Sa þinn Ovinur er fullur Avædes og Dyrsku, sterkur og Mattugur, og hinn Uppafindingasamaste til allra Svika, hafande adskilianleggr Vijgvielar, og verande Obreytanlegur þeim framm ad fylgia, med ymsu og ymsu moote vidleitande; Hann teiger og lockar Mannskiepnuna til

ymsra

ymsra Illgiørda, og epter þad hañ hefur hana tælt og lockad, þa aklagar hañ hana sijdañ fyrer Guds Doom Stoole; Hañ aasakar og aaklagar oss fyrer Guds Auglite, og Gud aasakar hañ og eirneñ fyrer voru Hugskote og Pønkum, og Meñena eirneñ Inbyrdes, hvørn fyrer ødrum. Hañ athugar og giefur Gaum ad, hvar til ad eirn og sierhvør sie hellst hneygdur, og setur so Snøru Freystingaña fyrer hvørn eirn, epter þvi sem hañ sier, ad hægast er hañ ad faanga. Þeir sem uñsitia eina Borg med Herskyllde, og vilia hana yferviña; Þeir setiast ecke sterklega um hana, þar sem hun er Rambyggelegast Bygd, og O-aaleitanlegt er; Helldur safna þeir þaangad sijnum Lids-Afla, þar sem þeir siaa ad Mwrarner eru nidre, Grafernar eru gruñar, Turnarner sijst vaktader, og miñstar Mootstødu er Von; Svo giører og Diøfulleñ, sem alltijd med sijnum Herskyllde uñsitur hvøria eina Christna Saal; Hañ rædur þar hellst a, sem hañ sier ad Mañsins Tilhneiging mune sijdst a moote standa, og hellst undañ laata. Þo hañ verde Einuseñe yferuñeñ edur til Ba-

ka reken, þa lætur han samt ecke af, helldur tekur sig upp ad nyju, med feskre Akiefd, og en sterkare Freystinganna Arrasum, so ad han lije þa um sijder med Freistinganna sijfelldum Langglædlegleika, sem han kune ecke ad vina med Svikana Stærd og Sterkleika. Meinar þu ad sa mune nockrunt vægia, sem Svijkla og Forrada villde sialfan DRotten Dijrdarenar med þrefalldre Freistingu? Meinar þu ad han mune horfa a nockurn anan Christen Man, sem ecke meir vægde sialfum Christi Lærefvelnum en so, ad han gyrntest ad sickta þa sem anad Hveite? Han fellde Adam, sem var skapadur i fullkomnu Riettlæte og Meinleyse; Hvad hægra er honum þa ad fella oss, sem i Syndene erum Fædder og Gietner? Han sveik Judam i Skoola Endurlausnarans; Hvad hægra mun hönum vera ad svijkla oss i þessum Heime; Hvør ad er Skoole Villu og Hrøsunar?

Jøllum Hlutum þurfum vier ad siar vid Dløfullegum Svikum og Unsaatrum. J Velgeingnene vill han locka oss til Hofmoods og Drambseme, en i Mootlætenu til Vijls og Orvæntingar; Siaie

han

hũ ad nockur er af Náttúruñe adſkiall og O-brudlunarſamur, þañ hiñ ſama Kappkoſtar hañ ad fiøtra og flækia i Nete Agyrndareñar. Siáe hañ nockurn hafa Kallmañlegt og Hefdinglegt Gied, þañ aaſtundar hañ ad uppæſa med ofmykellre Reide og Bræde. Siáe hañ nockurn vera Gladværañ og Lyſtugañ i ſiñe Náttúru, þañ hiñ ſama aaſtundar hañ ad fella i Loſta-Gyrnd, Ohoofſeme og Ofneltſlu. Pa ſem hañ ſier ad alvarleger og aaſtundunarſamer eru i Gudrækneñe, þá hina ſømu Kappkoſtar hañ ad fella i Hiaatrw og Afgudadyrkan, Pá ſem hañ ſier uppbafna til ſtoorrar Tignar, þa gyrneſt hañ ad áánetia i Drambſeme og Metorda-Gyrnd. Pegar hañ áafyſer og lockar Mañeñ til Syndareñar, þa predikar hañ fyrer hønum alleinaſta wt af Guds Myskunſeme; Eñ ſem hañ hefur hañ yferuñed og i Syndena fellt, þa ſnijr hañ uñ Bladenu, og predikar alleinaſta fyrer hønum wt af Guds ſtrááunga Riettlæte, leitande ſo vid, Fyrſt ad fella Mañ i Oftrauſt vid Gud, og ſijdañ þadañ i Vantrauſt og Orvæntingu.

Hañ aasœker Stundum hid Ytra med Offookñum og Hervijkingskap sijña Lima, sem er, Ogudlegra Maña og Tijraña, Stundum hid Jñra med saarum og Elldlegum Freistingum, Stundum aastrijder hañ oss Openberlega, og med Akiefd, eñ Stundum Leynelega og med Svikum. Jaa, hañ situr um̃ oss i øllum vorum Athøfnum. J Matnadenum, leggur hañ fyrer oss Snøru Ofneisluñar. J Gietnadenum Snøru Lostasemeñar. J Jdkun vors Embættis Snøru Leteñar. J Umgeingneñe Snøru Ofundareñar. J Yferbodaneñe Snøru Agyndareñar. J Umvonduneñe, Snøru Reideñar. J Vegsemdeñe Snøru Drambsemeñar. J Hiartad setur hañ illar Hugreñingar, eñ i Muñeñ leggur hañ Lyge og Osañende, i hina adra Limena ill Verk og Oriettvijsar Athafner. Hañ klemur oss i Vokuñe til Jllskufullra Verka, eñ i Svefnenum til saurugra Drauma. So þurfum vier þar fyrer allstadar, aa øllum Tijmum og i øllum Hlutum, ad taka oss Vara fyrer Diøfulsins Slægd og Svikum; Þo vier viljum Sofa, þa vaker hañ; Þo vier viljum

kum vera Uggalauser, þa geingur hañ i kringg sem greniande Leon. Ef þu sœer eitt Oolmt Leon sœkte ad þier, og villde þig sundur slijta og mylia med sijnum Toñum, meinar þu ecke þu munder fyrer Otta og Hrædslu skialfande og titrande vera? Eñ saint sem ádur ertu Ottalaus og lætur þier ei par til fiñast, þar þu heyrer þad Helvijtska Leoned situr uñ þig og sœker ad þier so Akaflega og Griñelega.

Athuga þar fyrer Christeñ Saala, Svik og Uñsaatur þessa þijns mektuga Ovinar, og leitadu þier upp Veriu og Hlijf Himneskra Her-Vopna. Siaadu til ad þijnar Lendar sieu uñgyrtar med Sañleikanum, og þu taker uppaa þig Harneskiu Riettlætesins, J-klædstu Christi Riett læte, og so munu ecke orka aa þig Freistingar Diøfulsins; Fel þig i Skorum og Farveg Undaña Christi, so opt sem saa Helvijtske Høggormur reñer ad þier sijnum Bañvænum Skeytum. Hvør sa sem er Riett-Trwadur, hañ er i Christo, þar fyrer so sem Diøfulleñ hefur øngva Magt yfer Christo, so hefur hañ øngva Magt yfer þvilijkre Trwadre Mañeskiu.

Fat-

Fæturner eiga eirneñ Skoo-Fatader ad vera og Reidubwner i Bodskap Fridarens. Siaadu til ad Christi Vidurkieñing og hañs Ord blioome alltijd þier i Muñe, so kañ þig ecke ad skada nie særa nockur Diøfulsins Freisting. Ord Særinga-Mañsins kuña ecke so aa Flootta ad reka Holldlegañ og Jardneskañ Høgg-Orm, so sem Ord sañarlegrar og sijselldrar Christi Vidurkieñingar aa Flootta reka þeñañ Andlega Høggorm Diøfuleñ.

Þier byriar og svo ad taka þier i Hønd Skiølld Trwareñar, so þu kuñer hañ ad bera fyrer øll Elldleg Skeyte hins Prettvijsa, og þaug wt ad slockva.

Trweñ hefur þañ Krapt, ad hun kañ og eirneñ siaalf Fiølleñ wr Stad ad hræra, Jaa, vissilega hrærer hun wr Stad og i burt flytur Fiøll Efasemeñar, Fiøll Ofsooknaña, og Fiøll Freistingaña. Frumburder Israels Maña, urdu ecke i Helsleg-ner af Eydeleggiaranum i Egyptalande, hvørra Dyru-Stafer voru rioodrader med Bloode Paaska-Lambsins; So muñu og ecke helldur þeir Tortijnast fyrer þeim Helvijtska Eydeleggiara Dioflenum,

hvørra

hvorra Hiortu rioodrud eru fyrer Trwna i Bloodenu Christi. Trwen̄ stydur sig vid Guds Fyrerheit, en̄ Guds Fyrerheit eru so sterk, ad Dioefullen̄ med allre sin̄e Magt, kan̄ þaug ecke wr Stad ad hræra Þar fyrer kan̄ og Dioefullen̄ ecke helldur neina Magt ad hafa aa moote Trwn̄e. Trwen̄ er Lioos Saalaren̄ar, hvar fyrer, ad allar Freistingar Dioefulsins verda audsienar og Openberar i þessu Lioosenu.

Fyrer Trwna verdur vorum Syndum nidur kastad i Afgrun̄ Guddoomlegrar Myskunsemdar, i hvoriu Diwpe oll Elldleg Skeyte Dioefulsins wtslockna.

Þier ber og eirnen̄ ad taka uppaa þig Hiaalm Hiaalprædesins, þad er Heilaga Von, hvor ed oss hiaalpar til ad um̄bera Freistingarnar, med þvi hun sijner oss, hvor Ending a þeim mune verda um̄ sijder. Motten̄ er Styrkur þeirra sem strijda i þessare Baraattun̄e, og Korona þeirra sem Siguren̄ vin̄a. Være eingen̄ Ovinur, þa være eingen̄ Baraatta. Være eingen̄ Baraatta, þa være eingen̄ Sigurvin̄ing. En̄ være eingen̄ Sigurvin̄ing, þa være aungrar Coronu ad vænta. Betre er sw Baraatta sem ladar Gud til vor, oss til Styrktar, en̄ sa Friduren̄, sem giorer Gud oss Fiarlægan̄. Þier byriar og eirnen̄ ad taka Sverd Andans, sem ad er Guds Ord, og giefa þig meir ad Huggun Ritningan̄a, en̄ ad Mootmælum Dioefulsins og han̄s Freistingum. Christur yfervan̄ allar Freistingar Dioefulsins med Guds Orde, So yfervin̄a en̄ nu han̄s Limer, Dioefulsins In̄blaastur og Freistingar, med þvi sama Guddoomlega

Ordenu

Ordenu. Pa hefur þu og eirnen mykeñ Styrk og Stod af Bæneñe a moote Freistingum Diøfulsins, med hvorium þu kant ad uppvekia Christum, so snart sem Skip þiñar Saalar, verdur øfalled af Bylgium Freistingaña. Siiælega Ovine yferviñum vier med Skotnm og Sløgum, eñ Andlega alleina med Bænar-Ordunum.

Striid þu Goode og Millde HErra JEsu i oss og fyrer oss, so ad vier meigum i þier Sigureñ ødlast, Amen.

# Tuttugasta og Attunda Hugvekia.

Nockrar Almeñelegar Lijfs-Reglur; Hvørneñ Meñ skule sier Christelega haga og hegda i sijnu Lijferne.

Hu Naalgast alltijd Dag epter Dag, meir og meir þijna Dauda-Stund, Tijma Doomsins og Eilijfdena. Hvar fyrer þier ber þess vandlegar Dags Daglega ad hugsa þar um, hvørneñ þu kuñer ad faa stadest a Daudastundiñe, og a Deige þess straanga Guds Dooms, og hvørneñ þu kuñer ad ødlast þad eilijfa Lijfed.

Þier ber vel og vandlega ad hugsa um þijna Þanka, Ord og Giørder, þvi þu verdur fyrer alla Þanka Ord og Giørder gloggvan Reikningskap ad standa sijdar meir. Þeinktu ad hvøriu Kvøllde mune Daudeñ kuña þig i burt ad taka a Epterkomande Noottu, og a hvøriun Morgne, ad skie meige, ad hañ þig griipe a Epterkomande Deige. Drag þu ecke þijna Yd-

ran og Yferboot a þijnum vondum Verkum, undañ, til Morguns, þviad Ovijst er, hvørt þu fær Morgun Dageñ ad sia edur ecke, eñ Daudeñ er vijs a øllum Stundum. Eingeñ Hlutur er so skadlegur og mootstædlegur Gudrækneñe, svo sem Undañdrattureñ. Forsomer þu þær iñre Uppvakningar og Vendingar Andans, þar hañ aasijser þitt Hiarta til Yðrunar, þa nærdu alldrei saññre Yferboot.

Drag þu ecke undañ þijna Yðran og Uñboot þiña Jñre Verka allt fram til Elle-Dagaña, helldur offradu Drottne Æsku-Bloome þijns Alldurs. Ovijst er hvørt eirn ungur Madur lifer til Elle-Daga, eñ þad er hønum vijst, ef hañ lifer Yðrunarlaus, ad hañ mune Fortapast. Eingeñ Alldurs Tijme er hentugre til ad þioona Gude eñ Æskutijmeñ, medañ Kraptar Lijkamans og Saalareñar eru sem ferskaster. Vindu þad til einskis Mañs Vinattu, ad takast a Hendur ad giøra nockud Jllmañlega eda Oriettvijslega, þvi ad yfer þijnu Framferde og Giørdum Dæmer ei sa hiñ same, hvørs vegna þu nockud Rangnlega giørder, helldur Gud

 sialfur

ſiaalfur, hvar fyrer þu ſkyllder alldrei framar meta nockurs Mañs Vinaattu eñ ſiaalfs Guds. A Vegum DRottens ſer Mañe alltijd añadhvỏrt fraṁ eda aptur, hvar fyrer þu ſkyllder a hvỏrium Deige Ranſaka gaumgiæfelega þitt Lijferne, hvỏrt þier hefur fraṁ eda aptur fared, i Jdkun Gudrækneñar; Hvỏr ſem ecke ſer aafraṁ a Veige Drottens, hañ vijkur til Baka, þar fyrer ſiaadu til þu ſtalldrer ecke vid i þvi hinu Gooda, helldur ſtunda til þu laater þier alltijd nockud aafraṁ gaanga. Vertu liwfur og goodur vid alla i þiñe Uṁgeingne, eñ vid ſem fæſta ỏfugur eda Oblijdur, eñ wtvel þier þo ecke alla, ad hafa Maalbragd vid. Hagadu þier Gudrækelega i Guds Auglite, Riettvijſlega fyrer Naaunganum, eñ fyrer ſialfañ þig Flecklauſt og ſkijrlega. Sijndu þijnum Vinum Elſku, eñ þijnum Ovinum Poleñmæde, og vert ỏllum ỏdrum wt i fra vel viliadur, og lijka vel ſo mỏrgum ſem þu fær orkad Goodgiỏrdaſamur. Siaadu til þu deyer wt fraa þijnum eigeñ Vilia og Illgiỏrdum Dags Daglega, medañ þu lifer, ſo kantu þegar þu deyr ad lifa Gude.

Lattu

Laattu siaa i þijnu Vidmoote Medaumkan; J þijnu Tillite Goodgyrne; J þijnum Klædnade Lijtelæte; J þiñe Umgeingne Hoogværd, og i þijnu Mootlæte Polenmæde. Hugsadu alltijd uñ þessa þriaa umlidna Hlute, uñ þad Jlla, sem þu hefur giørt, uñ þad Gooda sem þu hefur ecke giert; Og uñ Tijmañ, sem þu hefur spillt og illa brwkad. Hugsadu þar næst uñ þessa þriaa naalæga Hlute, sem er uñ þad, Hvørsu stuttar ad sieu þessar Lijfs-Stunder; Hvad torvelldlega Meñ kuñe hoolpner ad verda, og hvad faaer Saaluhiaalpena ødlest. Hugsadu og eirneñ i þridia Lage uñ þessa þriaa epterkomande Hlute, uñ Daudañ, sem er hiñ allra skielfelegaste: Uñ Doomeñ, sem er hiñ allra Ognarlegaste, og uñ eilijfa Gløtun, sem er hiñ allra Obærelegaste Hlutur. Laattu þijnar Kvølldbæner bæta uñ fyrer þijnum Athøfnum, sem þu hefur framañ til a Deigenum haft, og a þañ sijdsta Dag Vikuñar, sem er Hvijldar Dagureñ, þioona þess helldur Gude, sem þad hefur a hinum ødrum Døgunum vered helldur forsoomad. Hugsadu uñ fyrer þier a hvøriu Kvøllde,

hvad marger a þeim umlidna Deige mune hafa til Glotunar wt af dœied, og þackadu Gude fyrer þad, ad hañ hefur vyrdst ad giefa þier Stund og Tijma til Ydranar.

Þar eru Þrijr Hluter upp yfer þier, hvørium þu œtt alldrei ad gleyma, helldur sijfelldlega uñ þa ad hura; Sa fyrste er Auga Drotteñs, sem alla Hlute sier; Sa añar er Eyra Drottens, sem allt heyrer; Sa þridie Samviskuñar Book; J hvøria allt er uppskrifad.

Gud hefur wtgiefed sig allañ til ad vera þier til Adstodar, þar fyrer gief þu þig og svo allañ til ad vera þijnum Naunga til Adstodar. Þad Lijferne er hid allra besta og œskelegasta, sem er ødrum til Gagns og Gooda i øllu þienande. Veittu þijnum Yfer-Moñum Hlijdne og Lotning, þijnum Jafningium Hiœlp og hollRaad, þier Undergiefnum Vernd og Aga.

Lœttu þiñ Lijkama vera Saaluñe undergiefeñ, eñ Saalena Gude.

Verdu Angur fyrer umlidnar Illgiørder. Acktadu lijtels Stundlega Luckur, eñ lœt þig Gyrna og Lysta af Hiarta epter þeim eilijfu Audœfunum. Minstu at Synd

Synd þijna so hun þig aangre. Minstu aa Daudañ, so þu læter af Illu. Minstu aa Guds straanga Riettlæte, so þu verder bliwgur og burt kaster Uggaleysenu, eñ gleym þo jamt ecke ad miñast aa Guds Myskunseme, svo þu ørvænter þier ei hañs Naadar. Skylldu þig vid Heimeñ þad fremst þier er mogulegt, og gief þig allañ til ad þioona DRottne. Giættu ad þvi, ad Hoofseme og Hreinlijfe er alltijd hætt, þegar Hollded hefur sitt Epterlæte, svo er og eirneñ Mañe hætt ad missa Lijtelæted, þa hañ hefur noog Audæfe og Riettsijnena i stoorum Hondlunum. Girnst þu ongvum svo freklega ad þocknast, svo sem Christo, og Ottastu ongvum svo ad misþocknast so sem honum.

Bid þu Gud alla Tijma, ad hañ skicke þier og skipe hvad hañ vill, eñ giefe þier Hiaalp og Styrk til ad fraḿkvæma þad sem hañ skipar. Bid þu hañ, ad hañ skijle og dylie þijnum uñlidnum Avirdingum, eñ stioorne og stijre þijnum epterkomande Verkum og Athofnum. Stundadu til þvilijkur ad vera, svo sem þu gyrnest adrer hallde og meine þu siert, þvi Gud

dæmer ecke epter ytra Alite, helldur epter riettre Raun og Sañleika, Varastu Marg-Mælge i þijnum Ord-Rædum, þviad Doomur DRotteñs wtheimter Reikningskap af hvoriu Onytiu Orde sem talad er. Þijn Verk og Athafner, hvørt sem þær eru Goodar edur Illar, þa verdur þeim ecke gleymt, helldur so sem þeim verdur nidursaad hier i Lijfe., so koma þær aptur fram aa Deige Doomsins. Hafer þu saad nidur i Holldenu, þa uppskier þu af Holldenu Fordiørfunena, Eñ hafer þu nidur saad i Andanum, þa uppskier þu þad aptur i Andanum, Verdkaup eilijfra Launa. Metord og Vegsemd fylgia þier ecke epter i ødrum Heime, ecke helldur Snægd Audæfaña, ecke Vellystingarnar, og ecke neiner faanijter Hluter þessarar Veralldar, helldur munu þier epter þeñañ Stundlega Dauda epterfylgia øll þijn Verk. Siaadu þar fyrer til ad vera so aa þig komeñ, nu i Dag fyrer Guds Augsyn, so sem þu villt vera aa þig komeñ siidar meir, fyrer Guds Doom-Stoole. Giættu meir og framar ad þvi sem þig uppaa vantar, eñ ad þvi sem þier er laan-
ad.

ad. Drambadu ecke af þvi sem þier er laanad, helldur audmyktu þig, vegna þess sem þig uppaa brestur, aa þad sem þu skyllder vera. Lærdu ad lifa Riettelega medañ þier er Lijfsins unt, Pviad i þessu Lijfe þa añadhvort missa Meñ eda ødlast þad eilijfa Lijfed. Epter Daudañ þa er wte Tijme Verkaña, eñ tekur til Tijme Verdkaupsins og Endurgialldsins.

Gudhrædder og Heilager Paankar, eiga ad uppveckia med þier Peckingena, Peckingeñ Ydranena, Ydraneñ Audmyktena, og Audmykteñ Bænena, Pøgn Mañsins giører mykeñ Frooa og Hugarhægd Hiartans. Þess Fiarlægare sem þu ert Heimenum, þess Peckare ertu Gude. Hvad hellst þu gyruest ad faa og ødlast, þa Oskadu þess af Gude, og hvad hellst þu hefur, þa þackadu Gude fyrer þad. Sa sem ecke þackar Gude fyrer medtekna Velgiørninga, er ecke Verdugur, ad hañ skule adra nija af hønum medtaka. Gud þreytest opt, ad laata sijna Blessan þraalega wte, þar sem ecke kiemur Packlæte a moote. Siaadu til ad færa þier þad allt i Nyt, sem fraam vid þig kiemur, og þier til fellur. Vilie þier til Velgeingne, þa vit þu, ad þad er þier Ordsøk til Packlætes vid Gud, Eñ vilie þier til Mootlæte, þa vittu, ad þad er þier Amiñing til Ydranar og Yferbootar. Haf þu þijna Magt og Vollduglеika til þess ad hiaalpa ødrum, þijna Vitsku og Speke til ad kieña ødrum, þitt Rijkedæme og Audæfe til þess ad giøra ødrum til gooda. Vertu ecke of Lijtelhugadur i Mootlætenu, og ecke Offiovrhugadur i Medlætenu. Laat þu Christum vera þitt Takmark, uppaa hvørt þu stefner a allre Vegferdar Reisu þiña Lijfsdaga; Stefndu a þetta Takmarked medañ þu lifer, so þu naaer þvi ept-

er Dandañ. Lærttu þier i øllum Hlutum vera mest uñ-hugad uñ Hiartgrooed Lijtelæte, og alvarlegañ Kiærleika: Lærttu Kiærleikañ upplypta þijnu Hiarta til Guds, svo þu hallder þier vid hañ, eñ Lijtelæted nidur þryckia þijnu Hiarta, svo þu verder ei Drambsamur. Halltu Gud fyrer þiñ Fødur vegna siñar Myskunsemdar, Eñ fyrer þiñ Herra, vegna siñar Uñwøndunar. Þar fyrer Elskadu hañ af Hiartans Ast sem eirn Fødur, Eñ Ottastu hañ af Alhuga sem eirn DRottiñ. Elskadu hañ, þvi hañ vill Myskunsemena, Eñ Ottastu hañ, af þvi hañ vill ecke Syndena. Ottast þu DRottiñ, og vonadu þo samt uppa hañ, Vidurkiendu þijna Synd, eñ prijsa hañs Myskunseme.

O! DRottiñ Gud, þu sem giefur oss slijkt ad vilia, Giefdu oss og eirneñ slijkt kuña ad framkvæma, Amen.

## Tuttugasta og Nijunda Hugvekia.

Uñ þad, hvorneñ vier skulum Uggleisenn fra oss hrinda.

Ef þu hurar uñ fyrer þier, hvad torvellt þad veiter, ad ødlast Sæluhiælpena, þa muntu þess hæglegar gieta hrunded fra þier øllu Uggaleyse og Athugaleyse. Hvorke i nockrum Stad edur a nockrum Tijma, hefur Ohætt vered. Einglumum var ecke Ohætt i Himnariike, og ecke helldur þeim fyrstu Foreldrum i Paradijs; Hvad myklu sijdur skyllde Ohætt vera i þessum Heime? Einglarner fiellu i Nærveru Guds, og Adam i þeim Farsælldareñar Stad Paradijs. Adam var skapadur epter eigenlegre Mynd sialfs

Guds, eñ samt sem aadur vard hañ tællddur og blecktur med Svikum Diøfulsins. Salomon var sa allra Vijsaste allra Mañna, sem til hafa lifad, samt sem aadur vard hønum snwed fra DRottne af Lockan og Tilteiging hañs Kveña. Judas var i Skoola Endurlausnarans, og heyrde Dags Daglega uppa þær Heilsusamlegustu Kieñingar þess ypparsta Læremeistara, samt sem aadur var hañ ecke frij fyrer Snørum Diøfulsins, helldur hrasade hañ og fiell nidur i Diwp Agyrndareñar, og wr þvi Agyrndareñar Diwpe, nidur i Afgruñ elliifrar Hrygdar.

David var Madur epter Guds Giede og Hiarta, og var Guds Elskulegur Sonur, eñ vegna Mañslags og Hoordooms, sem hañ fiell i, vard hañ samt sem aadur Daudans Sonur. So sierdu þa hier af, ad hvørge er Hættulaust i þessu Lijfe. Eñ Raad a moote þvilijkre Hættu, er þad hid eigna besta, ad hallda sier med stødugu Hiartans Trwnadar Trauste vid Guds Fyrerheit, þa verdur Madur frij fyrer Diøfulsins Asoknum. Ongvum er Hættulaust i þessu Lijfe, utañ þeim ad eins, sem

 Trw-

Triwader eru,og a Guds Veige gaanga, hvoriu Hættuleyse ad alleinasta velldur Obrigdull Stødugleike Guds Fyrerheita. Pegar vier erum komner til þeirrar eptekomande Sæluñar, þa Lokſins erum vier wr øllum Haaſka, Voda og Vanda komner. Eñ i þeſſu Lijfe fylgiaſt ad Gudrækneñ og Otteñ,og hvørugt maa þar aan añars vera.

Vertu ecke Hyrdulaus eda Athugalaus þa þier geingur nockud a moote, helldur hvad ſem hellſt þier aa moote blæs, þa halltu þad ad vera Hyrtingar-Hrijs Guds þier uppaalagt, vegna þiña Synda, þviad þad er Venia Guds,ad ſtraffa heim uglegar og huldar Synder, med Openberu Mootlæte. Hugſadu uñ Stærd og Andſtygd þiña Synda, og vert Ottaſleigeñ og bliwgur fyrer þeim Riettlaata Hegnara Syndareñar. Vertu ecke helldur Athugalaus nie Uggalaus i Velgeingneñe, þviad þeim hinum ſama er Gud reidur, ſem hañ ſtraffar i ongvu i þeſſu Lijfe. Hvad er Mootlæte þeirra Gudhræddu ad reikna? Pad maa reikna ſo ſem eina hvaſſa og beitta Or og Pijlu, ſem ſend verdur wr Guds

Guds milldre Hende. Marger eru þeir, hvoria Gud virder ecke þeſs, ad hañ ſtraffe þaa i þeſſu Lijfe, Eñ verda þo ad eilijfu Tortijnder. Stundleg Audlegd og Velgeingne er opt og Tijdum Teikn og Merke eilijfrar Fordæmingar. Eckert er Ofarſællra eñ Farſælld og Velgeingne þeirra ſem i Syndunum lifa. Eckert er aumlegra, eñ ſaa ſem ecke kañ ad kañaſt vid ſiaalfs ſijns Synd. Hvørt ſem hellſt þu lijtur eda reñer Augunum, þa ſier þu allſtadar eitthvad þad ſem þig maa Riettelega hryggia, og fraa þier taka Uggaleyſed og Athugaleyſed.

Horfer þu uppyfer þig, þa ſier þu þar Gud, hvørn þu hefur ſtyggt. Horfer þu ofañ fyrer þig, þa ſier þu þar Helvijte hvørt þu hefur forþienad. Horfer þu a Bak þier aptur, þa ſierdu Syndernar þijnar, hvøriar þu hefur drygt.

Horfer þu frañ fyrer þig, þa ſierdu þar þañ ſtraanga Guds Doom, fyrer hvørium þu maatt vel kvijda. Horfer þu iñ i ſialfs þijns Barm, ſo ſier þu Samvitſkuna, ſem þu hefur ſaurgad. Horfer þu wt i kringum þig, þa ſier þu þar Heimeñ, hvørn

ørn þu hefur elskad. Lijt þu a hvadañ eda fra hvorium Athøfnum þu ert komeñ, og skamast þijn; Hvar ad þu ert komeñ, og Andvarpa; Hvørt þijn Leid liggur, og vertu uggande. Pad Port sem liggur til Lijfsins, er ad søñu þraungt, eñ þo er Gata eda Vegur Saaluhialpareñar, eñ þreingre. Gud gaf þier hañ dirmætasta Fiesiood Trwareñar, eñ þeñañ Fiesiood ber þu þo i veikum Leirkierum. Gud gaf þier sijna Eingla til Verndar og Forsvars, samt skalltu vita, ad Diøfulleñ er ecke laangt fiærre sem þig vill undañ þeirre Verndan burt tæla og locka. Gud Endurnyade þig i Anda þijns Hugskots; Eñ samt hefur þu eñ myked epter af þeirre gømlu Holldsins Naatturu. Pu ert komeñ under Guds Naad og Vingan, eñ ecke ertu samt ølldunges iñleiddur i þa eilijfu Farsælld. Viftarveraŋ er til Reidu a Himnum; Eñ samt verdur þig fyrst ad þiaa Heimsins Astrijda. Gud hefur fyrerheited og lofad Fyrergiefning Syndaña, þeim sem vilia ydrast, eñ ad giefa þeim Vilia til ad ydrast sem hafa Asetning til ad vilia drygia Syndena, þvi hefur hañ ecke lofad. Par uppe er

til Reidu handa þier, og svo sem bijda epter þier Hugganer eilijfrar Farsælldar, eñ samt hlijtur þu iñ ad gaanga i giegnum margar Mootlætingar og Pijningar.

Þier er fyrerheiteñ Korona eilijfra Launa, eñ samt verdur þu ad wtstanda fyrst eitt þungt og Hættulegt Strijd. Gud vijkur alldrei fra þvi sem hañ hefur eitt Siñ fyrerheited, so hañ ende þad ecke; So ættu ecke helldur ad vijkia fra uppteckeñe Astundan Gudlegs Lijfernes. Þegar Þrælleñ giorer þad ecke sem hoñum er bifalad, þa gleymer ecke Herrañ ad framkvæma þad hañ hefur hootad.

So ættum vier þar fyrer sijfelldlega ad Andvarpa, og burtkasta Uggaleysenu, eñ sijta og graata, so ad vier ecke epter Riettferduguñ Guds Doome, verdum af Gude yfergiefner, og til Gløtunar i Diøfulsins Valld afhendter. So leinge sem þu bijhelldur Gudlegre Naad, þa gled þu þig af heñe, eñ þo so ad þu meiner þig ecke þa Guds Naad med Sialfskylldu eiga so sem añañ Arf, og farer so Uggalauslega med hana, so sem þu kyñer heñe alldrei ad tapa; Þvi take Gud sijna Hønd fra þier, og svipte

te þig þeirre Gaafu, sem hañ hefur sialfur giefed, vegna Uggaleysis, þa muntu med of-hastarlegum Otta sleigeñ verda, og eingeñ Urrræde muntu þa kuña ad faa nie siaa; Þar fyrer er sa riettelega farsæll, sem med allre Astundan og Kostgiæfne, fordast og varast Athugaleysed, hvørt ad er so sem oñur Mooder allrar Olucku og Slisa.

Þar um̃ maattu i vissre Von vera, ad Gud yfergiefur þig alldrei, eñ siaadu til þess, og kostadu Kapps þar uppa, ad þu yfergiefer hañ ecke helldur. Gud hefur giefed þier sijna Naad, bid þu hañ þar fyrer, ad þu meiger stadfastur blijfa under hañs Naad. Gud bijfalar vijst, ad þu skuler ecke efa um̃ þijna Saaluhiaalp, eñ þad, ad þu skuler vera Uggalaus um̃ hana, þad hefur hañ alldrei bifalad þier. Strijd þu þetta Strijd med Hørku og Kallmensku, so þu faaer um̃ sijder Sigrenum ad hroosa, med Hiartanlegre Glede og Fagnade. Þitt eiged Holld þad strijder i þiñe Natturu a moote þier; Hvør Ovinur ad er þier so skiædur, sem hañ er þier naalægur.

Heimureñ sem er allt i krijngum þig, strijder a moote þier, hvør Ovinur er þess

skiædare,

skiædare, sem hañ er Marglidadre.

Diøfulleñ sem Sveimar i Loptenu upp yfer þier, strijder a moote þier, hvør Ovinur er þess skiædare sem hañ er Megtugre; Eñ i Styrkleika þijns Guds kañtu þa ad Sigra og yferviña; Eñ þad skalltu vita, ad þvilijka Ovine kantu ecke med Uggaleysenu ad yferviña, helldur med sijfelldre Varaættu. Þijnar Lijfstunder eru Varaættu Stunder, og þa verdur þu sem allra mest ææsooktur, þa þu fiñur til sem minstra Asookna. Þegar þier finst so sem ad þu hafer Frid fyrer þessum Ovinum, þa eru þeir sem megtugaster a moote þier. Vilier þu sofa, þa vaka þeir. Biwer þu þig ecke til Mootstødu, þa bwa þeir sig til Asooknar og Skada. Marger þreytast og giefast upp a Veigenum, fyrr eñ þeir faa nææd iñ i Fødur-Landed. Hvad marger af Israels Sonum doou i Eydemørkuñe, hvørier ei feingu ad ødlast þad Fyrerheitna Landed? Hvad marger Andleger Abrahams Syner tortijnast i Eydemørku þessa Lijfs, æædur eñ þeir faa ad ødlast þa fyrerheitnu Arfleyfdena a Himnum? Eingeñ Hlutur kañ betur ad uppvekia oss til ad hrinda i burtu

fraa

fra oss Uggaleysenu, hellldur eñ þad, ef vier hugsum um̃, hvad fraer þeir eru sem stoduger standa allt til Efeloka. Læatum oss þar fyrer læunga til þeirrar Himneskn Dijrdareñar. Læatum oss hryggiast þar af, ad vier hofum hana eñ nu ecke medtek-ed. Læatum oss so vera Athugasama þar um̃, ad missa hana ecke aptur, ad vier hof-um af ongvu ødru Fognud, eñ af þvi allei-na, sem oss hiælpar til, heñe ad naa.

Hvar til stodar þad þo Madur Glediest um̃ Stundar saker, ef hañ verdur þar a moot ad hryggiast um̃ alla Eilijfd? Hvørneñ kuña Meñ Riettelega Gladerad vera i þessu Lijfe, med þvi ad aller Veralldleger Hluter sem oss kuña ad kiæta og gledia, þeir forgæanga og brotna um̃ sijder? Eñ hitt sem hryggia kañ, þverrar þo nie þrijtur alldrei. Vier lifum so Uggalaust, Lijka svo sem vier hefdum alla Reidu ysierstaded þær hættulegustu Stunder Daudans og Doomsins. Christur seiger hañ mune til Doomsins koma, a þeirre Stundu sem vier meinum ecke. Þetta seiger Sañleiks Muñureñ, ecke Einusiñe, helldur Tvisvar. Hlijd þu þessu þar fyrer, og vert Uggande um̃ þig. Kome hañ a þeirre Stundu sem vier meinum ecke, þa er þad vijst ad Ottast, ad vier munum meiga verda kallader fyrer Doomeñ, ecke so vel vidbuner sem skyllde. Eñ ef vier komum þaangad Ovidbuner, O! HErra Gud, hvørneñ skulum vier þa faa stadest þa straungu Dooms Alyktun sem þar mun gæanga? Eñ þvi er þo so vared, ad þeir sem tapa þar sijnu Mælefne a einu Augnablike, þeir faa alldrei Uppreisn um̃ alla Eilijfd þadañ i fra. A einum stuttum Tijma verdur tyrkliæad og ælyktad

þad

þad sem fram vid oss á ad koma um þañ Oendañlega Eilijfdareñar Tijma; A þessum stutta Tijma og Augnablike verdur hvør eiñ og eirn dæmdur, añad hvørt til Lijfsins eda Daudans, añad hvørt til Fyrerdæmingar eda Sæluhiælpar, Jæ, añad hvørt til Eilijfrar Dijrdar edur Eilijfra Kvala.

O! DRotteñ, þu sem hefur giefed oss þijna Naad, til ad uppbyrja þad Goda, Gief þu oss og eirneñ Styrk, so vier kuñum i þvi hinu sama Stadfaster ad standa allt til Æfeloka, Amen.

## Þrijtugasta Hugvekia.

Um þad, Hvørneñ Madur skal bera sig ad i fremsta Lage, ad breyta epter Heilagre Hegdan og Frañferde Christi.

CHristi Lijferne og Frañferde er sæ fegurste Speigill og Fyrermyndan allra Dygda og Mañ-Kosta. Øll Christi Hegdan, er oss til Uppfrædingar frañsett. Marger vilia fæ ad naa Christo, eñ vilia þo ecke þad til viña, ad feta epter hønum og hañs Frañferde. Þeir vilia hafa Not af Christo, eñ ecke Omak til ad haga sier epter hañs Lijferne. Læred af mier, þvi eg em Hoogvær og af Hiarta Lijtelæatur, seiger Endurlausnareñ. Utañ so sie þu vilier giørast Christi Læresveirn, og læra ad breyta epter hønum, þa kantu ecke Riett-Christeñ ad vera. Ecke æ alleinasta Þijnañ Christi ad vera Bi-

 tálingur

kallingur fyrer þijnar Synder, helldur at og eirneñ Framferde Christi, ad vera þier til Epterdæmis i allre þiñe Hegdan og Høndlan. Þiñ Elskuge er Hvijtur og Raudur ad Lit; Siaadu til þu siert og eirneñ Raudur af Adreifingu Christi Bloods, og Hvijtur af hreiñe og flecklausre Epterbreytingu hañs Framferdis. Hvørneñ skylldet þu hafa Elsku til Christum ef þu elskar ei hañs Heilaga Framferde? Ef þier elsked mig, seiger Endurlausnareñ, þa hallded mijn Bodord, hvar fyrer ad þeir sem ecke hallda Christi Bodord, þeir eru hañ og ecke helldur elskande. Christi allra Helgasta Framferde er su allra agiætasta Lijfs-Regla sem til er, og hvørke Franciscí nie Benedicti Reglur, sem Papistar mest af hallda, eru i nockurn Maata vid þessa Regluna samlykiande. Vilier þu vera Oska-Sonur og Barn Guds Fødurs, þa giættu ad hvørneñ hañs Eingieteñ Sonur hagar sier og hegdar; Vilier þu vera Samarfe Christi, þa aattu ad breyta epter Christo. Saa sem vill lifa i Løstum og illu Framferde, hañ hiñ same þioonar Dioflenum; Eñ hvørneñ kañ sa ad ve-

ra med Christo, sem sig hefur giefed i Pienustu Diøfulsins? Ad elska Synder og Leste, þad er ad elska Diøfuleñ sialfañ, þviad allar Synder eru af Dioflenum komnar; Eñ hvørneñ kañ saa Christum Riettelega ad elska, sem elskar Diøfuleñ? Ad elska Gud, þad er ad elska Heilagt Lijferne og Frāmferde, þviad allt Heilagt Frāmferde er af Gude, hvørneñ kañ saa þar fyrer ad elska Gud, sem ecke elskar Heilagt Lijferne? Elskañ audsyneſt i Verkunum, og þad er Art og Náttura riettrar Elsku, ad hun kiemur oſs til, ad stunda Gied hañs sem vier elskum, og ad vilia og meiga hid sama, svo sem saa vier elskum.

Þar fyrer, ef þu elskar Christum Riettelega, þa muntu stunda til ad vera hlijdeñ hañs Befalningum. Þu munt og eirneñ elska Heilagt Lijferne so sem hañ, og munt Endurnyast i Anda þijns Hugskots, so þu hugser uñ þad Himneska, lijka sem hañ giørde.

Eilijft Lijf er þar iñe faled og under þvi komed, ad vier þeckium Christum Riettelega; Eñ saa sem ecke elskar Christum, hañ þecker hañ ecke. Saa sem ecke elskar

Lijtelæte, Skijrlijfe, Hoogværd, Sparneytne og Kiærleikañ, saa elskar ecke helldur Christum, þviad Christi Lijferne var eckert añad eñ saňarlegt Lijtelæte, Skijrlijfe, Hoogværd, Sparneytne og Kiærleike. Christur seigest ecke þeckia þaa, sem ecke giøra Vilia sijns Himneska Fødurs, þar fyrer þeckia þeir og ecke helldur Christum, sem ecke giøra hañs Vilia. Eñ hvør er Vilie Fødursins? Hañs Vilie er vor Helgun.

Saa heyrer ecke Christo til, sem ecke hefur hañs Anda; Eñ hvar sem hañs Ande er, þar er hañ med sijnum Astgiøfum og Avøxtum; Eñ hvørier eru Avexter Andans? Þesser, sem er, Kiærleike, Glede, Fridur, Blijdleike, Goodgyrne, Giæska, Trweñ, Hoogværd og Sparseme.

So sem yfer Christo hvijldest Heilagur Ande, svo hvijlest hañ og eirneñ yfer øllum þeim sem i Christo eru fyrer rietta og saňa Trw, þviad Brwdureñ Christi geingur epter hañs Sætleiks Ilman. Sa sem helldur sier vid Drotteñ, hañ er eirn Ande med hønum. So sem Holldlegt eda Lijkamlegt Samband Ecktamans og Ecktakonu

takonn, giorer þaug bæde eitt Holld; So giorer og so su Andlega Samteinging a millum Christi, og eirnrar Trwadrar Saalar, þaug bæde Christum og Saalena eirn Anda. Hvar fyrer; Sa sem ecke skickar sijnu Lijferne og Frañferde, epter Christi Lijferne, hañ hvørke helldur sier til Guds, og ecke helldur hefur hañ Christi Anda i sier blijfanda.

Mun þad ecke tilbærelegt, ad vort Lijferne lijkest hañs Frañferde, hvør ed af Elsku til vor, vard oss i ollu lijkur, ad fratekeñe Syndeñe? Gud sem sig hefur Openberad i Holldenu, hefur oss giefed Form og Fyrermyndan christelegs Lijfernes med sijnu eigenlegu Epterdæme, so vier kyñum ecke þad fyrer oss ad bera, ad vier høfdum eckert Foorm epter ad breyta, añad eñ Holldsins Gyrnd og Vilia. Eckert Lijferne er betra, elskulegra eda Roosamara fyrer Samvitskuna, eñ Christi Lijferne, þviad Christur er sañur Gud; Eñ hvad kañ ad vera Jñdællra edur Roosamlegra eñ sialfur Gud, hvør ad er sa hædste og ypparlegaste Goode? Heimsins og Veralldareñar Lijferne færer med sier stutt Jñdæle

og Glede, eñ leider epter sig eilijfa Hrygd. Hvorium hellst sem þu lijkest, og epter hvorium sem þu breyter hier i þijnu Lijferne, þeim hinum sama verdur þu og eirneñ lijkastur i Upprisuñe; Breyter þu epter Christo i þijnu Frauñferde hier i þessu Lijfe, þa verdur þu hønum og eirneñ lijkur i Upprisuñe, eñ sie so, þu lijkest Dioflenum i Syndeñe og Illsku-Verkum, þa verdur þu hønum og eirneñ lijkur i eilijfum Kvølum epter Upprisuna.

Sa sem vill mier epterfylgia (seiger Endurlausnareñ) hañ take uppa sig Daglega siñ Kross. Ef þu afneitar siaalfum þier i þessu Lijfe, þa þecker Christur þig fyrer siñ eigeñ Lim i Doomenum. Ef þu afneitar vegna Christi, hier i þessu Lijfe, þijnum eigeñ Villa, þijnum eigeñlegum Veg og Byrdingu; Jaa, og øllu þvi sem þier kañ kiært ad vera, þa mun Christur laata þig niootande verda siñar Tignar, siñar Elsku, og sijns Villa i ødrum Heime. Ødlest þu Hlutdeilld af Krossenum Christi hier i Heime, þa ødlast þu og eirneñ Huggun og Hugsvølun i ødrum Heime. Lijder þu hier Offsookn i þessu Lijfe, þa

fær þu rijkuglegt Verdkaup þar fyrer, i epterkomande Lijfe. Sa sem mig vidurkieñer, hier i þessum Heime, (seiger Christur) hañ vil eg vidurkieña fyrer mijnum Himneska Fødur: Nu eigum vier ecke ad vidurkieña Christum alleinasta i þvi ad hallda hañs Lærdoom sañañ, helldur og i þvi, ad breyta epter hañs heiløgu Lijfe og Frañferde, og so mun Christur vísselega þeckia oss fyrer sijn Børn a DeigeDoomsins. Hvør sem afneitar mier fyrer Møñunum, seiger Christur, hønum vil eg og so afneyta fyrer mijnum Himneska Fødur: Nu verdur Christo afneitad, ecke alleinasta mz Ordunum, helldur myklu framar med Illu og Ogudlegu Frañferde; Þar fyrer, hvør siñ afneytar Christo med Verkunum hier i Heime, hønum mun og Christur neita med siñe Dooms Atycktan i ødrum Heime.

Sa maa eingeñ reiknast fyrer eirn Christeñ Mañ, sem ecke hefur riettta og sañа Trw a HErrañ Christum. Nu iñplantar riett og søñ Trw oss Christo, hvør ad er þad rietta Vijn-Tried, so sem adra Kviste, Eñ hvør sa Kvistur eda Grein a Christo, sem ecke færer Avøxt, þañ afhøggur og burtkastar sa Himneske Vijn-Gards Herrañ: Eñ hvør sem i Christo blijfur, og i hvørium sem helst ad Christur bijr fyrer Trwna, hañ

 hiñ

þiñ same færer myken Avøgst.

Sa Kvistur er ecke i Raun og Sañleika iñplantadur i Vijn-Tried, sem ecke dregur til sijn Vøkvañ wr Vijn-Trienu; So er og ecke helldur nockur sw Saala iñplantud Christo fyrer Trwna, sem ecke dregur til sijn þañ Andlega Vøkvañ Kiærleikans wt af Christo.

Giørdu vort Frañferde lijkt þijnu allra Helgasta Frañferde HErra JEsu Christe hier i Heime, so ad vier mættum þier fyllelega lijkiast i ødrum Heime, Amen.

## Prijtugasta og Fyrsta Hugvekia.

Uñ þad, Hvad þad sie ad afneyta sialfum sier.

Hvør sa sem vill mier epter fylgia, hañ afneyte sialfum sier, seiger Endurlausnareñ. Eñ ad afneyta sier so sialfum, þad er ad fraa sier leggia Elsku til sialfs sijns, þvi su Elska sem vier høfum aa sialfum oss, hun wtrijmer Guds Elsku. Viltu þu vera Christi Lærisveirn, þa verdur þu þar til ad stunda, ad Root þeirrar Elsku, sem þu hefur aa sialfum þier, uppvisne og wt af deye i þijnu Hiarta; Þvi eingeñ elskar Riettelega Christum, utañ sa sem sialfañ sig hatar.

Nema svo sie ad Korn-Sæded, sem nidur saaest i Jordena, deye fyrst, þa kañ þad ei Avøxt neirn af sier ad færa; Svo kantu ecke helldur Avøxt Andans ad færa, utañ Elskañ til sialfs þijns wt af deye ædur fyrre i þijnu Hiarta. Drott-

DRotteñ sagde til Abrahams, Gacktu wt af þijnu Fødur-Lande og fraa þijnu Ætt-Foolke, og wt af þijns Fødurs-Hwse, til þess Lands sem eg vil þier til vijsa. Ecke kuñe Abraham Forfader ad verda so merkelegur Guds Madur, sem hañ var, fyrr eñ þad hañ hafde skiled sig vid sitt Fødur-Land; So kantu og ecke helldur ad verda riettur og sañur Christi Læresveirn, og eirn riett Andlegur Guds-Madur, utañ þu gaanger fraa þeirre Elsku, sem þu hefur aa sialfum þier. Jacob, þegar hañ glymde vid Eingeleñ, þa vard hañ af hañs sterku Atektum halltur aa ødrum Fætenum, eñ añar Footureñ var heill og hraustur. Fyrer þessa Tvo Fætur Jacobs þijdest og merkest þu Tvøfallda Elska, sem er Elska til vor sialfra, og Elska til Guds. Þa ed Fyrsta nær Madur Guddoomlegre Blessan, þegar hañ er halltur aa Fæte siñar eigenlegrar Elsku; Eñ hiñ Footureñ Guds Elsku er heill og Ohindradur. So sem þier er Omøgulegt med sama Auga ad lijta upp i Himeneñ og nidur aa Jordena under eins; So kantu og ecke helldur med einum og hinum sama Vilia, þig ad elska

 uñ

umm fram alla Hlute, og Gud i Himnenum. Elskañ er eirn sꜳ beste Hlutur sem Sꜳlunne er giefen, hvar fyrer hun heyrer til med Riettu Gude Einum, sem er sꜳ AllraÆdste og Beste i bland allra Hluta. Þijn Elska er so sem þiñ Gud, þviad hvad sem þu elskar øllu ødru framar, þad hid sama giører þu ad þijnum Gude.

Þad sem þu elskar øllu ødru framar, þad virder þu og eirnen fram yfer alla adra Hlute; Nu er Gud alleina sꜳ sem ypparlegre er og ædre øllum Hlutum; Hvar fyrer, sꜳ sem elskar sig sialfañ mest, hañ giører sig ad Gude, hvad hid sama er hin sviivirdelegasta Skwrgoda-Dyrkan.

Þad sem þu elskar allra mest, og iñelegast, þad virder þu og metur fyrer svo dyrmætañ Hlut, so sem aller adrer Hluter mættu vera hønum undergiefner og þionande. Nu er þvilijkur svo ypparlegur Hlutur eingeñ añar eñ Gud alleina. Siꜳdu þar fyrer til, ad þu elsker ei sialfañ þig um̃fram allt, so þu giører ei Gud af þier. Gud er Upphaf og Ending allra Hluta, þar fyrer ꜳ Elskañ med riettu ad uppbyriast hiꜳ hønum, og Endast hiꜳ hønum.

Guds eigenleg Vera er fraaskileñ fraa øllum ødrum skøpudum Skiepnum, þvi ad Gud hefur fraa Eilijfd vered i sialfum sier þad hañ er, þar fyrer aa þijn alvarlegasta Elska ad vera fraa skileñ og sneidd fraa øllum ødrum skøpudum Skiepnum. Eirnrar og somu Tegundar sem þijn Elska er, somu Tegundar eru þijn Verk og eirneñ. Ef þijn Verk fram̃koma af riettre og sañre Trw og Elsku til Guds, þa eru þaug Gude þeck og mykels verd i hañs Auglite, þo þaug sieu lijtels verd og faanijt reiknud fyrer Mañaña Augum. Eñ kome Verkeñ þijn af þeirre Elsku, sem þu hefur til sialfs þijns, þa er Omøgulegt þaug kuñe Gude ad þocknast. Elskañ sem Madur hefur til sialfs sijns, hun fordiarfar og saurgar, lijka vel þaug Bestu og Ypparlegustu Verk, sem hañ kañ af Stad ad koma.

Þegar Christur var staddur i Hwse Simonar, þa kom þar fram̃ ein Kviña, hvør ed sundur-braut eitt Kier fullt af dyrmætu Salve, og smurde þar med Christi Høfud; Þad heñar Verk syndest lijtels verdt, eñ samt var þad Guds Syne þock-

nanlegt,

nanlegt, þviad þad kom fram̃ af riettre og sanre Trw, af Omeingudum Kiærleika og Ydrande Hiarta.

Foornfæringarnar voru Gude þægt Verk i gamla Testamentenu; Eñ samt sem aadur kuñe þad Verk ecke Gude ad þocknast, þegar Saul Kongur took Herfaung þeirra Amalechitarum, og ætlade þad til Foornfæringar Drottne: Eñ Ordsök þar til ad Drottne þocknadest þad ecke, var su, ad þesse Asetningur Sauls kom ecke fram̃ af riettre Elsku til Guds, þviad hefde hañ elskad Gud riettelega, þa hefde hañ ecke foracktad Guds Bod og Bijfalningar, sem honum þo bijfalade ad uppbreña allt þad Herfaung, eñ offra þvi ecke; Eñ Saul Kongur elskade sig sialfañ framar eñ Gud, og villde audsijna sijna eigeñ Gudrækne i þessu Offre sier til Hroosunar.

Elskañ er so sem nockurskonar Elldur, þviad so sijngur Guds Heiløg Christne i Psalmenum.

Kom þu goode H. Ande, uppfyll Hiørtu þiña Trwande? Og breñande Elsku þiña i þeim uppkveikiande, etc.

Ellds Logeñ helldur sier ecke nidur vid

Goolfed

Goolfed eda Jørdena føstum, helldur leitar hañ og leggur upp i Lopted; Eins a þijn Elska ecke ad hallda sier nidur vid þig; Helldur leita upp i Hæðernar, til Guds þijns Skapara.

Ad afneita siaalfum sier, heiter þad og eirneñ, ad leita siaalfum sier øngrar Dijrdar nie Vegsemdar. Þeim ypparsta Gooda, sem er Gud siaalfur, tilheyrer og eirneñ hin hædsta og ypparsta Vegsemd. Sa sem leitar siñar eigeñ Lofdijrdar, hañ kañ ecke ad leita Guds Dijrdar; so sem Endurlausnareñ sagde til Phariseaña: Hvorneñ er mogulegt, ad þier kuñed ad trwa, þar þier leited ydur siaalfum Hroosimar og Vegsemdar, hvør hia odrum? Hugleid þu Epterdæme Christi og fylg þvi epter: Hañ vottar opt og Tijdum uñ sig; Ad hañ leite ecke siñar Dijrdar, hañ þigge ecke Hroosun nie Vegsemd af Møñunum, og hañ sie af Hiarta Lijtelaatur. Þu medtekur allar þær goodar Gaafur, sem þu hefur, af Guds Hende, þar fyrer aattu ad tilreikna þær og eirneñ Gude, og giefa hønum Dijrdena, eñ þier ecke. Af þessum Giæsku Bruñenum wtfliootа Læker allra goodra Hluta,

þar fyrer eiga þeir sömu Lærerner til Siaafareus ad reña, þad er, Guds Giæsku ad vera tilreiknader og heimfærder med Packlæte. Þang Grøs eda Bloomstur sem kallast Solseqvia, þad er Soolfylgiendur, sinwa sier ætijd epter Sooluñe, af hvørre þaug taka siñ Vøxt og Bloomgunar Vøkva; i hvørre hellst Att sein Sooleñ er; So byriar þier og lijka, ad sinwa øllum þijnum Gaafum og allre þiñe Vegsemd ad Gude, og vidurkieña, ad þu hafer af hønum allt þad þeiged, eñ eckert af sialfum þier: Være þad nockud þu hefder af sialfum þier, þa hefder þu vel Orsøk til ad leita þier Losstijrs, og tilreikna þier þijnar Eigenlegar Gaafur; Eñ med þvi þad er eckert, helldur alleinasta af Gude, þarfyrer aattu ecke þiñar, helldur Guds Vegsemdar alleina ad leita. Su Vegsemd sem Madur sialfum sier tilreiknar, snijr Mañe fra Gude.

Epterdæme høfum vier þar til a Nabogodonosor Konge, hvør ed sagde: Þetta er su megtuga Babylon, hvøria eg hefe uppbygdt til eins Konglegs Hwss i mijnu Rijke; J Styrkleika miñar Magtar, og mier til Losstijrs og Vegsemdar. Eñ hvørneñ

foor þad ſijdañ fyrer Nabogodonoſor? Pad auvijſar Skrifteñ; So ſeigiande: Adur eñ Kongureñ hafde þeſſe Ord wttalad, þa heyrdeſt Rauſt af Himnum; Pier verdur ſagt Nabogodonoſor, ad Rijkes Stioorneñ er fra þier tekeñ, og þu munt verda wtrekeñ fra øllum ødrum Moñum, ſo þu bwer i hia Villudijrum wt i Mørkeñe: Eins fer þad og ſo, vilier þu byggia þijna Andlega Babylon, þad er þijn eigenleg Goodverk, ſiaalfum þier til Hrooſunar; Eñ ecke Gude alleina, þa verdur þu wtrekeñ fra Guds Auglite, og hñs H. Eingla.

Pad heiter og eirneñ ad afneyta ſiaalfum ſier, ad yfergiefa ſiñ eigeñ Vilia, og hlijda honum ecke, og breyta ecke epter honum. Oſs byriar beſta Vilia allra hellſt ad hlijda; Nu er Guds Vilie ætijd hiñ beſte, þar fyrer eigum vier og hellſt epter honum ad breyta. Hañs Vilia ber oſs hlijdugum ad vera, af hvørs Hende vier medtøkum allt þad Gott ſem vier høfum; Nu kiemur þad allt ſamañ alleina af Hende Drottens. Hañs Vilia er ſkylldugt vier hlijdum, ſem oſs vill leida til Lijfſins og til alls hins Gooda; Eñ þad ſama giører Vilie Drott-

eñs

eñs, sem ecke vill neirn fyrerfarest. Settu þiñ Vilia og Velþocknan til Drottens, og mun hañ giefa þier það sem þitt Hiarta Oskar.

Vor eigenlegur Vilie leider oss til Dauda og Gløtunar. Hvad fellde vorn Fyrsta Fødur Adam, fra Guds Vinaattu og þeirre Farsælld (sem hañ var til skapadur) i Eilijfa Gløtun? Eckert añad eñ það, hañ lagde hia sier Guds Vilia, og giegnde hønum ecke, eñ eptterfylgde sijnum eigeñlegum Vilia, Hañ gleymde Guds Bodorde, og hlijdde Raadleggingum Diøfulsins. Hvør sem þar fyrer vill vera Riettelegur Christi Lærresveirn, hañ fra sier legge siñ eigeñlegañ Vilia, og gyrnest ad epterfylgia Guds Vilia. Giættu ad Christo hvad hañ giører i sijnu Dauda-Strijde: Offrar hañ ecke Gude sijnum eigeñlegum Vilia, so sem eitt þacknæmelegt Offur? Offra þu og eirneñ þar fyrer þijnum Vilia Gude, og so hefur þu lært sialfsum þier ad afneyta, so sem Christur af þier wtheimter.

O! DRotteñ, þiñ Heilage Vilie verde, so a Jørduñe sem a Himnenum, AMEN.

## Prijtugasta og Auñur Hugvekia.

Uñ þa riettu Hvijld og Rooseмd Saalareñar.

MAñsins Saal leitar sier opt ad Hvijld og Unan i hiaa þessum Stundlegum og Forgeingelegum Veralldareñar Hlutum, hvøria hun þo ecke fiñur, og kiemur það svo til, ad Saaleñ er myklu ypparlegre eñ aller adrer Hluter i Heimenum, Hvar fyrer hun kañ ecke

Hvijld

Hvijld og Rooſemd ad faa i þvilijkum tilkomulitlum og lijtels verdum Hlutum. Aller adrer Hluter i Verolldeñe eru Jardneſker, eñ Saaleñ vor hefur Himneſkañ Uppruna. Hvørneñ ſkylldu þa þvilijker Hluter gieta heñe og heñar Gyrnd fullnægt. J Christo alleina fiñur hun ſijna rietta Hvijld og Nægiu, þvi hañ alleina kañ allt þad ad veita, ſem hun kañ ad gyrnaſt. A moote Guds Reide hvijleſt hun i Saarunum Christi. A moote Aklogun Dioflſins hefur hun Hvijld og Hugar-Hægd i Almættenu Christi. A moote Skielfingu Løgmaalſins i Nadar-Fyrerheitum Christi. A moote Aklogun Syndaña i Bloodenu Christi, hvørt betur er talande fyrer Gude, eñ Abels Blood. A moote Ogn Daudans hefur hun Hugar-Hægd, Hvijld og Rooſemd af Upphafningune Christi, og hañs Haaſæte, þar hañ ſitur til Fødurſins hægre Handar.

So fiñur nu Trweñ vor og Kiærleikureñ Hvijld og Hægd i Christo, þviad þa vier faaum Christum ad elſka, þa kañ Kiærleikureñ ecke hærra ad komaſt, edur ædra ad elſka. Peir ſem feſta ſiñ Kiærleika vid

Jardneska Hlute, þeirra Elska kañ ongvar Hvijld nie Stilling ad fiña.

Aller Jardnesker Hluter eru forgeingeleger og fallvallter, og kuña þvi ecke Gyrnd Saalareñar ad fullnægia, edur hana ad sedia, þviad þeir eru aller skaña Stund varande, eñ Saaleñ er eilijf og epter Guds eigeñ Mynd skøpud, hvar fyrer hun kañ alldrei fyllelega ad stillast, fyrre helldur eñ hun fær þaug eillijfu og Opriootañlegu Giædeñ, sem er Gud sialfur, i hvørium allt añad gott er iñefaled.

Par fyrer, so sem Trwañ vor aa ecke ad stydiast vid neina Hlute, utañ alleinasta vid Christi Forþienustu, og Fullnægiu, so aa og eirneñ Elskañ vor ecke ad lada sig til nockurs añars Hlutar, Jaa, ecke til sialfra vorra, þviad Elskañ til sialfra vorra, hun hindrar Guds Elsku, hvøria vier ættum þo ad taka fram yfer allt añad.

Saaleñ vor er Brwdur Christi, hvar fyrer hun aa sier alleina vid hañ ad hallda og hañ eirn ad adhyllast. Saaleñ vor er Hws og eigenlegt Herberge Christi, hvar fyrer hun aa ongvum Rwm ad giefa, utañ honum alleina.

Marg=

Marger leita sier Hug-Hægdar i Audæfum og Rijkedæme Veralldareñar, Eñ hvørneñ skal Hægd eda Hvijld fiñast fyrer utañ Christum? Hvar sem Christur er, þar er Fatæckt, sie hun ecke hid ytra, þa er hun samt hid iñra i Hiartanu.

Saa goode HErra Himens og Jardar, hafde ecke þad sem hañ kuñe Høfde sijnu ad adhalla, hvar med hañ helgade og vijgde oss sijnum Limum, Fatæktena til Handa. Audæfeñ til falla hid ytra, eñ þad sem Hvijld og Roo skal Saaluñe giefa, þad verdur ad vera hid iñra i oss, vid hvad ad Saaleñ kuñe sier ad halldai Daudanum, þegar vier verdum allt ad yfergiefa. Añad hvørt skilia Audæfeñ vid oss, eda vier vid þaug, og þad skiedur Stundum medañ vier lifum i þessu Lijfe, eñ avallt og Obrygdullt, þegar vier wt af Sofnum: Hvørneñ skyllde Saaleñ hafa þa Hvijld og Roosemd af Audæfunum vid hvør hun skilur?

Marger leita epter Hvijld og Stilling siñar Saalar i Holldlegu Epterlæte og Vellystingum, eñ þær kuña uñ Stundar Saker Hollded til Frids ad stilla, eñ Saa-

lena ongvaneigeñ, þviad þeim fylger optaſt nær æ epter Sorg og Angiſt. Vellyſtingar og Holldſins Epterlæte heyra alleinaſta til þeſſu Stundlega Lijfe, Eñ Sæleñ er ecke ſkøpud vegna þeſſa Stundlega Lijfs, hvar fyrer hun verdur vid Lijkamañ ad ſkilia i Daudanum; Hvørneñ ſkyllde hun þa Hvijlld og Rooſemd fiña i Vellyſtingunum? Sæleñ hefur ſijna Hvijld og Rooſemd i Christo. Hvørneñ var vared ſialfs Chriſti Hvijld i þeſſum Heime? Hañs Hvijld var eckert añad i þeſſum Heime, fra hañs fyrſta Fædingar Tijma, og allt til hañs Dauda, eñ Sorg og Swt, Kvøl og Angiſt, ſo hañ kiende oſs ad dæma riett um Holldſins Vellyſting, hvad hun være.

Marger leita ſiñe Sælu Hughægdar og Hvijldar i ſtoorum Metordum og ypparlegum Embættum; Eñ þeſſe Hvijldeñ er ecke ſtødugre eñ ſo, ad hun blæckter i hvørium Guſte Veralldar Mañа Pocknunar og Ohocknunar, og veit alldrei nær eñ hun i burt fijkur.

Hvørt Gagn edur Nytſeme hefur þu af þeim Lofſtijr ſem þu fær af Møñum? Ecke meira.

meira eñ eitt fagurt Maalverk hefur þar af, þo þvi sie hroosad. Hugleid þu þad litla Platz Veralldareñar, i hvøriu þu bijr: Hvad lijted er þad ad reikna hia øllu Landenu, a moote allre Nordur Alfu Heimsins, edur a moote øllum Heimenum: Nu þo þu hefder Lofstijr af øllum Heimenum, (hvad ecke kañ ad skie) Hvad være hañ þo ad reikna utañ so sem ecke þar? Sw Vegsemd og sa Heidur er alleinasta Lofsverdur, hvør ed wtvølldum verdur af Gude veittur i ødrum Heime. Svo sem Lijf Lijkamans er Saaleñ, so er og Gud Lijf Saalareñar, hvar fyrer, so sem ad Saaleñ lifer þa ad eins riettu Lijfe, þegar Gud bijr i heñe, fyrer Naad sijns Anda, so er hun og eirneñ daud, þegar hun hefur ecke Gud i sier bwanda: Eñ hvada Hvijld kañ Saaleñ i Daudanum ad hafa? Sa fyrste Daude, er Daude Saalareñar, þegar Madur deyr wt af fra Guds Naad og Vingan, vegna siñar Illsku, þesse Daude kañ ecke añars, eñ epter sig ad leida þañ añañ Dauda Fordæmingareñar. Hvør sem nu þar fyrer helldur sier stoduglega vid Gud, og hefur hañs Huggun hid iñra i Hiartanu,

hañs Hvijld og Roosemd kañ eingeñ Olucka, sem hid ytra tilfellur, ad sturla.

Midt i Angrenu er hañ gladur, midt i Fatæktene Audugur, midt i Anaudeñe med goodu Giede, og i siaalfum Daudanum Lifande. Hañ acktar ecke uppa Oogn nie Hootan illra Maña, þviad hañ hefur nooga Magt Heilagrar Huggunar hid iñra. Hañ hryggest ecke i Mootlætenu, þviad heilagur Ande huggar hañ Kroptuglega hid iñra i Brioostenu. Hønum fellur ecke Fatækteñ þungt, med þvi hañ er nooguu rijkur af Guds Myskun og Glæsku. Hañ sturlast ecke af Laste og Mijnkunar Ordum Veralldareñar Sona, med þvi hañ hefur Lofstijr hia Gude. Hañ hugsar ecke um Vellysting Holldsins, med þvi hønum er laangtum kiærare og betur smackande Sætleike Andans.

Hañ fer ecke leitande epter Vingan Veralldareñar, med þvi hañ hefur Hiartans Lysting af Naad Guds og hañs Vingan, til hvørrar hañ fiñur i Hiartanu. Hañ gyrnest ecke Jardneskañ Fiesiood, med þvi hañ hefur sier þañ besta Fiesiooden geymt a Himnum. Hañ Ottast ecke Daudañ, þvi hañ lifer aavallt i Gude. Hañ gyrnest ecke freklega Veralldlega Sycke, þviad hañ hefur H. Anda i Hiartanu, sem hañ uppfræder hid iñra Anægelega. Hañ Ottast ecke Reidar-Prumur nie Stoorm-Vidre, ecke Baal nie brwsande Bilgiur Vatnaña, ecke

Himen-

Himen-Tunglaña Hootaner nie hrædelegar Formyrk-vaner, þviad hañ er i Trwñe a Christum, lǽngt upp-hafeñ yfer allar soddañ Nǽtturlegar Skiepnur, og lif-er i Christo, eñ ecke i Heimenum. Hañ lætur sig ecke villa Blijdlǽte Heimsins, þviad hañ heyrer lǽngtum blijdare Ord og Aðvaraner Christi i siñe Saalu og Sam-vitsku. Hañ Ottast ecke Diøfulsins Magt, þviad hañ fiñur til Guds Mysknar og Hlijsdar, Sa er lǽngt-um sterkare sem i þonum lifer, og viñur Sigureñ, helldur eñ Diøfulleñ sem gyrnest hañ ad viña og gietur ecke. Hañ geingur ecke epter Tilteigingu Holldsins, þviad hañ lifer i Andanum, og geingur epter hñs Aeggin-gum. Þegar Andeñ Endurlifnar i Mañenum, þa deyd-est og Krossfestest Holldeð. Sa þarf ecke ad hrædast Diøfulsins Aklǿgun, sem veit sier vissa og Obrygdula Medalgaungu HErrans Christi.

Þvilijka rietta og saña Hviild og Hægd Saalareñar, veite oss og giefe sa sem hana hefur tilreidt og tilbwed, DRotteñ vor JESUS Christus, Blessadur uñ allar Allder, A M E N.

# Þrijtugasta og Þridia Hugvekia.

Uñ Gooda og Hreina Samvitsku.

Vad sem helldst þu giører, þa hug-sadu øllu framar uñ Samvitsku þijna, ad þu hana ecke sturler. Vil-ie Diøfulleñ ǽrtijsa þig til nockrar Synd-ar, þa Ottastu fyrer Doome þiñar Sam-vitsku hid iñra i Hiartanu. Ef þu Ott-ast i Vidurvist Mañaña, þad ad fremia sem illt og Oscǽmelegt er, hvad mykłu fra-mar skalltu Ottast ad giøra þad i Vidur-

vijt pinar Samvitsku. Saa iñre Vitnesburdureñ, er laangtum sterkare eñ saa ytre, hvar fyrer, þo eingeñ vite af þijnum Syndum, og þær kuñe þvi eingeñ ad aaklaga af Moñnum, þa ber þo Samvitskañ Vitne uñ þær, fyrer hvørre þær dyliast ecke.

Samvitskañ Mañsins er ein af þeim Bookum, sem fram verda bornar og upp flettar, aa Sijdasta Dooms-Deige, hvar uñ lesa maa i Openberingar Bookeñe.

Fyrsta Bookeñ sem fram verdur boreñ og uppflett, er Guds Vijsdooms Book, sem alla Hlute sier og þecker, wt af hvørre Openberlega mun verda uppleseñ, øll Mañaña Verk, Ord og Þaankar.

Su Auñur Bookeñ er Christur sialfur, sem ad er su rietta Lijfsins-Book, hvør sem i heñe finst skrifadur med Guds Fijngre, Heilogum Anda, fyrer rietta Trw i Bloodenu Christi, hañ verdur af Einglum um iñleiddur'i Himneska Dyrd og Sælu.

Pridia Bookeñ er Book Heilagrar Ritningar, epter hvørrar Jñhehallde dæmt verdur bæde uñ vora Trw og Verk, hvort þaug eru riett eda ecke. Orded þad sem

sem eg hefe fyrer þeim talad(seiger Endurlausnareñ) þad mun þa dæma a Efsta Deige.

Fioorda Bookeñ hefur iñe ad hallda þa ytre Vitnesburdena Fautækra og añara Naudstaddra, hvorier a Deige Domsins munu oss iñtaka i eilijfar Tialldbwder.

Fimta Bookeñ hefur iñe ad hallda þa iñre Vitnesburde Samvitskuñar, i hvørre Book allar þær Synder standa uppskrifadar, sem sier hvør Madur hefur drygt uñ sijna Æfe.

Þetta er ein harla stoor Book, a hvøria allt er uppskrifad med Stijl Sañleikans. so gieta þeir Fordæmdu ecke sagt ney til siña Synda a Domenum, þviad þeir ra eigeñ Samvitska vitnar a mote þeim.

Þeir gieta og ecke helldur flwd undañ Syndareñar Aklogun, þviad Dom-Stoll Samvitskuñar er med þeim, og a heima hia þeim, hvørt sem þeir flya. Hrein Samvitska er sa skiæraste Speigell Saalareñar, i hvørium hun kañ bæde ad siaa Gud og sig. J saurugre Samvitsku kañ ecke ad siaast þad skiæra Lioos Guds Auglitis; Hvar fyrer Endurlausnareñ so seig-

er: Ad ſæler ſieu þeir hinu Hrein-Hiørt-
udu, þviad þeir munu Gud ſiaa.

So ſem hrein og ſklær Aſiaana er Dæge-
leg Alits fyrer Mañaña Augum, ſo er og
vel ſkartande fyrer Guds Augum, hrein
og Oſaurgud Samvitſka; Eñ ſweñ og
roteñ Samvitſka fæder af ſier þaa Orma
ſem alldrei wt af deya. Þar fyrer er oſs
allt Kapp þar aa leggiande, aa medañ þeſs
ar Lijfs-Stunder vara, ad vier lærum ad
fiña til þeſſara Samvitſkuñar-Orma, og
þa wt af ad deyda fyrer ſaña Ydran, eñ
fooſtra þaa ecke aa Uggaleyſenu iñ til þeſs
eilijfa Tijmans.

Allar hinar adrar Bækurnar ſem aad-
ur voru upptaldar; Eru til þeſs þienande,
ad þeſſe Samvitſkuñar Book mætte leid-
riettaſt og upp aptur ſkrifaſt; Hvar til
ſtodar ſtoor Vitſka; Ef þar er fyrer ein
ill Samvitſka? Þviad epter þiñar Sam-
vitſku Book verdur þu Dæmdur, fyrer
Guds Doom-Stoole, eñ ecke epter Book
þiñar Vitſku. Vilier þu laata Book
þiñar Samvitſku riett ſkrifaſt, þa ſkrifadu
hana epter þvi ſem ſtendur ſkrifad a Lijf-
ſins Book. Lijfſins Book er Chriſtur, þar
fyrer

fyrer stijladu Truna þijna epter hañs Kieñingum, og Lijferne þitt epter hñs Frañferde. Þa ed fyrsta verdur Samvitska þijn good; Ef þu hefur hreint Hiarta; Sañordañ Muñ og tilbærelegt Verkaña Frañferde. Hafdu Samvitsku þijna so sem fyrer añad Lioos, i øllum þijnum Giørdum, þviad hun kañ gløggvast ad sijna þier, hvøriar Athafner riettar eru, og hvøriar raangar. Taktu þier sterkañ Vara fyrer þeim Doom-Stool Samvitskuñar, þar sem hiñ same er sekur, Sakaraaberen; Votturen; Doomaren; Faangelsed; Hegnaren og Bodullen: Hvar skal þa fiñast Undañfære, þegar sa hiñ same er Doomaren sem Vitne ber, og hønum er kuñugast uñ Maaled, sem yfer dæmer? Hvørt Gagn hefur þu þar af, þo aller adrer lofe þig og hroose þier; Ef Samvitska þijn aaklagar þig? Sterkare er Aklogun heñar eirnrar, eñ Lofstijr añara Þusund. Hvad skadar þig þad, þo aller adrer laste þig, og hallde a moote þier, ef Samvitskañ ein afsakar þig? Þesse Doomareñ alleina gietur bæde Maaled sookt og Doomeñ wrskurdad. Þesse Doomareñ lætur sig ecke blinda

med

med Mwtum og Skeinkingum , og ecke miſkia fyrer nockurn Bænaſtad. Hvørt hellſt þu geingur; Eda hvar hellſt ſem þu ert, þa er alltijd Samvitſka þijn hia þier, berande med ſier þad ſama ſem þu hefur i hana iñlagt, hvørt ſem þad er Gott eda Illt. þetta Geymſluſied forvarar hun ſo leinge ſem þu lifer, og ſkilar þier þvi aptur a efſta Doome: Þar fyrer ſagde Spæmadureñ riett, ad Mañſins Heima Meñ ſieu hañs Oviner. So hefur þu i þijnu eigenlegu Hwſe , og af þijnum eigenlegum Heimeles Moñum, hañ ſem þig æklagar, hañ ſem ad þier giæter, og ſijdañ a þier hefner. Hvad gott giører þad, þo Madur life i Nægd allra Audæfa , ef hañ þijneſt af Svipum illrar Samvitſku? Bruñr og Uppræs allrar Mañſins Farſælldar, er i Mañſins ſiaalfu eigenlegu Hugſkote; Eñ ſie ſa Bruñureñ aptur byrgdur; Hvørneñ kuña þa þar Læker wt af ad ſlioota? Hvørt Gagn giører þad, þoott ein ſiwk Mañeſkia ligge i Gullegre Sæng? So giører þad og ecke helldur Gagn þeim ſem hefur illa Samvitſku, þo hañ hafe allra añara Hluta Nægter og nooga Audlegd. So ſtoort

Kapp

Kapp sem þier byriar ad leggia þar a, ad þu ødlest eilijfa Saaluhiaalp; So stoort Kapp ber þier og eirneñ þar a ad leggia, ad þu hafer gooda og roolega Samvitsku, þvi ad under eins og þu misser gooda Samvitsku, þa misser þu og eirneñ Trwna, eñ ad mistre Trwñe, þa misser þu Guds Naad, Eñ hvørneñ kantu ad vænta þier eilijfs Lijfs, þa þu hefur mist Guds Naad? Hvilijks Dooms maattu þier vænta af Christo, so sem Vitnisburdur þiñar eigeñ Samvitsku er hlioodande. Illgiørda Meñerner, þo eingeñ þa aaklage, eda neitt uñ þa uppbere, eru siaalfer sijner Aklagendur. So sem þad geingur til fyrer þeim Drucknu, ad a medañ þeir eru i siñe aakøfu Dryckiu, þa finst þeim ecke Oled giøra sier neitt Mein edur Baga, eñ skømu sijdar þa þeir hafa sofed, og vakna upp aptur; Þa fiña þeir hvørneñ su Ohooflega Dryckia hefur þa wtleiked; So geingur þad til fyrer þeim sem Syndga a medañ þeir eru ad Synda-Idiuñe, og iñ til þess þeir hafa hana frañkvæmt, þa formyrkvast svo þeirra Hugskots Augu, og þeirra Skilnings Sioon, ad þeim sijnest so sem

hun leide eckert Illt epter sig; Eñ sem Syndeñ er fullkomnud, þa rijs Samvitskañ upp af Svefne, og nagar þa og klagar ækaflegar, eñ nockur Sooknare eda Sakaræbere kañ ad giøra.

Þar eru þriggia handa Doomar til; Fyrst er Guds Doomur; Þar næst Samvitskuñar Doomur; Og i þridia Lage Veralldareñar Doomur. So sem þier er nu Omøgulegt ad skioota þier undañ Guds Doome, so er þier og lijka Omøgulegt, ad komast undañ Doome þiñar eigeñlegrar Samvitsku; Þo þu kuñer stundum undañ Veralldareñar Dome ad gieta komest.

Þar kañ eingeñ Veggur ad skilia a millum þijn og þessa Vottsins, svo hañ ecke siaæ þijnar Giørder og Athafner. Hvor Affsøkun skyllde þier duga, þegar su iñre Akløguneñ hun fordæmer þig? Roosemd Samvitskuñar, er svo sem nockurt Upphaf eilijfs Lijfs.

Med læangtum meire Hugarhægd, kantu þig ad gledia, wt af goodre Samvitsku i Mootlætenu, eñ af illre i Medlætenu. Giegn allre Ofrægd og Alijge, kañtu Orugglega ad bera Affsøkun goodrar Samvitsku. Spyrdu sialfañ þig ad um þijnar eigenlegar Giørder og Framferde, þviad sialfum þier er þar um kuñugra eñ nockrum ødrum. Hvad meinar þu stoda mune añ-

ara

Ara Maña Oſoñ Hrooſan, Eda hvad ſkyllde þig ſkada añara Logeñ Laſtyrde þier til Handa? Epter Guds Doomsz Alycktan alleina ſtendur þu eda fellur, Eñ hiña añara Vitnesburder, ſtydia þig hvørke nie fella. Samvitſkañ verdur þvi Eilijf, ad Sælen vor er Eilijf. So leinge liggia Helvijtſkar Kvaler a þeim Fordæmdu, ſo ſem þeirra Samvitſka lætur ecke af yfer þeim ad klaga. Eingeñ Elldur hid ytra kañ Lijkamañ ſo ad plaga, ſo ſem þeſſe iñre Logeñ plaagar Sælena. Sæleñ er Eilijf, ſem i þeſſum Loganum kvelſt, þvi er og eirneñ Samvitſkuñar Elldur eilijfur ſem hana kvelur. Unngvar ytre Pijſller eru ſo Obærelegar, ſo ſem þeſſe iñre Sløg Samvitſkuñar. Fordadu þier þar fyrer, fyrer Sekt Syndaña, ſvo þu faller ecke i Kvaler Samvitſkuñar. Siadu til þu utſlietter fyrer rietta og ſaña Ydran, þijnar Synder ur Book Samvitſkuñar, ſo ad þær kuñe ecke ad verda leſnar a Deige Doomſins, og þu verder ecke þeirra vegna Fordæmdur. Utſlocktu Orm Samvitſkuñar, med alvarlegre Gudrækne, ſo hañ ſære þig ei of-ſaart bited añars Heims. Utſlockktu þeñañ Jñvortes Elldeñ med þijnum Taarum i þeſſum Heime, ſo þu faaer Svølun Himneſkrar Huggunar i odrum Heime. O! DRotteñ, Gief þu oſſ ad vier kuñum ad ſtrijda eitt gott Strijd og hijhallda ſo Trwñe og goodre Samvitſku, ſo ad vier Lokſins komuſtum Klaklauſt iñ til vors rietta Fødurlands, AMEN.

## Þrijtugaſta og Fioorda Hugvekia.

### Hvørneñ Madur ſkule ſtunda uppa ſañarlegt Lijtelæte.

Mirdtu fyrer þier Chriſteñ Saal, og athuga hvad aum Mañeſkiañ ſie, og med þeirre Thugan verdur þier hægaſt ad forda þier Freiſtingu Drambſemeñar,

femeñar. Hvad tilkomulijtell er Madureñ, þa hañ fœdest i Heimeñ? Hvad aumur er medañ hañ hier velkest i þessu Lijfe? Og hvad Sorglegur, þa hañ verdur fyrer Daudañ burt hiedañ aptur kalladur? Madureñ i þessu Lijfe, verdur aasooktur af Dioflenum, særdur af Freistingunum, lockadur af Vellystingunum, nidursleigeñ og so sem Foottrodeñ af Mootlætingunum, fiotradur af Løstunum, eñ rændur og sneiddur Mañkostunum; Hvar af vill tu þa Dramba og Stæra þig þu Jord og Aska? Hvad varstu aadur eñ þu fœddest? Varstu ecke fwlt og andstyggelegt Sæde? Hvad varstu aa medañ þu hier lifder? Varstu ecke Saurenda-Seckur? Hvad verdur þu epter þetta Lijf? Muntu ecke verda Orma-Fœda? Ef ad nockud gott finst hiaa þier, þa er þad ecke þitt eiged, helldur Guds alleina. Eckert er þitt eigenlegt utañ Syndernar, þar fyrer maattu med riettu eckert þier til eigna utañ þijnar Synder; Þad er eirn illur og heimskur Þræll, sem vill stæra sig af Gotze sijns Herra og Hwsboonda.

Lijttu Mañeskia aa Epterdæme Christi,

iſti, hønum þioonar øll Himnaña Dyrd, Jaa, hañ er ſiaalfur ſu ſaña Dyrd og Vegſemd, og þo vill hañ øngva Veralldlega Hrooſun hafa, helldur hroopar hañ og ſeig er: Læred af mier, þvi eg em Hoogvær og af Hiarta lijtelaatur. Saa eirn er ſañur Guds Elſkare, ſem er hañs Epterbreytare; Saa ſem hefur Chriſtum ſier kiærañ, hañ hefur ſier og kiært hañs Lijtelæte. Pa hid Fyrſta maa Prælleñ ſkamaſt ſijn ad Dreyſſa, þegar hañ ſier og yferveger, hvad Lijtelaatur ſie ſiaalfur DRotteñ Dyrdareñar. Endurlauſnareñ ſeigeſt vera ſiw Lilia, ſem vex i Dalverpunum. Sañarlega vex þetta Edla Bloomſtred HErrañ Chriſtur ecke uppaa Fiøllunum, þad er, i Drambſømum og Hofmoodugum Hiortum, helldur i Dalverpenu, þad er i lijtelaatum og audmiwkum Hiortum Trwadra; Pviad riettelega er þad ſagt, af Einum þeim Heilaga Forfødur, ad lijtelaat Saal ſie þad hæcgaſta Sæte og Svefñ Herberge Chriſti, Straumar Gudlegrar Naadar, reña ofañ epter, eñ ecke uppaa moote. So ſem Vøtneñ ſækia ecke uppaa Hæderñar, ſo flijtur og ecke Guds Naad og

Myskun upp til þeirra Drambsomu, helld ur til þeirra nidurslegnu i Hiartanu. Sa Heilage David seiger i sijnum einum Psalme, Ad DRottenn sem bijr i Hædunum, hann lijte hellst nidur til þess Lijtelmootlega bæde aa Himne og Jordu.

Pad er vijst furdanlegur Hlutur, enn þo i Raun Obrygdanlega sannur, ad vier kunnum ecke upp fyrer þann allra Hædsta Gud og hanns Haatign ad koma, utann fyrer pad Allra Lægsta og Audmiwkasta Lijtelæte. Hvør saa sem er Lijtelmootlegur fyrer sijnum Augum, og epter Alite sijns eigenn Hugskots; Hann hinn same er mykels haattar i Guds Auglite. Saa þocknast best Gude sem siaalfum sier mispocknast.

Gud skapade af øngvu Himen og Jord, enn so sem pad gieck til i Fyrstu Skøpunne, so geingur pad enn til i Endurskøpunne. Nu skapade Gud alla Hlute af øngvu, og þvi Endurskapar hann Mannskiepnuna af øngvu Efne; Hvar fyrer, vilier þu verda Endurgietenn og Endurskapadur til eilijfs Lijfs, þa læstu þier þykia þu siert eckert og øngvu nijtur fyrer Guds Auglite.

Aller Menn eru veyker og vanmaattug-

er, eñ þo ættu þig sialfur ad dæma hiñ allra veykasta og vanmættugasta af øllum, þad skadar þig eckert, þo þu wt af sañarlegu Lijtelæte halldet þig og dæmer ad vera minst verdañ af ollum, eñ hitt er Skadsamt, ef þu dyrfest ad meta þig fram yfer nockurn.

Þeir 24. Aulldungar (þad er øll Utvaleñ Guds Børn æ Himnum) kasta sijnum Koronum nidur fyrer Stooleñ Lambsins, hvar med þeir tilleggia Gude alla Dyrd Riettlætesins, Myskunareñar, Spekeñar og allra Dygda; Hvad bære oss þa ad giøra aumum Syndugum hier æ Jørduñe? Þeir Heiløgu Guds Einglar og Seraphim, hylia sijnar Asioonur fyrer Guds Dyrdar Auglite; Hvad skyllde þa su Fortapanlega Mañskiepna eiga ad giøra, hvør ed fyrer Gude mæ reiknast andstyggeleg i margañ Mæta? Christur, sem er sañarlegur, og Eingieteñ Guds Sonur, var so furdanlega Lijtelætur, ad hañ nidur stie af Himnum, og uppæ sig took vora andvirdelega Nattúru, nidurlægiande sig, og leggiande i Pijnuna og i Daudañ. Hvad længtum

 framar

framar bære þa aumre Mañeſkiu ad Lijte-
læcka ſig, hvør ed med ſiñe Synd, hefur
falled fra Gude ſijnum? Sia þu og at-
huga Chriſteñ Saala, med hvad furdan-
legu og Daaſamlegu Lijtelæte ad Endur-
lauſnareñ ockar, hefür læknad og grædt
ockar Drambſeme, og ſkildu þig þvi vid
Drambſemena. Fram uñ Veg Pijnuñ-
ar og Lijtelæteſins gieck Chriſtur iñ i Dyrd
ena; Meintu þar fyrer ecke, ad þu muner
þangad epter hønum komaſt, ef þu geing-
ur a Veige Drambſemeñar. Dioflar-
ner voru vegna Drambſemeñar wtrekner
wr Himnarijke; Hvørneñ ſkylder þu þa
ſem Himarijked hefur eñ ecke ødlaſt, kom-
aſt þangad a Veige Drambſemeñar?
Vegur Drambſemeñar leidde Adam i bu-
rt wr Paradijs; Hvørneñ ſkyllde hañ þa
kuña ad leida þig þangad, hvadañ hañ
þiñ fyrſta Fødur Adam wtleidde? Oſkunt
helldur ad vier meigum vera Pienarar,
og þvo Fætur vorra Brædra med Chriſto,
helldur eñ ad metaſt epter oftignarlegu
Sæte med Dioflenum. Lijtelæckum oſs i
þeſſu Lijfe, ſo ad vier verdum upphafner i
ødru Lijfe. Athuga þu ecke Saala mijn
þad

þad sem þu hefur, helldur hitt, þad sem þig uppa vantar, af þvi sem þu ætter ad hafa med riettu. Lattu þig meir hryggia þær Dygder sem þu hefur ecke, eñ þu hrooſeſt um af hinum sem þu hefur. Þeige þu yfer þijnum Mañkoſtum, eñ vidurkieñ þu þijna Leſte; Þviad þad er uggande, ad ef þu openberar Fieſiood þiña Mañ-Dygda med Hrooſuneñe, þa mune Dioflleñ kuña ad ſoijkia hañ af þier med Drambſemeñe. Eldureñ verdur hvørge betur forvaradur eñ i Oſkuñe, ſo verdur og Elldur Kiærleikans hvørge betur faleñ eñ i Oſku Lijtelætesins.

Drambſemeñ er Sæde allra Laſta, Varaſtu þar fyrer ad upphefiaſt af Drambſemeñe, ſo þier verde ecke nidurkaſtad i Afgruñ Laſtaña. Drambſemeñ er ſw hægaſta Sæng Diøfulſins, Varaſtu þar fyrer Drambſemeña, ef þu villt ecke Diøfulſins Underlægia vera. Drambſemeñ er ſa ſterke Þerrer-Vindur, ſem uppþurkar Bruñ Gudlegrar Naadar, Varaſtu þar fyrer ad vera uppblaaſeñ af þeſſum Vindenum, ſvo þu miſſer ecke þañ ſæta Vøkva Guds Naadar.

Lækna þu HErra JEſu Chriſte, þa ſtooru Bóvlgur og Þrota vorrar eigenlegrar Drambſeme. Þitt Heilaga Lijtelæte vere bæde Fullnægia og Fyrermyndan vors Frañferdes, Lattu vora Trw kuña Stadfaſtlega ad ſier ad veſia þitt Lijtelæte, og vort Lijferne kuña þvi riettelega epter ad fylgia og ſier þar epter ad haga, Amen.

* * *
** ** **

# Prijstugasta og Fimta Hugvekia.

Hvørnen̄ Man̄e byrie ad fordast Agyrndena.

SO kiær sem þier aa ad vera þijn Saaluhiaalp, so andstyggelegur aa þier ad vera Agyrndarenn̄ar Løstur. Par finst eingen̄ so Aumur og Armur sem saa Agiarne, hvørn so vel brestur þad sem han̄ hefur, so sem þad sem han̄ ecke hefur. Saa hin̄ Agiarne er þvi hraklegre øllum ødrum Mon̄um, ad þo han̄ sie øngvum goodur, þa er han̄ þo siaalfum sier verstur.

So sem Upphaf allra Synda og Lasta er Dramblæted, so er og Agyrnden̄ Root allra Lasta. Drambsemen̄ snijr Man̄e fraa Gude, en̄ Agyrnden̄ snijr honum til of-mykellrar Elsku aa skopudum Skiepnum. En̄ siaaum og hugleidum, hvad dijrmætur Hlutur þad er, sem Agyrnden̄ afrekar. Hun afrekar Stundum eckert, en̄ Stundum Stundleg Audæfe, og þau med Vanblessan og Guds Oþocknan. Audæfen̄ færa med sier Omak og Armædu, aa medan̄ þeirra er aflad, Otta og Ugga, þegar þaug eru wtvegud og i vora Eign komen̄; Sorg og Angur, þegar vier þaug aptur mistum Ann̄ad hvørt yfer-

giefa

giefa Audæfeñ þig, eda þu yfergiefur þa-
ug. Hvar fyrer, ef þu setur þijna Von
til Audæfaña, uppaa hvad villtu þa vona
aa Dauda-Stunduñe? Ecke er Von þu
trwer Gude til Umſorgunar aa þiñe Saa-
lu, þar þu trwer honum ecke til ad forſor-
ga þiñ Lijkama.

Hafe ſaa Almaattuge Gud Umſorgun
fyrer þier; Þvi ſkyllder þu þa efa um, hvo-
rt hañ giete veitt þier þijna Lijfs-Næring
eda ecke? Hafe ſaa Allra Vijſaſte HErra
og DRottenñ Umhyggiu fyrer þier, hvar
fyrer ertu þa ſtwrande, hvorneñ hañ kuñe
þig ad fæda? Hafe ſaa Milldaſte og Or-
laataſte HErrañ Forſorgun fyrer þier,
Hvar fyrer efaſtu þa um, hvort hañ vilie
þig næra eda ecke? Þu hefur Lofun Chr-
iſti Haudſkriftada, hvør ad er DRotteñ
yfer Himne og Jordu, þar uppaa hliood-
ande; Ad þeim ſem leita Guds Rijkis og
hañs Riettlætis, ſkule eckert añad Naud-
ſynlegt aa Bord breſta. Uppaa þeſſa
Lofun maattu þig vel reida, þviad hañ
brigdar ecke ſijn Ord, af þvi hañ er Sañ-
leikureñ ſiaalfur.

Agyrndeñ er ſu ſvijvirdelegaſta Afguda

Dyrkan sem verda kañ; Hvør ed setur Skiepnurnar i Sæte Skaparans. Sæ hiñ Agiarne setur sitt Traust til Skiepnaña, hvørt hañ ætte alleinasta til Guds ad setia. Hvad sem hellst framar verdur elskad eñ Gud, þad verdur og eirneñ framar meted eñ Gud, og fram yfer hañ teked; Eñ hvad sem fram yfer Gud er teked, edur hønum framar virdt; Er þad ecke auglioost, ad þad er i Guds Sæte sett, og hæsta Guddoomlega Tign veitt sem verda maa? Esau sellde sijna Frumgietning fyrer eina litla Maaltijd; So selia og marger Arfs-Von sijna i Himnarijke, sem þeim er af Christo wtvegud fyrer Stundleg Giæde og Audæfe.

Judas sellde Christum fyrer 30. Silfurpeninga; So selia og þeir hinu Agiørnu Guds Naad og Vingan af Christo wtvegada, fyrer stundlega Aura og Rijkedæme. Hvorneñ kañ sa ad laata sig længa til Himnesks Sætleika Gudlegrar Naadar, sem fullur er af Svijna-Drafenu? Hvorneñ kañ sa hia Gude sijna Lysting ad hafa, sem hana hefur i Aud og Rijkedæme stundlegu hier a Jørduñe? Audæfeñ eru eirn

Pyrner,

Þyrner, seiger Endurlausnaren; Þar fyrer, hvør sem hellst elskar Audæfen og Rijkedæme, hañ elskar skadsama Þyrna og Þystla. O! hvad marga Saal nidurkiesia þesser Þyrnarner? Þvi so sem Þyrnarner leyfa ecke Hveitenu upp ad vara hia sier; So nidurkiefur og eirneñ Audæfa Agyrndeñ andlegum Averte Guds Orda; So sem Þyrnarner særa Meñ og stijnga med sijnum Broddum, svo særa og meida Audæfeñ, Mañsins Hugskot med Umsorg og Ahyggiu: Hvørs hefur þu þier añars þa ad vænta eñ þess, ad þu mumer siaalfur eilijflega forganga, ef þu safnar alleina forgeingelegum Fiesioodum og Audæfum?

Þeir sem safna sier Fiesioodum hier a Jørduñe, þeir eru lijker þeim sem ad geyma sitt Korn diupt nidur i Rokum og Vessasømum Jardar Hwsum, þviad aldur eñ þeir af vita, þa er Korned skiemt og fordiarfad. Hvad Heimsker eru þeir og Oframsijner, sem ecke gyrnast neitt añad eñ Jardnesk Audæfe, Þvi hvørneñ kañ sa Jardneske Hlutur ad Hugsvala Saaluñe, sem ad er eirn Aude? Saaleñ er skopud til Eilijfdar, hvar fyrer þu giører heñe

Oriett, ef þu lætur hana eckert aññad gyrnast, eñ þad sem Stundlegt er.

Þess leingra sem þu lypter Saalune til Guds, þess leingra dregst hun fra Gyrnd og Elsku Audæfaña.

Skiepnurnar þær sem næstar eru Himnenum, þær safna sem minstre Atviñu samañ; so sem ad eru Fuglar Loptsins, hvorier hvørke saa nie uppskiera, nie i Korn-Hlødur safna. Mijs og oñur Skrid-Kvikinde hafa Samdraatt og safna til samans i sijnum Holum og Fylsnum, og kiemur þad so til, ad þær Skiepnur eru sijdre i Tegund eñ Fuglarner. Þad er Teikn til ad Saaleñ mune vera fraasnwen fra Gude, og of samlijmd og samrijnd vid Jardneska Hlute, ef ad hun elskar Audæfeñ framar eñ ber. Gud gaf þier Saalena, sem ad er sa dijrmætaste Hlutur, skyllder þu þa ecke trwa hønum til ad hafa Uñhygiu fyrer þijnu Lijkamlegu Lijfe?

Gud fooftrar Fugla Himensins, skyllde hañ þa ecke fooftra þig mykluhelldur, þu sem ert epter hañs eigeñ Mynd skapadur? Gud klæder Liliu-Gros Akursins, skyllder

þu

þu þa efast um̃, hvort han̄ mune vilia klæda þig eda ecke? Gud næde, ad Skilningur Man̄sins og Trwen̄ han̄s, kan̄ ecke ad kien̄a hønum so myked sem Nattwran̄ alleina kien̄er Fuglunum. Fuglarner hvorke nidur saa nie uppskiera, helldur bijfala Gude, og trwa hønum til Foosturs og Forsorgunar sin̄a Lijkama. En̄ þeir Agiørnu trwa ecke Gude og han̄s Orde, utan̄ þeir ædur fyrre forsorge sier siaalfum fyrer Atvin̄un̄e, so trwa þeir sijdan̄, ad han̄ mune gieta þa forsorgad. Saa hin̄ Agiarne er saa allra Oriettvijsaste i Bland allra an̄ara Man̄a, þviad han̄ hafde eckert med sier hijngad i þen̄an̄ Heim, en̄ samt er han̄ þo so athugasamur um̄ Samdrætt Jardneskra Audæfa, svo sem han̄ villde Opriootanlegt Goß med sier burt føra wr Heimenum.

Saa hin̄ Agiarne er saa hin̄ Opacklaataste ad reikna, i bland allra an̄ara Man̄a, þvi han̄ medtekur margt Gott Laan af Guds Hende, en̄ treyster hønum þo alldrei af Hiarta til neins Goods. Saa hin̄ Agiarne maa og lijka reiknast heimskare øllum ødrum Møn̄um, þviad han̄ yfergiesur

giefur þaug riettu og ſoñu Giædeñ, aar hvorra ad eingeñ Hlutur maa riettelega Goodur reiknaſt; Og helldur ſier vid bad ſem i Raun og Sañleika er ecke Gott fyrer utañ Guds Vingan, helldur ſkadlegt. Sãa ſem verdur Herteken af Elſku Jardneſkra Hluta, hañ maa ecke ſeigiaſt Eignar-Herra þeirra, helldur þeir hañs. Agyrndeñ kañ hvorke med Audæfunum, nie med Orbyrgdeñe ad twtſlockvaſt. J Orbyrgdeñe mynkar hun ecke, þvi þeſſ ſijdur ſem Madureñ fær bad ſem hañ gyrneſt, þeſs aakaflegar gyrneſt hañ þad hañ fær ecke.

J Rijkdoomenum kañ hun og ecke helldur ad þverra; Þviad ſo ſem Aurarner margfalldaſt, ſvo margfalldaſt og eirneñ Agyrndeñ, og þeſs meira ſem hiñ Agiarne hefur aflad, þeſs meira gyrneſt hañ ad auka. Og fer Agyrndeñe ecke Olijkt og Elldenum, þeſs meire Breñe-Vidur ſem ad hönum er lagdur, þeſs meir vex hañ.

Agyrndeñ er miøg lijk þeim Vatns-Straum, ſem hefur i fyrſtu lijtel Upptøk, eñ vex ſijdañ af adſkilianlegum Kvijſlum ſem i hañ koma, þar til hañ verdur eitt Ognarlegt og yfergnæfanlegt Flood.

Sett

Settu þar fyrer Aura-Agyrndeñe þiñe Takmark, so hun drage þig ecke nidur i þad Afgruñ, sem eckert Takmark hefur. Marger svelgia þad hier i þessum Heime i Ydur Agyrndareñar, sem þeir verda ad smellta og mellta med sier i Helvijte ad Eilijfu.

Marger lꝏta sig so þyrsta epter ꝏviñingenum, ad þeir hlaupa þar fyrer sioꝏande og vijsvitande i Gløtunena.

Virdtu þetta fyrer þier Sꝏla mijn, og athuga þetta Gaungiæfelega, svo þu fordest Agyrndena. Eckert af þijnu Gotze og Audæfum kantu med þier ad bera til Doomsins, utañ þad alleina sem þu hefur i Guds Nafne Fꝏtækum giefed, fyrer hvad, þo þad sie lijtels vert eda Stundlegt og Fallvallt, þa hefur Christur þar fyrer heited Eilijfu Lijfe þeim hinu Riett-Trwudu. Giefdu þar fyrer þeim Fꝏtæku og Voludu, so þu geymer þier þad til Framtijdareñar, Þviad allt hitt sem af geingur, af þvi sem Fꝏtækum er giefed, þad kiemur ødrum i Hendur, kañ skie þeim sem þu villder sijst. Sw er Agyrndeñ vest, ad lꝏta sier ei nægia med Drotteñ, þa Madur hefur hañ ødlast. J

Raun og Sañleika, vænter sa sier ecke þess Himneska, sem miøg mykels virder þetta hid Jardneska. Hvørneñ skyllde sa wtgiefa sitt Lijf, fyrer siñ Broodur eda Naunga, sem ecke vill veita honum af sijnu Gotze hid minsta þo hañ bidie? Hønd þess Fatæka er ein Himnesk Fiarhyrdsla, þad siñ i hana er lagt, geymer hun a Himnum, so þad eydest ecke a Jorduñe. Vilier þu giøra Gude þad sem hønum vel lijkar, þa giør þu til gooda þeim Fatæka. Þad sem til gooda er giørt Limunum, þar fyrer þackar Høfuded.

Christur seiger til þijn, ad þu skuler giefa sier, af þvi sem hañ hafe lænad þier. Giørdu ødrum til gooda af Guds goodum Gæfum, so muntu gott i stadeñ hliota. Bijttu wt þijnum Tijmanlegum Andæfum, so þu kuñer þeim ad bijhallda, þvi hvør sem of-fast a þeim helldur, hañ tapar þeim. Hlijd þu þessare Amiñingu Christi, so þu þurfer ecke sijdar ad hlijda hañs Avijtum, þar hañ seiger: Fared fra mier Bølvader i Eilijfañ Elld, þviad þier fæddud-mig ei þa eg var Hwngradur, etc.

Ølmusugiøfeñ er so sem eitt Heilagt Sæde: Sæer þu þessu Sædenu Naumlega nidur, þa skier þu og so Naumlega upp, Eñ sæer þu þvi Rijflega nidur, þa skierdu og so Rijflega upp. Vilier þu vera i Tølu Sandaña Christi, so giørdu hañs Sandum til gooda. Lættu þier Vijte Ridaña sem standa Christo til vinstre Sijdu, ad Varnade verda, hvør ed Fordæmd verda, ecke þar fyrer, ad þaug hafe rænglega fra ødrum teked, helldur þess vegna, ad þau hafa ecke Fæde og Foostur veitt

Christi

Christi Limum. Hneigdu og beigdu vor Hiörtu sañe Eilijfe Gud til þiñar Elsku, og Nꜳungans, fra Agyrndeñe, A M E N.

## Þrijtugasta og Siötta Hugvekia.

Uñ þad, Hvørneñ vared og hꜳttad sie, Riettum og Soñum Kiærleika.

Nettur og Omeingadur Kiærleike Edur Elska, er sꜳ Hlutur sem alla Tijma ꜳ heima hiꜳ þeim Gudhræddu, og ecke kañ vid þꜳ ad skiliast. Eingeñ Christeñ Madur er ꜳn Trwareñar, eñ eingeñ riett Trw er ꜳn Kiærleikans. Þar er vissulega ecke Byrta eda Lioos riettrar Trwar, þar sem ecke er Hite eda Ilur Kiærleikans; Þviad so sem ecke kañ Byrtañ ad skiliast frꜳ Sooluñe, svo kañ ecke Kiærleikureñ frꜳ Trwñe ad skiliast. Kiærleikureñ er sú ytre Hræring og Verkan Sꜳlareñar, sem alldrei wtdeyr nie slocknar, so leinge sem Sꜳleñ lifer Andlegu Lijfe hid iñra. Sie Lijkameñ ꜳn Andardrꜳttar, þa er hañ Daudur; So er og Trweñ daud ꜳn Kiærleikans. Sꜳ heyrer ecke Christo til, sem ecke hefur hañs Anda, eñ sꜳ hefur ecke hañs Anda i sier bwanda, sem ecke ydkar Kiærleikañ, þviad Avøxtur Andans er Kiærleikureñ.

Eitt gott Trie kañ ecke ad þeckiast, utañ af sijnum Avøxtum; So kañ og eingeñ ad verda þecktur fyrer Trwadañ Mañ, utañ hañ hafe Kiærleikañ.

So sem Lijkamans Limer samteingiast og vid Magt halldast Iñbyrdis, fyrer Andañ eda Saalena Mañsins; So samteingiast og eirneñ rietter Limer þess Andlega Lijkama Christi, fyrer Heilagañ Anda, hvør ad er Band Kiærleikans. I Mustere Salomonis var allt yferdreiged og huled, bæde hid iñra og ytra med klaaru Gulle; So byriar og eirneñ ad i þvi Andlega Guds Mustere sie allt forgyllt og yferdreiged, med Kiærleikanum, bæde hid Iñra i Hiartanu, og so lijka hid Ytra i Verkunum. Kiærleikureñ aa ad koma Hiartanu til Medaumkunar vid Nauungañ; Hañ aa lijka ad hræra Hendurnar til ad wtbijta og deyla þeim hinu Faatæku; Þvi hvørt Gagn er ad toomre Medaumkaneñe, ef ecke par raknar af Hendeñe? Eñ þo er ei ytre Utlaateñ Gude þæg nie þeck, utañ þaug kome frañ af riettre Hiartans Medaumkan. Trweñ fær alla Hlute af Gude, eñ Kiærleikureñ wtbijter aptur i

Stadeñ

Stadeñ Naunganum ollu þvi sem hañ fær og hefur. Trwen giorer oß Gude lijka ad Hætte og Tegund. Nu er Gud sialfur Kiærleikureñ, hvar fyrer, ad þar sem Kiærleikureñ audsijner sig ecke hid ytra, þar þarf eingeñ ad meina, ad Gud mune bwa fyrer Trwna hid iñra. Eingeñ trwer saa a Christum, sem hañ elskar ecke; eñ saa elskar hañ ecke, sem ecke elskar siñ Nauñga, þviad elske hañ ecke Naungañ, hvorn hañ sier; Hvorneñ skyllde hañ þa Gud elska sem hañ sier ecke? Saa forlætur sig ecke med soñu Trwnadar Trauste uppaa Christi Velgiorninga, sem skylldugañ Velgiorning vill ecke bevijsa sijnum Naunga. So sem eckert þad Verk maa Gott reiknast, sem ecke fram kiemur af Trwñe; Svo er eckert þad Verk i sialfu sier Gott, sem ecke kiemur fram af Kiærleikanum, þvi Kiærleikureñ er svo sem Fræ og Sæde til allra Mañ-Kosta, og eingeñ saa goodur Avoxtur Verkaña sem ecke vex upp af Root Kiærleikans. Kiærleikureñ er saa Andlege Saalareñar Smeckur, hvorium alleina vel smackar allt þad sem Gott er, og Riettelega heilnæmt Mañen-

um, af Gude ſendt, þar fyrer ſinackar Kiær-
leikanum allur Kroſs og Mootgaangur
vel, Jaa, lijka vel ſiaalfur Daudeñ, þo ad
Holldenu ſmackeſt þeſſer Hluter ſwrer og
beyſker. Skrifteñ ſeiger, ad Kiærleikur-
eñ ſie ſo ſterkur ſem Daudeñ, Jaa, þad
maa vel reiknaſt, ad hañ ſie ſterkare eñ
Daudeñ, þviad þad giørde Kiærleikureñ,
ad Chriſtur gieck fyrer oſs i Daudañ, hvø-
rt Kiærleiks-Verk Daudeñ kuñe ecke ad
hindra, med øllum ſijnum Krapte; So
kiemur eirneñ Kiærleikureñ ſañarlegum
Guds Elſkendum og Aſtvinum, ad gaan-
ga i Daudañ fyrer hañ.

Øll Guds Verk framkoma af Kiær-
leikanum, lijka vel þau, þegar hañ ſtraff-
ar oſſ vegna Syndaña, þar fyrer eiga
og lijka øll vor Verk ad koma fram af
Kiærleikanum til Guds og Naungans.
Gud lætur oſſ ſiaa ſo ſem Speigel og Fyr-
ermyndan Kiærleikans, a øllum ſijnum
ſkøpudum Skiepnum. Sooleñ og øll øñ-
ur Himen-Tungl liooma og lyſa, ecke ſier,
helldur oſſ Møñunum, og ødrum Dijrum
a Jørduñe. Jurternar eru til adſkilian-
legs Lækniſdooms, ecke ſier, helldur oſſ og

vorum

vorum Lijkømum. Lopted, Vøtneñ, Kvikindeñ, og allar adrar Skiepnur, eru Mañenum til Gagns og Gooda. Ad kuña adskilianleg Tungumaal, er til øngrar andlegrar Nytseme Gagnlegt, fyrer utañ Kiærleikañ, þviad soddañ Kuñaatta Tungumaalaña, ef hun er aan Kiærleikans, þa kiemur hun Mañe alleinasta til ad hroosast og dramba þar wtaf, eñ Kiærleikureñ uppbygger og ebler Christnena. Þoott þu viter alla Leyndardooma, ef þu hefur ecke Kiærleikañ, þa stodar þad eckert; Þad kantu ad sia a Dioflenum, hvør ed eckert Gagn hefur af þvi, þo hañ kuñe Leyndardoma ad skilia. Þott þu hefder soddañ Trw, ad þu kyñer Fiølleñ med heñe wr stad ad hræra, eñ hafer þu ecke Kiærleikañ, þa kañ þig þad eckert ad bata, þviad þvilijk Trw þienar alleinasta til þess ad giøra Furduverk, eñ ecke til þess ad giøra þig Saaluhoolpeñ.

Kiærleikureñ er ypparlegre helldur eñ Framkvæmd Dasemdarverkaña, þviad Kiærleikurē er Obrygdanlegt og Eigeñlegt Teikn riettra og saña Guds Barna. Eñ Dasemdar verkeñ ad gieta giort, þad veitest lijka vel þeim hinu Ogudlegu. Til Ein-

Fiskiemur þad, þott þu wtbijter a medal Fatæka øllum þijnum Audæfum, hafer þu ecke Kiærleikañ þar med, þviad Goodgiørdernar hid ytra eru eckert añad eñ Hræsne, ef þær koma ecke fram̃ af Kiærleikanum hid iñra: So eru Lœker Goodgiørdaña, Sauruger og einskis verder, ef þeir spretta og fliota ecke wt af Bruñe Kiærleikans.

Kiærleikureñ er þoleñmoodur, þviad Madur reidest þeim traudlega, sem hañ riett elskar. Kiærleikureñ er Goodgiarn, Þviad sa sem af Kiærleikanum giefur Naunganum sitt Goodviilugt og Elskusamt Hiarta; Hvørneñ skyllde hañ kuña ad neita hønum añara ytre Velgiørningaña, sem laungtum miña eru verder? Kiærleikureñ er ecke Ofundsiwkur, þviad hañ virder añara Laan sem sitt eiged, og gledst af þvi sem sijnu eigeñ. Kiærleikureñ giører eckert Illmañlega, þvi aller ford ast þeim til Miska ad giøra, edur þa ad styggia sem þeir elska. Kiærleikureñ Hrokar sier ecke upp, þviad fyrer Kiærleikañ verdum vier Iñbyrdis Limer a Chrísti Lijkama; Eñ hvørneñ kañ eirn Limureñ

ureñ upp yfer ødrum ad þykiast? Kiærleikureñ siiner ecke ai sier Opiijdt Vidmoot, þvi þad kiemur af Reide, eñ ecke af Kiærleika, hvør ad er so sein Taumur og Stilling Reideñar. Kiærleikureñ leitar ecke epter þvi sem hañs er, þviad hañ sem Madur elskar, hañ sama metur hañ meir eñ siaalfañ sig, og leitar framar hañs Gagns eñ siins eigeñ. Kiærleikureñ verdur ecke til Jlls uppegndur, þviad øll Reide kiemur af Drambsemeñe, eñ Kiærleikureñ helldur sig hvørium lægra. Kiærleikureñ þeinker ecke Jllt, þvi þeim sem vier hugsum Jllt, þa kuñum vier ecke kiæra ad hafa. Kiærleikureñ gledur sig ecke yfer Ranglætenu, þviad hañ fiñur til añara Synda, so sem þær a siaalfum hønum læge. Kiærleikureñ umliijdur allt, Truer øllu, vonar allt; Hañ umber, allt þvi ad þad sem Kiærleikureñ vill laata sier giøra, þad giører hañ og eirneñ ødrum. Tungunaalunum mun liña, og Spaadoomunum mun slota, og Spekeñe hætta, eñ Kiærleikureñ mun alldrei afmaadur verda, helldur þad sem aavantar hier i Heime, þad mun vid hañ aukast i ødrum Heime, so

ad hañ verde þar algiørdur og fullkomeñ. Gud ſkipade ad þar ſkyllde gioraſt Tvø Altare i Tialldbwdeñe, og ad Ellldeñ ſkyllde taka af þvi fremra, og bera hañ iñ a þad iñra. Altare þeſſe tvø merkia tvøfalldañ Hoop Guds Barna. Añar er hier ſtriÿdande a Jørduñe; Eñ añar Sigre hrooſande a Himnum: So verdur og Ellldureñ Kiærleikans fluttur fra þeſſum Hoopnum ſem a Jørduñe ſtriÿder, og til hins ſem þar uppe fagnar.

Hugſadu hier um̃ Saala mijn, og Kappkoſtadu ad halllda Kiærleikanum. Hvørneñ ſem þiñ Naunge er a ſig komeñ, þa er hañ þo ſa hiñ ſame, ſem Chriſtur hefur virdſt ad deya fyrer; Þvi ſkyllder þu þa ſynia þeim hinum ſama lijtels Velgiørnings, ſem Chriſtur lagde ſitt Lijf wtfyrer? Ef þu elſkar Gud riettelega, þa hatar þu viſſelega ecke hañs Jmynd. Vier erum aller eirn Andlegur Lijkame, þvi ber oſs øllum ad hafa eina Andlega Saal. Þad er ecke tilheyrelegt, ad þeir ſkule lifa i Sundurþycke hier a Jørduñe, ſem til ſamans eiga ad bwa ſijdar a Himnum. Med þvi vier vilium aller vera ſamhuga i þvi ad

Trwa

Trwa a Christum; Þvi skulum vier þa ecke Jñbyrdes samhuga vera. Vier erum aller Þienarar eins og hins sama Herra, hvar fyrer ecke er Riettviist ad vier skylldum knurra vor a mille, edur vera Osambycker. Sa Limur a Lijkamanum er daudur sem ecke fiñur til þess sem Meinlegt kañ ad vera ødrum Limunum; So þarf og eingeñ sa ad meina sig ad vera andlegañ Lim a andlegum Christi Lijkama, sem ecke lætur sier til Hiarta gaunga þad sem hañs Naunga sturlar edur skadar.

Eirn Gud er Fader vor allra, hvørn vier og eirneñ nefnum vorn Fødur Daglega, epter þvi sem Christur hefur kient oss, Eñ hvørneñ skyllde Fadereñ þeckia þig fyrer siñ eigeñlegañ Son, vilier þu ei þeckia hañs Børn fyrer þijn Systkin? Oss ber Meñena ad elska, epter Guds Bodorde. Sieu þeir Verduger þeirrar Elsku, þa lætum oss þa þar fyrer elska, ad þeir eru þess verder, Eñ sieu þeir þeirrar Elsku Overduger, þa lætum oss þo samt elska þa, og lætum þad rijkia i, ad Gud er þess Verdugur, ad vier hlijdum hønum. Elsker þu þañ þig hatar, þa audsijner þu þar med ad Gud elskar þig, Reiknadu ecke so til þess, hvad Meñerner giørdu þier, so sem til þess, hvørneñ þu hagier þier, og hafer hagad a moote Gude. Acktadu ecke so uppa þad, hvad þiñ Ovinur giører þier Raangt til, so sem uppa þad, hvad myked Gott sa hafe þier giørt alla Daga, sem hefur skipad þier, þu skuler elska þiñ Ovin. Vier erum Naungar hvør añars Jñbyrdes, Med þvi vier erum af somu Verkesnum, og eins til komner i Heim-

eñ aller samañ, eñ Brædur og Systur erum vier þvi Iñbyrdes, ad aller vier væntum oss jafnt þessarar Himnesku Arfleifdareñar: Sicaum þar fyrer til vier elskum hvør añañ. Upptendra þu i oss goode Gud og elskulege Fader, Elld Kiærleikans og sañrar Elsku i þijnum Heilaga Anda, AMEN.

# Prijtugasta og Siounda Hugvekia.

Hvørneñ Meñ skulu ækstunda Skijrlijfed og Tucktugt Lijferne ænn Losta-Saurgunar.

SA sem vill vera HErrans Christi riettur Læresveirn, hønum ber ad stunda uppaa heilagt Skijrlijfe og Hreinlijfe. Gud er eirn skijr og hreiñ Ande, hvar fyrer hañ vill med skijrlijfum Bænum, þad er, af skijrlijfu Hiarta wtkomuum dyrkadur verda. Eirn af þeim Gømlu og Vijsu sagde, ad Helgun Saalareñar og Skijrlijfe Lijkamans, sieu Tveir Lyklar Gudrækneñar og Farsælldareñar. Nema so sie ad Lijkameñ verde geymdur hreiñ og Oflecka dur fraa Lostaseme og Saurlijfe, þa kañ ecke Saaleñ alvarlega nie iñelega ad bidia siñ Skapara. Lijkamer vorer eru Mustere H. Anda; Hvar fyrer vær ættum vel ad varast, ad taka ecke Lime Christi, og giøra þa ad Limum Hoorunar.

Laatum oss stunda til ad hallda oss vid

Gud Drotteñ vorn med Trwñe og Skijrlijfenn, so vier verdum eirn Ande med honum, eñ fordunst ad hallda ofstil Hoor-Kveñaña, so vier verdum ecke eitt Holld med þiñ. Þeir i Sodoma Borg urdu slegner med Blindne af DRottne, Jæ, bæde med Lijkamlegre og Andlegre Blindne, sama Straff geingur eñ nu i Dag yfer alla þa sem i Saurlijfenu lifa; Þeir siaa ecke Fegurd þess Edla Brwdgumans vors aa Himnum; Eñ þeim sijnest of-fagurt AndlitLausa-Kveñaña, sem þo er andstyggelegt bæde fyrer Gude og ollum Moñum. Saurlijfes þeirra i Sodoma Borg var hefnt med Ellde og Breñesteine, sem DRotteñ liet nidur rigna af Himnum yfer þa; So upptendrar og eirneñ Gud Gyrndar-Bruna Oleifelegrar Elsku med Eilijfu Baale Helvijtskra Kvala, hvort Baal alldrei wtslocknar, helldur uppgeingur Reikur þeirra Kvala uñ allar Allder Eilijfdareñar.

Ut af þeirre Heilogu Jerusalem sem þar uppe er, eru wtelucfter Hundarner, þad eru þeir Saurlijfessomu.

Christur hefur oss þveiged i sijnu Dijr-

 mæta

mæta Bloode, i Skijrnar-Laugeñe, hvar fyrer vier ættum med allre Astundan ad varast, ad vier kvoludum oss ecke aptur i andstyggelegum Saur Lostasemeñar. Þeir allra Ogudlegustu Skalkar skamast sijn þess Hattar Glæpe ad fremia i añara Maña Augsyn, hvar med ad þeirra Nattura, er þeim sem añar lifande Predikare uñ Andstygd þeirrar Syndar.

Skylldum vier þa ecke skamast vor mykłu framar i Guds Augsyn og hañs Heilœgu Eingla, soddañ Synd ad fremia? Hvørke Mwr-Vegger nie nockur Afvik kuña Mañe ad skijla fyrer Guds Auglite og hañs Augum, sem eru skiærare eñ Soleñ. Eingeñ Fylsne nie Leyne, kuña wte ad byrgia Samvitsku Mañsins, Ecke helldur wte ad loka Vardhallds-Einglana; Eru þad ecke Tveir orugger Vottar, þegar Einglarner og Samvitskañ gaanga fram og vitna a moote Mañenum. Þad er furdanlegur Hlutur, Hvørsu ad Gyrndarbruneñ Lostasemeñar baalast allt upp i Himeneñ, og fyrer Guds Augsijn, þar heñar illalucktande Andstygd leggur allt nidur i Helvijte. Þesse skamviña Vellysting,

leider

leider epter sig eilijfa Synd og Kvaler. Lystingen̄ sem Naatturuna kitlar, varer um̄ eitt Augnablik; En̄ Kvalernar sem su kitlande Lyst forþienar, vara um̄ alla Eilijfd. Þar fyrer skyllde Min̄ing þess Krossfesta JEsu, Krossfesta i þier og þijnu saurugu Hollde soddan̄ saurugar Gyrnder, og Umþeinking þess eilijfa Helvijtska Ellds, nidurslockva Gyrndarbruna Saurlijfesins. Taar Ydranaren̄ar kun̄a best ad wtslockva Ofurhita Holldlegrar Fysne, og Elsku Holldsins deyfer best Otte Drottens. Giætttu þar ad, hvørsu Losta-Girnden̄ er full med Hugsijke og Osin̄u, hvørsu ad Lostasamur Verknadur er skam̄arlegur og fyrerlitlegur, og hvørsu han̄s Endalykt er vanvirdugleg. Athuga þu ecke þad blijdlega Alit Diøfulsins, þegar han̄ vill teigia þig til Losta-Gyrndaren̄ar, helldur han̄s banvæna Hala, med hvørium han̄ stijngur þig i Hiarta og Samvitsku, þegar Saurlijfes Gyrnden̄ er fram̄kvæmd.

Hugsadu ecke svo um̄ þan̄ stutta Tijma, aa hvørium ad Gyrnd Holldsins varer, so sem um̄ þan̄ eilijfa Opriootanlega Tijma, aa hvørtum slijkrar Holldsins Lystingar verdur hefnt.

Astund-

Astundadu ad uppfrædast i Skilninge Gudlegra Orda, og þa munu þier synast liooter Lester Holldsins.

Taktu þier alltjafnt nockud fyrer Hendur ad ydia, þviad i Ozu og Idiu kan Freistaren ecke so æ þig ad orka. Þegar David var eckert ad giora, og han leit ut af synum Lyste-Sal, þa gat Diøfullen sviked han; En æ Joseph gat han ecke uned med Lostasemenar Snøru, þviad han var alldrei Idiulaus. Settu þier fyrer Siooner so sem æ þeirre og þeirre Stundu, þa og þa, mune Dauden koma, og so mun þier vissulega minna finnast koma til Holldsins Epterlætis. Elskadu Sparseme i Mat og Dryck, og þa verdur þier hægast ad stan da æ moote Losta-Gyrndene.

Þegar Biwkuren er varmur af æfeing um Dryckium, þa plagar af þeim Varma ad tendrast Brune Oleifelegrar Elsku. I Sælgiæte Holldsins plagar Skijrlijfenu ad vera hætt og vanfared; Hvar fyrer, Ef þu foostrar Hollded med ofmyklu Sælgiæte og Munadarlijfe, þa elur þu þar og fostrar þinn daudlegan Ovin. Minstu þar fyrer ad næra so Hollded, ad þad

gleym=

gleyme ecke ad þiena og vera undergiefed Andanum, og ad temia þad, so þad verde ecke of fram̄ swst og Odœllt. Settu þier fyrer Sioøner Skielfing og Ognan þess seinasta DRottens Dooms, þar med giet-ur þu slœckt og dempad Helldsins Gyrnd-ar-Bruna.

A þeim Deige munu Openberast heim-ugleg Verk Lijkamans, Men̄ verda þa Reikningskap ad standa af hvøriu Onijt-is-Orde; Hvad myklu strœngare Reikn-ingskapur mun þa verda heimtur, af saur-ugum og Klœmlegum Ordum? Verde Men̄ ad giøra Reikningskap af Klœm-legum Ordrœdum, Hvad myklu framar munu þeir þa verda ad standa Reikning-skap af nijdlegum og hœduglegum Losta-Verkum? Po oss fyrnest yfer Nijdugleika Lostasemenar hier i Heime, af þvi vier ha-na sijfellega (kan̄ skie) ydkum, þa verdur hun þo i fersku Min̄e, þegar Gud kallar fyrer Doomen̄, hia þeim sem ei fyrre ad si-er sied hafa. Hvar til stodar þad þa, þo ad eitt Saurlijfe sie huled og duled fyrer Møn̄-unum um̄ nockra Stund, med þvi þad ve-rdur fram̄leidt fyrer Augu og Asijnd allra

Man̄a

Maña a Dege Doomsins? Hvørt Gagn giører þad, þo þu komest undañ Jardneskum Doome, þad fyrst þu kant ecke ad flyia undañ þeim Himneska Doomenum? Sa Himneske Doomareñ lætur sig ecke kreinkia med Mwtum nie Gæsum, svo hañ þar fyrer halle Riettenum; Þviad hañ er sa allra Riettsijnaste og Riettvijsaste. Hañ vijkur ecke af Riettenum fyrer nockra Boon eda Beidne, þvi hañ lætur sig af øngvum ysertala, og er eirn stræingur Doomare. Undañ hañs Løgsøgn kantu og ecke helldur ad flija, þvi hañ er Allsheriar Doomare. Þu kant ecke med Fegrunar Afbøtun þiña Mæalefna þeñañ Doomarañ ad blinda nie bleckia, þviad hañ er sa allra vijsaste Doomare. Þu gietur ecke undañ hañs Dooms Alycktun Appellerad þitt Mæal, þviad hañ er sa allra hæðste Yfer-Doomare.

Strax sem þesse Doomareñ grenslast epter nockru, so kieñur fram Sañleikureñ. Sem hañ Openberar nockud, svo verdur þad øllum augliooſt, og sem hañ æalycktar nockud, þa hefur þad strax sijna Framkvæmd.

Lattu þier þar fyrer Saala mijn stan-da Ugg og Otta af þessum straanga Doo-maranum, og þa mun ecke su kitlande Gyrnd Loſtaſemeñar gieta þig sviked.

Vertu Rooſa Kiærleikans og Lilia Skijrlijfeſins. Lærdu af Christo þijnum Brwdguma Lijtelæted; Lærdu og lijka af hønum Skijrlijfed. Miøg Tignarlegt og Ypparlegt er Skijrlijfed, hvørt ad Herrañ Christur hefur vijgt og helgad, ſæmt og tignad i ſijnum helgaſta Lijkama. Miøg tignarlegur Hlutur er Skijrlijfed, þvi þad lætur Mañ ſem i Holldenu lifer, lifa fyrer utañ Hollded.

So ſem eingeñ Hlutur er Forſmaanarlegre og Mijnkunarlegre eñ ſa, ad verda yferuñeñ af Holldenu; So er og eingeñ ædre og Vegſamlegre eñ ſa, ad yferviña Hollded og Holldſins Gyrnder. Meñ eiga ecke alleinaſta þa ytre Saurgun Saurlijfeſins ad fordaſt, ſem ſkiedur i Verkunum, helldur og eirneñ þa iñre, ſem ſkiedur i Þaunkum og Hugferde Mañſins Hiarta, þviad ecke dæmer Gud ad eins yfer ytre Verkunum, helldur og eirneñ yfer þeim iñre Þaunkum og Hugreñingum. So ſem

sem med Illwdlegu Yferbragde skadast Kiærleikureñ, so skierdest og eirneñ tijdt og opt Skijrlijfesins Dygd med Gyrndarsømu Augnaña Tillite;Þvi so seiger Sañleiksins Muñur: Hver sem lijtur til eirnrar Kviñu, so hañ gyrnest hana, hañ hefur alla reidu med heñe drygt Hooran i sijnu Hiarta. So sem nu ad torvellt er, ad standa a moote þessum Leste ; So Vegsamlegt er ad sigra hañ og yfer viña, hvørium sem þad verdur af Gude veitt. Þad er vijst torvellt ad wtslöckva Gyrndarbruna Lostasemeñar, þvi hun kveikest i Hiarta Æsku Alldursins, upptendrar þa enu Fullordnu, og lætur ei helldur i Fride þa enu Gømlu, og sem hun foracktar ecke ad nema sier Stadar i Hreisum þeirra Faatæku ; So skamast hun sijn og ecke helldur ad vera Giestur i ypparlegum Herbergium þeirra Volldugu. Eñ svo sem hier er stoor Vande a þessu Strijdenu ad hallda þad riett, og verda ecke sigradur; So stoor Vegsemd er þad ad viña Sigureñ a þessum Leste, og standa hañ af sier. Vier eigum ad bera oss ad wtslöckva strax þañ allra fyrsta Neysta Gyrndareñar, sem i Hiartad kiemur, so ad

Ellds-Matur, eda Tundur illra Pœnka safneſt ecke ad þeim Neiſta, og verde uñ ſijder eitt Logande Baal.

Poſtuleñ ſkipar oſſ ad ſtrijda a mote øllum ødrum Loſtum, Eñ Loſtaſemena helldur hañ ſo Andſtyggelegañ Loſt, ad ecke ſie Hættulauſt ad ſtrijda vid hana, og ſkipar oſſ þvi, ad flija fyrer heñe, og fordaſt heñar Nalægd. Uñſlijed (ſeiger hañ) Saurlijfes Gyrndena: Þviad Gyrndeñ hun kiemur til vor, ſo ſem eirn ſa Purſa-Madur, ſem ſijner a ſier, hañ munde lijted uñ ſig hafa þo hønum være Hws lanud, Eñ komeſt hañ iñ i Hiartad, þa giører hañ ſig ſtrax ad diørſum Gieſt, og ſijdañ ad Hws-Raadanda, ſo ad hañ giører hañ ad ſijnum Præl uñ ſijder, ſem hønum nockurn Tijma lofade iñ i ſitt Hiartans Herberge. Eñ hitt er Raaded hollaſt, ad laana hønum eckert Hws, þvi ſynie Madur hønum i fyrſtu, ſvo geingur hañ fraȝ hia hønum, og leitar ſier upp añañ, ſem hañ kuñe ad ſvijkia: Þar fyrer, vilier þu ecke laata heñañ Ovin yfer þier drottna, þa veittu hønum ecke Vidtøku i þijnu Hiarta. Bardveittu oſſ DROtteñ Myſkunſemdaña, i Hugſkotſins Heilagleika, og Lijkamans Skijrlijfe og Hreinleika, Añ.

## Prijtugaſta og Attunda Hugvekia.

Uñ þad, Hverſu Fallvallt og Oſtødugt adþetta vort Lijf ſie.

Hyrdtu fyrer þier Saala mijn, Eymd þeſſara Lijf-Daga, hvad hrapallega þeir lijda, ſo ad Hiarta þitt lære ad hefia ſig upp ur Hiegooma Stundlegra Hluta, og gyrnaſt ſijna Fødurleyfd a Himnum. Þeſſu Lijfe er ſvo vared,

ad þess meir vid þad legst af Tijmanum, þess meir stittest þad, og þegar Lijfdagarner eru marger komner, þa fæcka þeir vid þa Mergdena, þad er so sem ein lijtel Stund aller vorer Lijfdagar, og þo miña eñ ein lijtel Stund; Þvi fyrr eñ vier kuñum ad sia oss uñ, þa eru þeir uñlidner, og Eilijfdeñ fyrer Høndum.

Vier erum i þessu Lijfe svo sem Giester og Pilagrijmar. Abraham hafde ecke Fordum eigeñlegañ Bwstad, eda eigeñlegt Heimele a Canaans-Lande, eñ eirn Leg-Stad atte hañ þar og hañs Erfingiar, hvørn hañ hafde sier keypt. So er og þetta Lijf, eigenlega so sem vor Dauda-Stadur og Greftrar-Stadur, og so sem añ ad Pilagrijms-Herberge. Upphaf vors Lijfs, þad er og so Upphaf til Daudans, þvi strax sem Lijf-Dagarner eru a Enda, so er Daudeñ þar hia, og filgest ad med þeim Seinasta Deige Doomsins.

Lijf-Dagar vorer þesser eru lijker eirnre Siglingu; Saa sem sigler, hvort helldur hañ Stendur, Situr eda Liggur, þa nalgast hañ alltiafnt eins Høfnena sem hañ sigler til, og hañ ber þar ad Lande, sem Bygñ

reñ fleyter hønum. So fer oss og so a þessum Lijf-Døgum og Lijfs-Stundum, hvørt vier Sofum eda vier Vøkum, hvørt vier Liggium, Sitium eda Gaungum, hvørt vier vilium eda ecke, þa nalgunst vier alltijd Stund fra Stundu, meir og meir, Ending Lijf-Dagaña vorra. Þetta Lijf ma helldur reiknast Daude eñ Lijf, þviad vier deyum burtu Daglega, og Daglega eydum vier nockru af voru Lijfe. Þetta Lijf er fullt af Sorgum, fyrer þad sem umlided er, fullt af Omake og Erviðismunum, vegna þess sem nalægt er, fullt af Ugga og Otta, vegna þess sem Okomed er. Jñgangur til þessa Lijfs, er hrryggelegur; Þvi ad Kvein og Vein er Fyrsta Hliood Ungbarnsins, sem i Heimeñ verdur fædt, og er ecke Olijkt þvi ad reikna, svo sem ad Ungbarned mætte fyrer-sia alla þa Eymd og Oluckru, sem a epter kiemur. Lijfed sialft er sijdañ veikt og Ostyrkt, a hvørt marger Kvillar og Sootter vilia strijda, og margar Uñhyggiur Onada og kvelia. Burtføreñ er hrædeleg, þviad þegar vier verdum burt kallader, þa førum vier ecke einersamler wr þessu Lijfe, helldur

 fylgia

fylgia oss øll vor Verk, og i giegnum Dauď añ gaungum vier fram fyrer Dom-Stool DRottens. Gietnadur vor er saurugur og Ohreiñ af Syndeñe. Fædingeñ aum og Eymdarfull. Lijfed Eymd og Strøffun. Daudeñ Kvøl og Preinging. Vier skøpustum fyrst i Moodur-Lijfe, midt i millum Saurendaña; Vier nærustum þar midt i Myrkrunum, og vier ytleidustum þadañ med Soott og Kvalræde. Vier erum Pyngsl vorra Mædra fyrer Fæding ena, eñ þeirra Kvøl og Daude ad reikna i Fædinguñe. Þegar vier fæduftum fyrst, þa erum vier svo sem Giestkomande i þeññ Heim; Eñ æ medañ vier dvelium hier, þa erum vier so sem Leigulidar, þviad hiedañ verdum vier oss aptur ad flytia, fyrer Daudañ, þa Kalled kiemur.

Vor fyrste Alldur veit hvørke ad seigia af Goodu nie Illu, þvi hañ veit ecke Greinarmun þar a mille ad giøra; Mid-Alldureñ vor þiaæst af Sorg og Omake, eñ Elle Alldureñ af Pijngslum og Soottum Alldurdoomsins. Allur Tijme þessa stundlega Lijfs er añadhvørt umlideñ, nærverande, eda Okomeñ, sie hañ umlideñ, hvad er

er hañ þa ad reikna utañ ecke par? Sie hañ nærverande, þa er hañ fallvalltur, eñ sie hañ Okomeñ, þa er hañ Ovíſs. J vorum Uppruna, þa erum vier eckert añad eñ rotted Sæde. A medañ vier hier lifum, ecke añad ad reikna eñ so sem Vatns-Boola, þegar vier deyum, ecke añad eñ Orma og Madka Fæda. Jordena erum vier i voru Hollde, Jordena trodum vier, og ad Jordu verdum vier. Þar fyrer er þad, þo vier verdum ad fædaſt, aumur og audvirdelegur Hlutur, þo vier verdum hier ad lifa, ecke añad eñ Sorg og Armæda; Og þegar vier verdum hier vid ad ſkilia, ecke añad eñ Kvogun og Þreinglug. Lijkameñ vor er eitt Jard-Hws, i hvøriu ad bwa Synd og Daude, hvørier Jñbyggendur þetta arma Hreyſe daglega nidurbrioota og nijda.

Allt vort Lijf er eitt andlegt Strijd; Oviad uppe yfer oſs i Loptenu aaſækia Dioflarner, og villa oſs fordiarfa; A Hægre og Vinſtre Sijdu Heimureñ; Hid nedra ſæker ad oſs Helvijte; Og hid Jñra ſiaalft Hollded og ſpillt Naattura.

Mañſins Lijf maa reiknaſt eitt Strijd,
 þvi

þvi þar Glijma æavallt Saal og Lijf til sã mans, og vill sitt hallda hvort. Hvar skyllde Madur þa taka Glede og Roosemd í soddañ Styrlolld? Skylldu nockrer nærverande Hluter gieta oss gladt eda forlyst-ad, med þvi ad aller Tijmanleger Hluter hafa sijna Ending um̃ sijder, eñ hitt sem Okomed er, hefur ongva Ending, þegar þad hefur feinged sijna Ending, sem vier elskum og hitt kiemur nær og nær sem vier Ottunst. Ecke faaum vier añad Gagn eda Abata af longum Lijfdogum eñ þetta, ad vier drijgum þess fleira Vondt, og siaaum uppa þess fleira hormulegt, og lijdum þess fleira Ogiedfellt sem vier lifum leingur, þad hofum vier i Abatañ af longum Lijfdogum, ad Aflogun Syndareñar verdur þess þijngre og stærre, sem vier leingur lifum. Hvad er Mañsklepnañ ad reikna? Hun er Prœll Daudañs, rækande Pilagrijmur, veikare eñ Vatns-Boola, og skam̃viñare eñ Augnablik, fællijtare eñ Skugge, og Hiegoomlegre eñ eirn Raddar-Hlioomur, Brothættare eñ Gler, um̃breytanleg sem Vindur, og Ovissare eñ Draumur. Hvad er þetta Lijf ad reikna? Þad

er Epterbijding epter Daudanum; Haf Eymdaña, ein lijtel Blood-Bladra, hvoria ad eitt lijted Fall eda Tilfelle kañ ad spreingia, og ein lijtel Soott ad fordiarfa. Aefeñ vor frañ epter maa reiknast so sem Volundar-hws, ū i hvort vier gaungum strax wt af Moodur-Lijfe, og raafum þar villter, þar til vier fiñum fyrer oz dyr Dauðans. Þessi Lijfe er so hætt siñ Glere, þad lijdur so fliott sem Vatns Straumur, og er Onaadasamt so sem añar Bardage, edur sijfelld Orusta, samt lijst þad mørgum miøg girnelegt. Þetta Lijf sijnest so sem ein vegsamleg og dijrmæt Nyt; Eñ uppliwker þu þessare Nyteñe med Hnijfe Sañleiksins, þa muntu siaa ad þar er ecke añar Klarne iñe fyrer, eñ Madkar og Forrottnan. J krijngum þañ Stad sem Sodoma og Gomorra hafa nidursocked, er skrifad ad vare miøg dægeleg Eple Asijndum hid ytra, eñ sie a þeim teked, þa gropna þau, og eru ecke þar utañ Reykur og Hiegoome hid iñra; Þessum eplum er miøg lijk stundleg Velgeingne þessa Lijfs, hvor ed fogur er Asijndum ed ytra, eñ sie hun gaumgiæfelega ransøkud, þa sier Madur ad hun er i

Raun og Saũleika lijkust Reyk og Dupte
Settu þar fyrer ecke Saala mijn alvarlega þijna Paanka til þeſſa Lijfs eda til þeſſ ſem i þeſſu Lijfe kaũ ad vera, hélldur til þeſſarar Epterkomande Gledeñar. Verdu ſamaũ þeñaũ ſtutta Tijma ſem oſs er giefeñ ad lifa i þeſſium Heime, vid þa Oprlootanlegu Eilijfd, og ſo mun þier hægt verda ad dæma, hvad Heimſkulegt ad þad er, ad hallda ſig vid þetta Stutta og Fallvallta Lijf, eñ gleyma þvi eilijfa og Oendanlega Lijfenu. Þetta Lijf lijdur flioott, eñ ſamt ſem aadur þa aũadhvort odlunſt vier þad eilijfa Lijfed aa þeſſum flioottlijdande Lijf-Stundum, ellegar og ſo miſſium vier þad. Þetta Lijf er miøg aumt, eñ ſamt þa aũadhvort naa Meñ þeirre eilijfu Farſæl'deñe i þeſſu Lijfe, eda þeir ſleppa heñe. Þetta Lijf er miøg Armæduſamt, eñ ſamt aũadhvort naaum vier eda ſleppum þeirre eilijfu Rooſemd i þeſſu ſo Armæduſulla Lijfe. Þar fyrer, ef þu gyrneſt ad naa þvi eilijfa Lijfenu, þa leitadu epter þvi af øllu Hiarta, i þeſſu Stundlega og Fallvallta Lijfenu. Vrwkadu þeñaũ Heim þier til Stundlegra Nota, eñ laattu ſamt
Hiarta

Hiarta þitt ecke vid hañ festast. Haf þu þijnar Hondlaner hier i þessu Lijfe, eñ laatt tu ecke Saalena þijna, nie Saalarenar Paanka festa sig of-miøg vid þetta Lijf. Medferd aa Veralldlegum Hlutum skadar Mañ eckert, ef ad Hiartad elskar þaa ecke of-miog. A Himnenum er vort Fødur-Land; Eñ hier i Heimenum Giesta-Herberge; Laattu þier þar fyrer ecke svo þocknast þetta Giesta-Herberged, þo þu meiger þar vera so sem uiñ eina Dag-Stund ad reikna, ad þu laater þad þig burt tæla eda draga fra Gyrnd og Epterlaangan þess Himneska Fødurlandsins. Þetta Lijf maa reiknast so sem Siaafar-Haf, eñ þad eillijfa Lijf maa lijkiast vid Høfn þessa Hafsins. Hvør villde nu so bernskur vera, ad hañ villde viña þad til eirnrar fliootlijdande Logn-Stundar a Hafenu, ad missa þa eillijfu og Uggalausu Fridar-Høfn eillijfrar Farsælldar? Þetta Lijf lijdur fliott, og þo ad nockur elske þad, þa seinkar þad sier þo ecke þess vegna, helldur flijr þad fra honum; Þegar minst Vonum varer; Þvi skyllder þu þa vilia trwa þvi, med þvi þad er svo fallvallt? Þad er hin stærsta Hætta og

Vogum, ef þu dirfeſt a eirnre hiñe minſtu Stundu ad vera Uggalaus uñ þig, þvi til kañ ad bera, ad a þeirre ſomu Stundu, ſo lijtel ſem hun er, meige Daudeñ Endingu giøra a þijnum Lijfdøgum. Eñ hitt er þar fyrer Hættu minſt, ad vænta ſier Daudans a hvørium Tijma, og a hvørre Stundu, og ad bwa ſig þvi under hañ med riettare Ydran jafnlega.

Gud ſkickade eirn Orm ſem ſtijnga ſkyllde Gras-Lundeñ ſem uppvogs yfer Høfud Jonæ Spamañs, af hvørium hañ hafde ſtoorañ Føgnud, og þootte miøg vænt uñ hañ, og Lunduren̄ uppviſnade og þornade, So hefur Gud ſent Orma Foreydſluñar i alla ſtundlega Hlute, ſo ad þeir ſkule uppeydaſt og ad aungvu verda, hvørſu vænt ſem marger læta ſier uñ þa þykia. So ſem þar fyrer gott er ad bloomgaſt med Heimenum Bloomlegum, So er illt ad tapaſt med Heimenum Topudum. Drag þu vor Hiørtu HErra JEſu Chriſte fra Elſku þeſſa Heims, og upptendra i oſſ Gyrnd og Epterlængan til þeſſ Himneſka Rijkeſins, Amen.

## Pryſtugaſta og Nijunda Hugvekia

Uñ þad, Hvad Hiegoomlegur og Fænijtur Hlutur ad Verølldeñ ſie.

Elſkadu ecke Saala mijn, neitt af þvi ſem i Heimenum er, þvi Heimureñ mun fyrerfaraſt, og aller þeir Hluter ſem i hønum eru munu med Eillde uppbrender verda.

Eñ

Eñ hvar være þa þijn Elska? Elskadu helldur þaug eilijfu Giædeñ, svo þu meiger Eilijflega lifa.

Oll Skiepna er Hiegoomanum under giefeñ, saa verdur og eirneñ Hiegomlegur sem Skiepnurnar of-miøg elskar. Elska þu þañ stadfasta Ofallvallta Gooda, svo ad þitt Hiarta verde stadfast og Ohvikullt.

Laattu þier ecke of-vænt þykia uñ Veralldlega Hefd eda Metord, þvi hvør sem of freklega gyrnest epter Metordum hiaa Moñunum, hañ kañ ecke Tignadur ad vera af Gude. Saa sem leitar sier epter Veralldlegre Tign og Virdingu, hañ verdur ad haga sier og hegda epter Veralldareñar Vijsu, og ad þocknast Verølldeñe, eñ hvør sem Verøllduñe þocknast, kañ ecke Gude ad þocknast. Pad er allt skañvint og forgeingelegt, sem vier ødlustum af skañviñum og forgeingelegum Hlutum, hvar fyrer ad Veralldlegur Heidur og Hefd, kañ ecke añars eñ skañviñ ad vera; Pad skiedur opt, ad saa sem aa ødrum Deigenum er af Heimenum upphafeñ med Heldre og Virdingu, allt i Himeniñ, ef seigiast mætte, hañ er añars Dags þar

epter,

epter, af Heimenum mest Foracktadur, Smaadur og Hrakeñ.

Stundadu til ad þocknast Drottne, þvi þad alleina er riettur Heidur og Vegsemd, sem hañ velter sijnum Elskendum, og hañ bregdst nie dvijnar alldrei. Hvørneñ kañ Madur ad vera betre þar fyrer, þo hañ sie i myklum Vyrdingum hallden af Mønnum? Epter þvi sem Guds Auglit vyrder hañ, epter þvi er hañ i Raun og Sañleika verdur. Þegar Gydingarner leitudu vid ad hondla Christum, og giøra hañ ad Konge, þa flwde hañ; Eñ þegar þeir leitudu hañs, og villdu hondla hañ under þa Smæanarlegu Kvøl og Dauda, þa gieck hañ siælfvilluglega wt a moote þeim. Villier þu nu lijkiast Christo, þa ber þier helldur ad wtvelia Fyrerlitning Heimsins, helldur eñ hñs haafva Vegsemd og Lofstijr. Sa siñ ecke vill vegna Christi, foracktа Veralldlega hefd og vegsemd; hvørneñ skyllde hañ setia sitt Lijf wt fyrer Christum? Þar er eingeñ añar Vegur til ad ødlast þa riettu og søñu Vegsemd, eñ sa alleina, ad foracktа Veralldareñar Vegsemd; Hvad Christur oss sijner med sijnu Epterdæme, hvør ed i gleg-

num Fyrerlitning siñar Pijnu og Kross-ens Dauda; Iñgieck i sijna Dijrd. Laattu þier þar fyrer vel lynda, þoott þu siert fyr-erliteñ, lijtels acktadur, og ad Hæde og Spotte hafdur hier i Heime; Væntande epter þeirre eilijfu Æruñar Koronu añars Heims. Hvad vier skulum dæma og hallda uñ Tign og Vegsemd þessarar Ve-ralldar, þad sijner oss Christur liooslega med sijnu Framferde. Honum þioonar oll Dijrd Himnaña, hañ er sialfur su saña Dijrdiñ og Vegsemdar Lioome, eñ alla þessa Dijrd hullde hañ þo og falde i sijnu all-ra heilagasta Lijtelæte, þar hañ uñ gieckst hier a Jordune; Hvar fyrer i þess meire Veg og Vyrdingu sem Madur er i þessum Heime, og þess meire Nægd sem hañ hefur af stundlegum Hlutum sig vid ad stydia, þess iñelegar og Hiartanlegar mꜹ hañ hryggiast, þviad þess siær er hañ Lijkingu sijns Endurlausnara JEsu Christi, hvor ed forsmꜹdur var og vid eckert Tijman-legt ꜹtte sig ad stydia hier i Heime. Til lij-tels kiemur Lofstijr sa sem vier fꜹum af Moñunum, ef ad ill Samvitska aklagar hid iñra; Þad er ecke Olijkt þvi, og ef ad ei-

rn siukur Madur være nidurlagdur i eina dijrmæta Sæng, hvi þad stodar hañ lijted ad liggia i heñe, og skarta hid ytra, ef ad Sootteñ plaagar og kvelur Lijkamañ hid iñra. Epter þvi sem þu hefur Vitnisburd til af Samvitskuñe hid iñra, epter þvi þiggur þu riettelega Lof eda Last. Eingeñ er riettferdugre Doomare yfer þijnum Giørdum; Eñ Gud og Samvitskañ; Stunda þu þar fyrer, ad laata þessum Doomarañum meiga þocknast þijnar Athafner, og þa er Spiled uñed. Þegar þu ert sialfum þier kuñugur og Gude, þa ertu noogu Vijdfrægur i Heimenum, og þarft ecke meira Nafn nie Lofstijr ad gyrnast.

Hvar fyrer skal Madur gyrnast miøg freklega Aud og Rijkedæme þessa Heims? Of-miøg er saa aagiarn, sem ecke lætur sier nægia med DRotteñ. Þetta Lijf er ein Vegferdar-Reysa til þess eilijfa Fødur-Landsins; Þar fyrer er Gotz og Audæfe ecke utañ til Þyngsla og Farartaalma aa þessare Leideñe, hvi þaug nidurþryckia og søckva Mañe, svo sem stoor Farmur nidur søckur ofhlødnu Skipe. Þad rietta Rijkedæmed Christi Þienara, er Christur sialf-

ar, sem er Konungur Himens og Jardar. Pad sem reiknast aa og skal fyrer riettañ Fiesiood Mañsins, þvi aa so ad vera vared, ad þu gieter teked þad med þier til þess strauga Doms, þegar þier mest aaliggur.

Nu verdur øllum Audæfum og Hollðlegum Munum, fraa þier svipt i Daudanum, þa tortijnest aptur þad sem samañ var safnad; Eñ þo tortijnest eñ hryggelegar saa sem samañsafnade, ef hañ er ecke i Gude Rijkur. Pu komst i þeñañ Heim Faatækur, Faatækur skilstu hier vid aptur; Hvar fyrer mætte þa ecke Milded vera ad nockru Leite lijkt bæde Upphafenu og Endinguñe? Hvørier sem eige Gyrnast Audæfeñ meir eñ til riettra Parfenda, þeir nægiast vel med lijtel Audæfe, þvi Naatturañ þarf ecke mykels vid. Hin minsta Guds Naadar-Gaafa og Mañ-Kostur er myklu ædre og dijrmætare eñ allt Veralld areñar Goz og Audæfe, þviad Mañdygdeñ þocknast Gude aan Rijkdoomsins; Eñ Rijkedæmed þocknast honum ecke aan Mañ-Kostaña. Christi Faatækt skyllde oss kiærare vera, eñ allur Heimsins Audur, Faatækteñ helgast hiaa Christo, hvor

ed var Faatækur i Fædinguñe, og þo eñ Faatækare medañ hañ uñgieckst hier i Lijfe, Eñ allra Faatækastur i Daudanum. Vel maattu framar virda Faatæktena eñ Veralldlegt Gotz og Audæfe, þad fyrst ad Christur wtvalde hana helldur þiña vegna, eñ ad sitia i Aud Guddoomlegrar Dijrdar. Hvørneñ skal saa trwa Gude til siñar Saaluhialpar, siñ ecke trwer hønum til Lijkamans Forsorgunar? Hvørneñ skyllde sa wtgiefa sitt Lijf fyrer siñ Broodur, sem hønum vill øngvañ Styrk veita af sijnum Audæfum? Audæfaña verdur orkad med Omake, eñ þeirra verdur noted med Uggafullre Ahyggiu, eñ þaug missast miñ sijder med Sorg og Harme, og þad Hryggelegra er, ad Ervidesmunerner þeirra enu Agiørnu, eru ecke alleinasta Forgeingeleger, helldur sijnum eigeñ Herra Banvænleger, so sem hiñ Heilage Bernhardus vottar.

Pad þu elskar mest, þad er þiñ Gud, og hvar sem þiñ Fiesioodur er, þar er og eirneñ þitt Hiarta. Elsker þu þesse forgeingeleg og Lijkamleg Audæfe Heimsins, þa kañtu ecke þaug Eilijfu og Andlegu Audæfeñ

æfeñ ad elſka, þetta kiemur ſo til, ad Ver-
alldlegur Audur niðurþrycker Hiarta
Mañſins, og dregur þad ofan epter, eñ þau
Andlegu toga Hiarta Mañſins upp i Hi-
meneñ. Elſka Jardneſkra Hluta er ſo
ſem eitt Fugla-Fængara-Lijm, æ hvøriu
vorer andleger Peñar og Fiadrer feſtaſt;
ſagde eirn af þeim Heiløgu Guds Aſtvin-
um. Kviña Loths ſem vard ad einum
Sallt-Steine, hun kieñer oſs med ſijnu
Epterdæme, eñ nu i Dag, ad vier ſkulum
ecke lijta aptur til Baka, epter þvi ſem i
Heimenum er, helldur ferdaſt Riettleides
fram; Þar til vier næum iñ i vort Him-
neſka Fødurland. Poſtularner yfergæfu
allt ſitt, og fylgdu Chriſto epter; Og kom
þad ſo til, ad hvører ſem fær þeckt þaug
riettu Audæfeñ, þeir fæ Leida og And-
ſtygd a þeim ſtundlegu Hlutunum, ſem
ecke meiga med riettu Audæfe kallaſt.

Sem Madur hefur ſmackad Sætleika
Andans ſo tekur hønum til ad ſmackaſt
Holldeð beiſkt og andſtyggelegt, þvi hvør-
kum ſem Chriſtur er miøg kiær, þeim er
Heimureñ beiſkt ſmackande.

Hvar fyrer ſkylldur þu miøg gyrnaſt

stundlega Vellysting, edur Holldsins Epterlæte? Miñing þess Krossfesta Christi, a ad Krossfesta i þier alla Gyrnd Holldsins, Munadarlijfesins og Sælgiætesins. Miñing þess saarheita Vaals, sem er i Helvijte fyrerbwed Diøflenum, hun skylldi deyda i þier allt Vaal og Ofurhita Lostagyrndareñar. Verdu samañ þa stuttu Stund Holldlegra Vellystinga, vid þañ eilijfa TijmaKvalaña, sem a epter kiemur.

Holldleg Lysting giører Mañ miøg lijkañ Skynlausum Skiepnum og Bestium. Deydum þar fyrer alla Lysting og Jñdæle vorra Skilningar-Vita, og offrum med Abraham, Gude i eina Andlega Foorn, vorn Elskulegañ Son, þad er Gyrnd vorrar Saalar, so ad vier sialfviliuglega leggium fra oss, og latum fara alla Vellysting, og Holldsins Epterlæte, og tøkum feigens Hende vid Krossenum, hvørsu hardur og Ohijdur sem hañ er Vidkomu. Sa Vegur sem liggur upp til Himnarijkes, er ecke sliettur nie Roosum vareñ, helldur Hrufottur og Þyrnum hladeñ. Ytre Madureñ ver fyrer Holldlegt Munadarlijfe og Vellystingar, Eñ Jñre Madureñ nærest hellst i Krossenum og Mootlætingunum. Þess meir sem hinum Ytra Mañenum fer fram, þess meir fer þeim hinum Jñra aptur. Vellystingar þiena Lijkamanum alleina, Eñ þeir sem riettelega Ottast Gud, lata sier vera minst hugad um Lijkamañ, eñ mest um Saalena. Vellystingarnar taka til Fanga vort Hiarta, svo þad sie ecke sialfraadt til ad elska Gud, og þeinkia til hañs. Ecke hefur þu i burt med þier wr þessu Lijfe Vellystingarnar sialfar, helldur einasta þeirra andstyggelega Miñing og Vidbiood, hvørn þu fær fyrst i þijnum Dauda,

og

og færer hañ ſo ſijdañ med hier, ſtraſi fyrer Doomeñ, Par fyrer ſkyllde Otte-Drottens deyda þitt Hollð, ſvo ad þig ſvijke ei þeſſ Lyſtingar. Set þu þier fyrer Hugſkots Siooner Guds Doom, og þeinktu uñ hañ jafnlega, ſo þu gaanger ecke epter Doome þiñar Gyrndar. Giættu ecke ad ſladraude Haus þeſſa Høggormſins, helldur ad hañs Eitrudum og Banvænum Hala, med hvørium hañ ſtijngur. Giaadu til fyrer Næad Chriſti, Sigrenum ad naa, ſo ad þegar þu heſur Sigureñ uñed, þa meiger þu af Chriſto Verdkauped og Coronuna ødlaſt, A M E N.

## Fertugaſta Hugvekia.

Uñ þad, Hvørt Gagu ad Freiſtingarnar giøre Mañe.

ÞAD er Gagnlegt fyrer Trwada Saalu, ad reyna Stundum Freiſtingarnar hier i Heime, þvi hun verdur ſtadfaſtare epter eñ aadur.

Siaalfur Endurlauſnareñ ſtrijdde vid Freiſtingar Diøfulſins i Eydemørkuñe, ſo ad hañ yferviñe hañ og hañs A-Raaſer vorra vegna, oſs til Saaluhiaalplegs Sigurs. Hañ ſtie fyrſt nidur til Helvijtis, ſijdañ þar epter uppſtie hañ til Himna; So verdur Trwud Saal fyrſt ad ſtijga nidur i Kvala-Stade Freiſtingaña, ſijdañ kiemſt hun þadañ, og uppſtijgur til Himneſkrar Dyrdar. Iſraels Lijdur fieck ecke fyrre iñteked nie eignaſt Canaans-Land, eñ þad hañ hafde ad Velle lagt, og

yferuñed marga sijna Ovine aadur; Eiñs þarf og ecke helldur Saaleñ ad vænta sier Rijkis Himnaña, utañ hun aadur fyrre faae yferuñed Hollded og Dioflen.

Freistingeñ hun reyner, þviad þegar Trweñ hrekst i Mootlætis-Bylgiunum, þa fester hun siñ Fot þess fastara a Hiaalpræd is-Helluñe Herranum Christo, og þess fleire Greiner goodra Verka wtspretta þa af heñe, sem Hregg Mootlætesins meir aadynur. Jaa, Frelsis-Voneñ heñar vex þess hærra, sem þetta Ovedred hana meir skiekur og hrister. Þegar Abraham villde hafa Offrad sijnum Syne epter Guds Befalningu, þa byrtest Guds Eingell hønum, þegar hañ hafde þa Freisting yferstaded, og sagde: Nu formerke eg, ad þu Ottast og Elskar Gud, þar þu hlijfder ecke þijnum einka Syne, miña vegna; So skiedur þad og eirneñ, ef þu Offrar Gude þijnum eigeñ Villia, a Freistingar Tijmanum (hvør eigeñ Vilie maa reiknast, so sem einka Sonur Saalareñar) þa færdu þeñañ sama Vitnisburdeñ sem Abraham, og þa muntu heyra Gud talande hid Jñra sønnu Ordum og hañ talade vid Abraham.

So sem Gulled reyneſt og klaaraſt i Elldenum; So proofaſt og eirneñ og klaaraſt Trweñ i Mootlætenu. Styrkleike Strijds-Maññins ſieſt hellſt i Bardaga og Oruſtu; So ſieſt og eirneñ Styrkleike Trwareñar i Mootlætenu og Freiſtingunum.

Þegar Stormarner og Bylgiurnar sækia ad Skipenu Chriſti, þa audſijneſt hvad Lijtt-trwader velfleſter hañs Lærefveinar eru, ſem þar eru iñañ Bords. Jſraels Lijdur, hvørium Gud wtſkickade til ad yfervinña þa Madianitas; Hañ vard aadur fyrre reyndur hia Vetnunum, eñ þad Strijd endadeſt; So byriar oſs fyrſt ad reynaſt og proofaſt i Vatne Mootlætesins og Freiſtingaña, aadur eñ þad vier faaum vora Ovine ad Velle lagt, og iñleidder ad verda i þad Himneſka Fodurlanded. Hvar fyrer, hvad hellſt a moote blæs Saalu þiñe, eda heñe fellur til Mootlætinga hier i Heime, þad er allt Reynſla eñ ecke Reide-Teikn Drottens. Freiſtingeñ hreinſar og eirneigeñ og faagar Mañeñ. Chriſtur ſem er ſa allra Naakvæmlegaſte Læknes Meiſtare Saalareñar, hañ giefur oſs iñ mørg Korn þeſs beyſka Aloes

til ad purgera og hreinsa þar med i burt
wr vorre Sæalu; Elsku til sialfra vorra
og Heimsins, hvør Elska ad er banvænlega
hætt til eilijfrar Glötunar. Mootlæted
uppvekur oss til ad giæta ad vorre eigen-
legre Samvitsku, og ad leida oss aptur i
Miñe umlidnar Synder sem vier hofum
drygt, hvar fyrer, lijka svo sem Læknisdoo-
mureñ forvarar Mañ fyrer Snert Siwk-
doomsins; So forvarar og eirneñ Kross og
Mootgæangur Mañ fyrer Syndeñe.

Atlijd er Mañe fyrer Syndeñe hætt,
eñ þo læangtum framar æ Medlætes-
Tijmanum eñ i Mootlætenu. Mørgum
verda Audæfe og Veralldleger Aurar ad
stijngande Þyrnum, Hvar fyrer Gud tek-
ur opt þessa Þyrnana i burtu, svo þeir faae
ei nidurkiæft Hveitenu, þad er, Guds
Barna goodum Asetninge. Marga hind
ra Veralldleg Umsvif og Størf, fræ Gu-
ds Hlijdne; Hvar fyrer Gud sender Sott
er og Siwkleika, so ad Meñ kuñe þar med
ad kañast vid sig sialfa, og deya i burtu
fræ Heimenum, eñ lifa Gude. Morg-
um vard þad fyrer Goodu, ad þeir misstu
Volld og Størf, Aud og Yferburde, og

lifdu sijdañ laangtum Roosamlegar i lijtellre Luctu.

Veralldleg Tign og Vegsemd kiemur morgum til ad Dramba og Dreissa, og upphefia sig; Hvar fyrer Gud sender þeim Knieśig og Forcktun, so ad Drambsemeñ aptur wt af deye i þeirra Hiortum.

J Þridia Lage, þa upplijset og eirneñ Freistingeñ Mañskiepnuna. Alldrei faaum vier riettelega sied nie skiled hvad faanijt og einskis verd sie Huggun Stundlegra Hluta, fyrre eñ i Krosse og Mootgaange, þa ed Fyrsta uppliwkast Hugskots Augun, og upplijseſt Skilningureñ, svo ad vier siaaum, ad eingeñ Huggun, er svo sætt-smackande, svo sem Naadar-Huggun JEsu Christi. Þegar Stephanus var grijttur i Hel med Grioote, þa saa hañ Dyrd HErrans Christi; Eins sijner og HErrañ Christur sig i sundur-mordum og kromdum Saalum aa Mootlætis-Tijmanum. Riettur Fognudur og Glede Mañsins kiemur alleinasta þar af, þegar Gud bijr i honum og bygger. Nu bijr hañ hellst i honum, þegar hañ hefur sundurknosadañ Anda, og lijtelaata og aangrada

 Saal;

Saal; Eñ Saalena sundurknosar best Mootlæted og Freistingiñ, hvar fyrer rietteleg Glede og Fögnudur finst alleinasta hiaa þeim sem Freistingar og Mootlæte lijda.

Freistingeñ er svo sem eirn Vegur til Gudlegrar Þeckingar, hvar fyrer DRotteñ seiger: Eg skal vera hiaa þeim i Þreingingūñe; Eg skal frelsa hañ wt þadañ, og laata hañ faa ad siaa Hiaalp og Hiaastod mijna. Saa blinde Tobias saa eckert fraa sier, hvørke upp nie nidur, frañ nie til hvorugrar Handar. Eñ þegar hañ hafde Synena aptur feinged, fyrer Eingeleñ Raphael, þa saa hañ allt þetta sem hañ aadur kuñe ecke ad siaa, verande Læknadur af Galle Fisksins. Þesse Læknisdomur sem Synena veitte Tobiæ, merker þad, ad Augu vor verda ad smyriast i beyskum Taarum Mootlætingaña, ef vier skulum riettelega siaa og þeckia, hvad vier erum siaalfer i vorre Naatturu, og hvad Lijkamleg Audlegd og Velgeingne sie. Hvar fyrer seiger Postuleñ, ad vier þeckium so sem i Raadgaatu? Þad kiemur so til, ad i Freistingunum þa koñustum vier vid, ad

Gu[d]

Gud kiæter og gledur sijna Utvallda, med þvi hinu sama, sem fyrer Mañaña Augum sijnest Hrygd og Sorg ad vera; Hañ lijfgar þa med þvi, sem oss sijnest riettur Daude ad vera; Hañ læknar þa med þvi sem oss sijnest fyrer vorum Augum vera Soott og Siwkdoomur; Hañ audgar þa med þvi sem oss sijnest Faatækt og Orbyrgd vera. Þar fyrer ætte þacknæmur og velkomeñ ad vera Krossen og Freistingeñ, øllum þeim sem ecke vilia Christo vorra vegna Krossfestum Opacklaater siñast.

O! goode JEsu, legdu hier uppa Elld Freistingaña. Slaadu oss hier med Staf Mootlætesins, i þessum Lijf-Stundum, so ad þu hlijfer oss añars Heims. O! þu goode JEsu, þu sem burtkastar þeim Optsiñes fra þier, sem þu virdest ecke ad hirta, Legdu uppa oss þijna Myskunsama Hirting, so ad vier fyrer hana drøgustum til þijn aptur. Piaa þu og þiaka þañ ytra Mañeñ, epter Fødurlegre Villd þiñe, so ad sa hiñ iñre vaxe og þrooest aptur i stadeñ. Strijd þu fyrer mig goode JEsu, i mier og miñe Naatturu; Stioorna þu Bardagañum, og vertu sialfur Korona

og Laun Sigurvlñingareñar. Lat̃tu allt þad styrkia og auka Trw mijna, sem mier vill a moote blaasa i þessum Heime. Kom þu goode JEsu til Hiaalpar miñe veikre og Vanmaattugre Trw; Þvlad svo hefur þu fyrerheited hia Spaamañenum, ad so sem Moodureñ huggar sitt Barn, so vilier þu oss hugga.

Mooduren hun uppfoostrar med meire Ahyggiu sitt veykt og Vanmaattugt Nijfædt Barn, So þarf og eirneñ HErra JEsu Christe, Trweñ mijn þiñar naakvæmrar Hiwkrunar vid, skule hun ecke wt af slockna alldeiles.

Laattu mig meir og framar giefa mig ad þiñe Jñvortes Huggun, eñ ad øllu þvi, sem Dioflar og Meñ kuña a moote ad mæla, og mig med ad hrella, Jaa, Laattu mig fastara hallda mig vid þijna Huggun, eñ vid eigenlega Paanka mijns Hugskots og Hiarta. O! þu goode Samaritane, sem mig fiñur haalf-Daudañ fyrer þier a Veigenum liggiande, Jñhell þu skorpu Vijne i mijn Synda Saar, Eñ gleym þo ecke ad Jñhella þar og eirneñ þvi miwka Vidsmiøre þiñar Huggunar, Legdu so margfalldañ Kross uppaa sem þig lyster, Eñ jafnframt þessu, Styrk og Stoduglynde til ad umbera þad med Poleñmæde, sem þu uppa leggur, Amen.

## Fertugasta og Fyrsta Hugvekia.

Grundvøllur Christelegrar Poleñmæde.

Halltu kyrru fyrer Saala mijn, og lijd og umber med Poleñmæde, þañ Kross sem Gud þiñ leggur þier aa Herdar, og tak Feigens-Hende vid þvi

Moo-

Mootlæte, sem hañ þier tilskickar, Rendu Þonkum þijnum til Pijnuñar Christi, þijns Blessada Brwdguma, og athuga þar, hvørneñ þiñ Endurlausnare var pijndur og plaagadur, Fyrst af øllum, þar næst fyrer alla, Og i Pridia Lage, aa ølln.

Af øllum var hañ pijndur; Þvi hañs Himneske Fader framselldi hañ under Kvølena, og syndest so sem ad hafa hañ alldeilis yfergiefed i Daudans-Neyd og Þreingingu. Hañs elskuleger Læresveinar yfergaafu hañ og flwdu fraa hønum, Hañs eiged Foolk Gydinga-Lijdureñ, forracktar hañ so og fraa sier hrekur, ad þeir kioosa helldur Mordingiañ Barrabam lausañ, eñ Christum. Heidingiarner negldu hañ aa Krossen. Jaa, af allra Mañа Synda-Straffe og Þwnga verdur hañ so þiakadur og þiaadur, i siñe Allra Helgustu Kvøl og Pijnu, ad Riettelega maa segiast og vidurkieñast, ad hañ hafe sañarlega vered af øllum pijndur og plaagadur.

Hañ pijndest og eirneñ fyrer alla Meñ, lijka eirneñ fyrer þa sem forackta þa dijrmætu hañs Pijnu, og under Footum troda hañs Allra Helgasta wthellta Blod

med ſiñe Foracktan og Ydrunarleyſe.

Hañ pijndeſt og eirneigeñ a Ollu, bad er, bæde a Saalu og øllum Lijkamans Limum; Pvi yfer peirre Kvøl ſem hañ leid a Saaluñe, klagar hañ ſo i Grasgardenum; og ſeiger: Ad ſijn Saal ſie hrygg allt til Daudans; Og a Kroſſenum hroopar hañ af ſtærſtu Saalareñar Angiſt, ſvo ſegiande til Fødurſins: Miñ Gud, miñ Gud, þvi hefur þu mig yfergiefed? Aller hañs bleſſader Limer a hañs helgaſta Lijkama ſveitaſt og litaſt þeim rauda Dreyra. Pad bleſſada Høfuded verdur ſundur kraſſad af Oddum Pyrne-Kranſins eda Pyrne-Koronuñar. Tungañ ſmackar þañ beiſka Myrru-Dryck. Hendur og Fætur ſundur grafaſt med Noglunum. Sijdañ verdur og giegnumlogd med Spioote. Allur ſa ſignade Lijkame Hwdfletteſt; Fyrſt i Raadninguñe; Og ſijdañ wtþenſt og teigeſt i Kroſſfeſtinguñe; Jaa, Hañ lijdur Hwngur, Porſta, Kulda, Forſmaan, Faatækt, Bryxl, Haad, Veniar, Dauda, og þa ſaaru Kroſſens Kvøl.

Hugleid nu Saala mijn, hvad Ovidurkvæmelegt være þad, ad Herrañ ſkyllde

ſo

so kvelíast, eñ Prælleñ vera Oskaatur? Ecke er Tilbærelegt, ad Endurlausnareñ skule þola so þwingar Pijsler fyrer Misgiørder mijnar og þijnar, eñ vid skulum samt i Synda Jdiuñe hafa jafnañ ockar Glede og Epterlæte. Otilbærelegt er þad, ad Høfuded skule so plaagast, eñ hiner adrer Limerner ecke pared til kieña. Ongvañeigeñ so mijn Saal, helldur so sem Christur siaalfur hlaut i giegnum sijna saaru Pijnu og bitrañ Dauda, ad gaanga iñ til Himneskrar Dijrdar og Vegsemdar; Eins verdum vid og so ad gaanga i giegnum margar Mootlætingar, iñ i þad eilijfa Dijrdareñar Rijke. Athuga og eirneñ Saala mijn, hvørsu ad Gud Endurgielldur Milldelega, eilijfa Dijrd og Føgnud, fyrer þessa Heims Motlætingar. Postuleñ seiger; Ad ecke sieu þessa Hems Harmkvælingar, þess verdar, ad þeim sie nockurn veigeñ samjafnad vid þa Epterkomande Vegsemd Guds Barna. Hvørsu myked sem vier hliootum ad lijda i þessum Heime, þa varer þad þo alleinasta uñ eirn lijteñ Tijma; Stundum ecke Aared, stundum ecke Vikuna, stundum ecke Dageñ wt; Eñ all-
Drei

dreileingur eñ þessar stuttar Lijfsstunder vara; Eñ Dyrdeñ sem fylger a epter, þrijtur ecke uñ alla Eilijfd. Gud sialfur hyggur gaumgiæfelega ad øllum vorum Mootgaange, og vill leida hañ i Lioos a þañ sijdasta Dag, ofs hañs ùtvølldum til Vegsemdar og Hroosunar. Þeinktu nu þa uñ fyrer þier Sæla mijn hvad liott og osæmelegt þad mune vera ad koma fram a þeim Vegsamlega Samkomu deige allrar Veralldareñar, og hafa ecke þar af þvi fagra Skarte Mootlætingaña, og ad bera þa øngva Gullfeste Krossburdarens sier a Hælse. Sialfur DRotteñ vill þurka og þerra øll Hrygdar Tareñ af Augum siña Utvalldra. O! hvad farsæl eru nu þaug Hrygdar-Tareñ, sem so dyrmæt Hønd virdest af ad striwka. O! hvad farsællegur Hlutur ertu Kross og Mootgangur, hvør ed a Himnum hefur þitt dijrmætt og rijkuglegt Verdkaup og Endurgialld.

David var ecke full Tiju Ar i siñe Utlegd; Eñ þar i moote Rijkte hañ i heil Fiorutiju Aar. Þetta var so sem nockurs konar Fyrerinyndan þar uppa, ad Harmkvæla Tijmeñ Guds Barna skyllde vera

stuttur;

ſtuttur; Eñ ſa epterkomande Farſælldar og Fagnadar Tijmeñ laangiædur; Jaa, ad ſoñu eilijfur og Oendanlegur.

Hugleid og eirneñ Saala mijn, og yferſkoda Hørmungar og Mootlæte allra Guds Aſtvina. Siaadu hvørſu Job ſitur i Saur og Øſku veinande og Graatande. Siaadu hvørſu hiñ heilage Johañes Skijrare lijdur i Eydemørkuñe Skort og Hwngur. Siaadu hvørſu Poſtulans Peturs Lijkame, er a Kroſſenum wtþaneñ. Siaadu hvørſu Poſtuleñ Jacob verdur ad rietta Haalſeñ under Sverd Herodis. Siaadu hvørſu ſu ſignada Mooder Endurlauſnarans Maria, verdur ad ſtanda under Kroſſe ſijns Hiartans Sonar.

Eins er þvi haattad uñ Chriſtnena, ſem er Andleg Mooder HErrans Chriſti; Hun verdur og eirneñ under Kroſſenum ad ſtanda hier i Heime, og þa beyſku Hiarta-Sorg, med þeirre Signudu Mey Maria, ad ſmacka og reina, lijka ſwo ſem eirneigeñ adrer Guds Utvalder Aſt-Viner, ſem aa Fyrre Tijmunum lifdu. Uñ ſlijka Kroſs-Berendur ſijna; Hvørt þad eru helldur Karlar eda Kviñur, ſeiger ſiaalfur HErr:

HErrañ Christur so. Sæler erud þier, nær ed Meñerner Offsækia ydur vegna mijns Nafns, þviad so giørdu þeir Spaamøñunum. O! hvad Dijrdlegur Hlutur er Offsookn og Mootkast Veralldareñar, sem giører oss samlijka Spaamøñunum, Postulunum, og øllum ødrum Guds Utvøldum, Jaa, jafnvel sialfum Endurlausnaranum JEsu Christo? Laatum oss þvi viliuglega lijda nockud, med þeim sem Kross og Hørmungar bera. Laatum oss Krossfestast med þeim hinum Krossfestu, svo vier sijdañ verdum Tignader med þeim Tignudu, og Dijrdleger med þeim Dijrdlegu, ad Eymdunum yferstødnum.

Saa sem vill vera riett og sañarlegt Guds Barn, aa ecke ad laata sier þwngt þikia ad hafa somu Kiør og Koste i Verøldeñe, so sem øñur good Guds Børn, og hañs Andleg Syskin hafa aadur fyrre haft; Þvi svo hlioodar þad gamla Ordtæke, ad lijker Brædur meige lijkt Kaal supa.

Sie so Saala mijn, þu vilier vera riettur Guds-Erfinge, þa taktu Feigens-Hende vid heilum og Oskiertum Arfe þeim sem hañ hefur giefed og epterlaated sijnum

Osta-

Oska-Bornum. Nu er þad øllum vitanlegt, ad i þeñan Arfeñ vill hañ þaug take, ecke alleinasta Fognud og Vegsemd þess eilijfa Lijfsins, helldur og eirneñ Hrygd og Mootlæte þessara Stundlegu Lijf-Daga, þviad Gud hirter hvørn þañ Son sem hañ ad sier tekur. Hañ straffar sijna hier i Heime, uppa þad hañ vægeþeim a hinum sijdasta og strangasta Doome, og laate eckert Afelle, nie eilijfra Pijsla Urskurd yfer þa ganga: Hañ lætur þvi Piningarnar fiølga i þessu Lijfe, ad þess fleire og meire verde Verdlauneñ, i þvi Okomna Lijfenu. Þar fyrer er ecke svo ad reikna til Aukinngs Stundlegra Hørmunga, sa sem til þess veglega Vidurauka Eilijfra Verdlauna a Himnum, nær sem Mootlæted aadynur.

Hugleid og skoda gaumgiæfelega Saala mijn, hvørneñ vared og hattad sie Kross burde Guds Barna. Hañ uppslijtur vr Hiortunum allar Tauger og Rætur, þeirrar Elsku sem Madureñ af sijne veykre Natturu, hefur til forgeingelegra Hluta i þessare Verølldu, og aptur i Stadeñ þa saaer hañ iñ i vor Hiørtu, Oforgeinge-
 legu

legnu Sæde Guds Otta, og riettre Elsku til Guds lifanda. Krossen lætur oss fæ Ama og Leida æ Verølldeñe og heñar Hættum, eñ Epterlaungan og Preyging epter þvi sem þar er uppe æ Himnum.

Þess meir sem Hollded deydest, þess meir þa Endurlifnar og Endurnyast Andeñ. Þegar Verølldeñ tekur til ad smackast oss beyskt og surt, þa tekur Christur og hañs Naad, til ad smacka oss þess sætara.

Mørgu og mykłu kiemur Gud til Leidar med Krossenum, þviad fyrst kallar hañ oss med Mootgangenum, til Angurs og Trega fyrer giørdar Synder. Þar næst kallar hañ oss med Mootgangenum, til sañarlegs Guds Otta og Bæna-Akalls.

J Þridia Lage kallar hañ oss med Krosse og Motgange þessa Lijfs, til riettrar Polenmæde og Uñburdarlyndes. Lwkum þar fyrer vorum Hiartans Dyrum upp, þegar hañ æ þær klappar med Krossens Hamre, og hlustum so til þess sem DRotteñ vill þar tñe kieña, og predika i sijnu eigeñ Mustere. Pad ytra Krossens og Mootgangsins Alit, er miog audvirdelegt og foracktanlegt fyrer Heimenum,

og fyrer Holldlegum Augum þess ytra Mañsins ; Eñ samt er þad þo Vegsamlegt fyrer Gude, og fyrer Andlegum Augum þess iñra Mañsins ; Hvad var foracktanlegra eda svijvirdelegra fyrer Augum Gydingaña, eñ Kvol og Pijna JEsu Christi ? Eñ þar þvert aa moote, Hvad var Dyrdlegra og Ædra fyrer Augum þess lifanda Guds, eñ su sama Pijna ; Þviad hun var af Gude reiknud fyrer ænægianlegañ Vitaling fyrer allar Veralldareñar Synder ? So skiedur þad og so opt og Ostalldañ, ad sa hiñ Riettlaate lijdur margar Preingingar, Kross og Mædu ; Jaa deyr i burt um sijder, og eingeñ giefur þar Gaum ad, edur lætur sier þar uñ hugad vera ; Samt og aadur, þa eru þvilijkra Guds Utvaldra Maña Piaaningar, og þeirra Daude dijrmætr i Auglite DRottens. Christneñ sem er JEsu blessud Brwdur, hun er Dock Alits hid Ytra fyrer Søkum ofur-Hita og Bruna Eymdaña og Ossooknaña ; Eñ hid iñra er hun harla frijd, og med Lioomande Fegurd, vegna þeirrar Huggunar, sem hun hefur i sijnum Gude. Guds Christne, edur og so

 hvør

hvør og ein Christitens Mañs Saal; Er so sem sa Alldengardur, hvør ed uṁgyrdt er allt uṁ kriing med einum hááfum Garde, og apturluktur med Læstu Hlide, þar fyrer kañ eingeñ ad siaa hañs Fegurd edur Bloom, utañ sa sem þar er sialfur iñañ fyrer, (þad er sa sem sialfur er eitt Riett-trwad Guds Barn) Alldrei fiñum vier so fyllelega, eda fullkomlega til heilags Anda Hüggunar hid iñra, so sem þegar Hollded þiakast hid ytra. Ef ad Elska til Veralldareñar bijr i oss, þa fær su Elska sem vier eigum til Guds ad hafa, eckert Rwm þar iñe. Tak til Dæmes; Ef eitt Kier være fullt af Vatne; Hvørneñ kyñer þu þad sama ad fylla af Vijne, utañ Vatnenu være aadur fyrre af þvi steypt? Eins er þvi eirneñ haattad, ef vier vilium uppfyllast af Elsku og Kiærleika til Guds, þa verdum vier aadur fyrre i burtu ad hella Veralldareñar Elsku, af vorum Hiørtum; Þvi er nu þa þesse Tilgaangur Guds vors Hiinneska Fødurs, þegar hañ nidurkiesur og nidurslockur i vorum Hiørtum, Elsku til þessa Heims med Krosse og Mootgaange, ad hñ vill þar skule Rwm giefast siñe Elsku.

Ad auk þessa, þa framknijr og þreynger Krossens Mañenum til ad akalla siñ Gud og Skapara, af Hiarta, og er so Ordsøk til margra goodra Mañdygda. Þegar Vestañ-Stormureñ blæs uppa Alldengardeñ Christi (þad er, þegar Offsoókner og Mootgaungur, striider uppa Christnena) þa reña og driwpa hañs Balsams-Dropar, þad er, þa aukast heñar Dygder, hvøriar ad eru sætlega Ilmande fyrer Gude Almaattugum, Sa Elskulege Edla Brwdgume Saalareñar, Hañ er bæde Hvijtur og Rioodur, Hvijtur er hañ, af Sakleysenu, Eñ Rioodur af Pijnuñe, Þar fyrer, ef hañs Elskuleg Brwdur a ad lijkiast hønum, og verda biørt i Mañ-Dygdunum, þa verdur hun aadur fyrre ad verda Raudleit i Pijslunum. So kañ nu Guds Millde og Mysk-unseme ad laata framflioota Vidsmior og Hunaug, af þeirre hørdu Hellu Mootlætingaña. So kañ Fader Myskunsemdaña ad laata uppvaxa hañ Ilmsæta Avørt Eilijfrar Vegsemdar, af þeirre beysku Root Hørmungaña. Hvørs Avaxtar ad neyta, oss veite sa hiñ same Eilijfe, Millde og Almaattuge Gud, Amen.

## Fertugasta og Auñur Hugvekia.

Hvørneñ Madur skule yfervinna þa Freisting, þegar Diøfulleñ vill setia hønum fyrer Siooner, ad Omøgulegt sie ad hañ giete stødugur staded i Guds Otta til Æfeloka.

Þu hiñ Blessade og Allra Helgaste HErra, HErra JEsu, Astwdlege Brwdgume miñar Saalar; Nær skal saa Fagnadar-Tijmeñ yfer mig koma, a hvørium ad eg meige iñleidast af þier i ockar Brwdkaups Føgnud? Eg er i añarlegu Lande og so sem i Utlegd komeñ fraa

 þier.

þier. Eñ þo sem aadur trwe eg stadfastlega, ad snarlega mune þar koma, og þess mune ecke laangt ad bijda, ad eg aflegge Hreyse þessa Daudlega Lijkama, og verde ÿñleiddur fyrer þitt Blessada og Blijda Auglit i Dijrdena.

Eg er Hræddur og Uggande uñ mig Þviad eg ber miñ fiestood (þad er Trwna) i veykum Leyr-Kierum, þad er i Syndahættre Saalu og Lijkama. Skilninge miñar Saalar er hætt vid Villuñe, þvi ad hañ er til heñar hneigdur; Eñ Villanum er hætt vid ad samþyckia þad hid Vonda, til hvørs hañ er og framfws; Hvar fyrer miñ Ande er ecke so Neldubwen sem skyllde til þijns Otta. Eñ Hollded er þo jafnañ veykt. Syndeñ tekur mig faangeñ, og Løgmaaled miña Lima strijder i mote Løgmaale mijns Hugskots.

Eg er Hræddur og Uggande uñ mig; Þviad sa slæge Diofull og Andskote, situr uñ ad naa mijnum Fiestood fra mier; Hañs Slægder eru margvijslegar; Hañs Gyrnd og Akefd til ad skada hin Helptuglegasta, og fær þvi myklu Illu orkad. Hañ sveik og fellde Adam i Paradijs, Judam i

Naaveru

Naaveru Christi, og i hañs Skoola. Hvorneñ kañ eg þa aumur og veikur vera Uggalaus fyrer hañs Svikum og Uñsaatre? Eg er i Otta og Skielfingu staddur, af þvi eg verd i Heimenum ad uñgaangast, hvorþo er allur fullur med Hrecke og Klæke. Heimsins Vellystingar locka mig til sijn; Eñ Mootlæted sem a Helma a Vegum DRottens, fæler mig fra sier. Avi mig auma Mañeskiu; Hvorneñ skal eg hiedañ komast Klaklaust? Allur Heimureñ er fullur med Snorur; Hvorneñ skal eg kuña Nønd vid ad reysa, med þvi bæde þad blijda og strijda legst so i Veigeñ fyrer mig og mier til Hrosunar? Eg er i Otta og Skielfingu staddur; Þviad med þvi eg veit ad eg þigg af Drottne, bæde Viliañ til þess Gooda, og so eirneñ Maatt og Megn til ad frañkvæma þad ed Gooda, þa er eg og kvijdande fyrer, ad eg mune meiga med Athugaleyse og Hyrduleyse mijnu; Neyda miñ Gud til ad taka fra mier aptur þañ gooda Viliañ, sem hañ hefur mier giefed. Eg fer ecke riett med Fyrergiefning Syndaña, og þvi er eg hræddur ad Gud mune epter sijnum Riettferduga Doome, ta-

ka þad fra mier verduglega, ſem eg hefe brwkad og med fared Overduglega. Eg er kvijdande fyrer, ad eg meige af mijnum Gude yfergiefeñ verda, hvorn eg hefe ſo opt og Tijdum yfergiefed, ſijdañ hañ took mig fyrſt i Saatt vid ſig. Eg kvelſt i mijnu Hiarta; Þegar eg athuga, ad þeſs ſtærre mune verda og þljngre Doomureñ, ſem Saafur Drotteñs eru mier veittar fleire og ſtærre; Sie ſo eg fare med þær illa og Overduglega. Hier i moote ſamt ſem aadur, þa huggar mig og Hughreyſter ſiu Oprlootanlega Guds Myſkunſeme, og kiemur mier til ſtoduglega ad treyſta Drottne mijnum þar uñ, ad ſo ſem hañ hefur giefed mier Viliañ til þeſs Gooda; So mune hañ og eirneñ giefa mier ſiñ Naadar-Styrk, til ad framkvæma og fullgiora, þañ ſama gooda Viliañ; Þvi hañ er ſa Gud, ſem ſtadfaſtur og Ouumbreytanlegur er; Hañs Myſkun hefur mier ætijd hijngad til ſtadfoſt og Obrygdul vered, mun mier og ecke helldur uñ alla Ælliſfd bregdaſt. Sa Grundvollur til mjñar Saaluhiaalpar, ſem Gud hefur lagt, mun ſtodugur ſtanda; Þviad hañ er i ha-

ñs Hiarta bygdur og lagdur, hvar ad eing-
eñ Ostadfeste, eingeñ Siñaskipte og eing-
eñ Umbreiting er. Jaa, sa Grundvöll-
ureñ miñar Saaluhiaalpar mun vissilega
stødugur standa, 'þvi hañ er stadfastur og
sterkur giørdur med Guds Sonar JEsu
Bloode, hvørt blessad Blood, alltijd talar
mijnu Maale og affsakar mig fyrer Vellld-
es-Stoole DRottens. Jaa, sa Grund-
vollur mun eflaust stødugur standa med
þvi hañ er med Obrygdanlegum Sacra-
mentaña Jñsiglum stadfestur. Ef eg vææn-
te mier hiñar miñstu Saalar-Heilllar edur
Velferdar hia siaalfum mier, þa mætte eg
vissulega efa um mijna Saaluhiaalp; Eñ
nu er allt mitt Riettlæte, og øll mijn Saa-
luhiaalpar Von i Herranum JEsu Chri-
sto, og kañ mier þvi ecke ad bregdast, hvar
fyrer eg vil vera Okvijdeñ. Hefde eg af si-
aalfs mijns eigeñ Vilia, Krapte eda Sk-
ilninge suwed mier fyrst til Christum, þa
mætte eg Ottast, ad sa miñ Vilie, Krapt-
ur og Skilningur mætte aptur uñsnw-
ast, og ad honum uñsnwnum mætte eg
missa aptur Christum; Eñ nu er þessu lang-
tum ødruvijs haattad; Þviad Christur

miñ ſañ mig, þa eg kuñe ecke hañs ad leita, og þvi mun hañ ecke laata mig aptur glataſt, upp fra þvi hañ heſur mig Einuſiñe funded, þvi ecke er hønum nu Ohægra ad geyma mig Fundeñ, eñ ad ſiña mig glatadañ. Sa hiñ ſame, ſem mig heſur leidt ur Daudans Skugga til Lioosſens, hañ mun ecke laata mig hrekiaſt til Myrkrañа aptur ad nyu, Vilie og Hiartalag Drottens er alltijd hid ſama og uñbreiteſt ecke af ſier til, hvørke i þvi, ad kalla oſs til ſijns Naadar-Rijkis, nie i þvi, ad giefa oſs allra Handa goodar Giafer; Eñ Gud giæfe eg være ſo Stødugur og Oumbreytanlegur i þvi enu Gooda, ad mijnu Leite til. Sa goode Fieſioodur er alltijd til reidu af Hende Drottens; Eñ Trwar-Høndeñ mijn er ſtundum Veyk og Vanmættug vid ad taka, ſamt ſem ædur mun eg med þeſſare veyku Trwar Hende, gieta teked a moote Chriſto, og hañ ad mier vafed, þvi ſo ſem hañ heſur Naadarſamlega virdſt ad laata mig ſtaa ſig og þeckia i ſijnum Ordum og Fyrerheitum, ſvo mun hañ og ſo Naadarſamlega mier þad veita, ad eg giete mier vid hañs Ord og Fyrerheit med faſtre og

# stødugre Trw hallded. Þessa Trwna skal eg ꜳstunda ad brynia og styrkva giøra med miñe alvarlegre og jduglegre Bæn, og skal so alldrei sleppa Drottne wt af mijnu Hiartans Herberge, þar til eg hefe Sꜳluhialpena ølldungis feinged og ødlast.

Kraptur DRottens er so mykell og Mꜳttugur, ad hañ gietur hæglega geymt og sparad mig til Eilijfrar Sꜳluhiꜳlpar, Þar fyrer, þott miñ eigeñ Veikleike þrelle mig, og giøre mig Jhugasamañ uñ mijna Sꜳlar Velferd, þa Hughreyster mig længtum framar Kraptur DRottens, hvør ed sijna fulla Framkvæmd og Verkan, hefur i mijnum Veikleika. Hañ hiñ same mun mig styrkia, af hvørium allur Trwareñar Styrkleike kiemur. Nꜳdeñ DRottens huggar mig, eñ miñ Overdugleike ꜳngrar mig, Eñ a moote þeirre Augran set eg þad, ad ef eg være Verdugur Nꜳdar, þa være sw Nꜳd, ecke Nꜳd, helldur Verdkaup, þvi þad sem fyrer Verkaña Forþienustu verdur giefed, þad verdur ecke giefed af Nꜳdeñe, þvi Nꜳd er ecke Nꜳd, utañ hun veitest alldeilis Oforskulldad: Þar fyrer vil eg reña Augum Trwareñar fra mijnum Overdugleika, og til DRottens Nꜳdar og Myskunar, sem þeim Overdugu virdtest ad biarga. Þesse Nꜳdeñ DRottens Leidriettet fyrer mier þad sem Afvega skeikar, Hun bæter a þad sem brestur, Hun afmꜳer þad sem a verdur. Hvad sem Nꜳd DRottens vill mier ecke tilreikna, þad er so sem þad hefde alldrei af mier vered framed, So er þa øll mijn Sꜳlar Heill af DRottne alleina, og kañ þvi ecke añars, eñ stødug ad blijfa Æfeñlega, Amen.



# Fertugasta og Pridia Hugvekia.

Um̃ Daglega Um̃þeinking Daudans.

Aentu Christeñ Mañeskia, ætijd og aa hvørre Stundu epter Daudanum, þviad hañ um̃-situr þig aa hvørre Stundu. Þa þu uppstendur ad Morgne Dags, þa þeinktu ad skle meige, ad þesse sie seinaste Dagur þiña Lijf-Daga. Ad Kvølldeẏ þa þu' geingur til Hvijldar, þa þeinktu ad skle meige, ad þetta meige vera þad Sijdasta Kvølld þiña Lijf-Daga hier i Heime, og ad sw Nootk sem i Hønd fer, meige vera þijn Sijdasta. Hvad sem þu giører, hvad sem þu aaformar, og þier fyrer Hendur tekur ad giøra, eda adhafast, þa huxadu um̃ fyrer þier, hvørt þu munder þad villia giøra eda adhafast, ef þu ætter Samstundis ad deya, og koma fyrer Guds Doom-Stool. Þu skallt meina, ad þo þu huxer ei um̃ Daudañ, þa mune hañ ei sijdur nalgast þig samt sem aadur, eda ad Daudeñ mune þess sliootara koma, sem þu huxar um̃ þig optar. O! Ney, Hvørt helldur þu huxar um̃ Daudañ edur ei, hvørt þu talar um̃ hañ edur ei, þa hanger hañ þier alltijd yf-

er Høfde, og næalgast ætijd meir og meir, Stund epter Stundu. Lijfed er hier feinged til Læns, eñ ecke til Eignar Ræda. Hier var med þvi Fororde leift ad gæanga iñ i þetta Stundlega Lijf, ad þu skyllder wt þadañ aptur gæanga og fræ þvi hverfa, nær sem þu yrder kalladur. Þu komst nakeñ i þeñañ Heim, nakeñ skilur þu vid hañ aptur. Þetta Lijf er so sem Ein Vegferdar-Reisa, þegar þu hefur leinge framhallded Ferdeñe, þa kiemur þar ad uñ sijder, ad þu verdur ad snwa heim i Veg aptur, þæangad sem Heimeled er; Þu ert Leigulide, sem uñ Stundar-Saker skallt bwa hier æ Jørduñe, eñ ecke ertu Jardareñar æfenlegur Eignar-Herra edur Lands-Drotteñ. Huradu uñ fyrer þier, hvørt þu ferdast, edur hvort þijn Leid byriar æ hvørre Stundu; J þeirre Meiningu førum vier villt, ad vier ætlum vier munum deya i þeim Seinustu Andarslitrum, þvi ef vier athugum riett, þa deyum vier æ hvøriuu Deige, æ hvørre Eykt, æ hvøriu Augnablike, þvi þess meir sem eykst vid vora Lijf-Daga, þess meir kortøst þeir. Þess leingur sem vier lifum,

þeß miña er epter Olifad. Þeß fleire Dagar sem aukast vid vorar Lijf-Stunder, þeß færre eru epter. Vær føllum ecke hastarlega i Daudañ, helldur lijdur og færest smaamsamañ ad þeim Tijmans-Puncte og Stundu sem Gud hefur aasett. Þetta vort Lijf, edur Lijf-Stunder, eru svo sem ein Leid, edur Vegferdar-Reisa, aa hvørre Madur verdur Daglega nockud ad ferdast og nockru af ad liuka. Oß sijnest sem øngver Hluter sieu fiærlæggare sijn aa mille, eñ Lijf og Daude, þar þo øngver Tveir Hluter eru hvør odrum naalægare, eñ þeßer eru. Þeß meir sem sæker aa Æfena, þeß meir þokar ad Daudanum. J þeßu Lijfe fer oß aalijka og Siglinga-Møñum, þad skiedur opt fyrer þeim, ad aadur eñ þeir vita af, þa er þeirra Reisa endud, og under þad Land komed sem þeir sier til ætla; Eins fer oß tijtt og opt, aadur eñ vier af-vitum, þa er Daudeñ komeñ, þviad hvad sem hellst vier giørum edur adhøfunst, hvørt vier Etum edur Dreckum, hvørt vier Vøkum edur Sofum, þa erum vier so sem aa stijfelldu Hlaupe til Daudans, og naalægiunst æ

meir

meir og meir. Marger hafa sijnar Lijf-Stunder wtendad, medañ þeir hafa vered i Uñsvifum ad wtvega sier Lijfsins Atviñu til seirne Tijmaña. Eingeñ tekur med glødu Giede moote Daudanum, utañ saa ad eins, sem sig hefur leinge vid hönum bwed; Deydu fraa þijnum illa Vilia hier i þessu Lijfe, og þa muntu lifa Gude i Daudanum. Laattu Synder og Leste deya fraa þier, aadur eñ þu siaalfur deyr. Siaadu til ad saa gamle Adam deye i þiñe Naatturu aa medañ þu lifer; So mun Christur lifa i þier þa þu deyr; Saa ytre Madureñ skyllde alltijd i þessu Lijfe foreydast og fordiarfast, þa mun i Daudanum edur i Andlaatenu, Endurnyast saa iñre Madureñ. Daudeñ burtflitur og færer Mañ fraa Stundlegum og fliootlijdande Tijmum, iñ til Eilijfdareñar. Hviad þanngad sem Tried fellur, þar liggur þad. O! hvad kostgiæfelega ættum vier nu þa, ad þeinkia um Daudans-Tijma og Stundu. Tijmarner lijda og endast, eñ Eilijfdeñ sem alldrei tekur Enda, kiemur aa epter. Bw þig þvi vid Eilijfdeñe, nu medañ Tijmeñ varer.

Strax aa vorre Dauda-Stundu verdur þad aalycktad og wtkliaad, hvilijker vier skulum verda um̃ alla Eilijfd, hvort vier skulum vera i eilijfre Sælu, edur eilijfum Kvølum. A þvi Augnablikt Dauda-Stundareñar, þa añadhvørt eignunst vier eilijfa Farsælld edur missum hana; Siaadu þar fyrer til mijn Saal, med hvad storre Um̃hyggiu þier ber ad bwast vid þeirre Stundu Daudans. Ef þu hugar um̃, ad þu verdur ad deya, þar med er þier hægast ad forackta, og lijtels virda, allt þad sem i Heimenum er, Hugsadu um̃ fyrer þier, hvørsu ad Augu þijn mune formyrkvast og Oskygn verda i Daudanum, og þar med mun þier hægra verda, ad snwa þeim fra Gyrnd faanijtra Hluta; Hugsadu um̃ hvørueñ þijn Eyru munu verda þwng heyrd i Daudanum, og med þeim Paanka kantu hæglegar ad byrgia þaug fyrer Gudløstun, Kieskne og Klaame, Hugsadu um̃ hvørneñ Twngañ nume hiadna og Maattlaus verda i Daudanum, og sw Ihugan mun koma þier til ad taka betur Vara a Ordum þiñar Twngu, so hun tale ecke Illt; Set þier fyrer Siooner þañ

Sveitz

Sveita og Harmkvæle sem Mañeskiañ verdur ad þola, þa hun deyr, og so munu þier siinast liitels verdar allar Heimsins Vellystingar; Set þier fyrer Sioner, hvørsu Madureñ fer nakeñ wr þessum Heime, og muntu med betra Giede gieta Fatæktena uñbored i þessu Lijfe. Hugleid þu hvorneñ allur Lijkameñ afmyndast og Ofegrast i Daudanum, og so muntu hæglegar gieta liitels acktad allt Veralldareñar Skart og PrIaal. Athugadu þad sara Saalareñar Kvein og Vein, þa hun er so sem naudug dreigeñ wt af Lijkamanum, og þa muntu þess kostgiæfelegar varast Synder og Sviivirdingar. Hugsadu uñ þa Rotnan, sem þu hefur þier ad vænta, epter þiñ Dauda, og so muntu hæglegar þar med gieta dempad Holldsins Dramb og Metnad. Hura þu uñ hvørsu allar Skepnur yfergiefa þig i Daudanum, og lærdu þar af ad snwa þijnu Hiarta og þiñe Elsku fra øllum ødrum Hlutum, og til þijns Skapara alleina. Hugleid þu hvørsu Daudeñ sier skarpt epter, ad þu gieter ecke hid einasta med þier teked i Grøfena, og lær þar af ad forackta þessa Heims Audæfe og Rijkedæme.

Hvør sem hier i þessu Lijfe. deyder og myrder sijna Saal, med Daglegum Syndaña Athøfnum; Hañ fer i giegnum þeñañ Stundlega Dauda iñ til þess eilijfa Dauda og Kvalaña. Eingeñ kiemst sa til þess eilijfa Lijfsins, sem ecke hefur hier i þessu Lijfe uppbyrtad ad lifa i Gude. Villter þu lifa midt i Daudanum, þa kostadu Kapps a ad vera hier Iñplantadur Christo, med riettre og sañre Trw.

Þeinktu til Daudans aa hvørre Stundu, þvi Daudeñ vænter þijn til sijn aa hvørre Stundu. Vær berum Daudañ avvallt med oss i vorre Naatturu, hvørt vier førum, vegna þess, vier berum Syndena med oss, Þviad Daudeñ er Verdlaun Syndareñar; Villter þu nu ad Daudeñ skule þier ecke beyskur verda, þa heyrdu Guds Ord, og legg þaug uppaa Hiartad, og trw þeim støduglega. Trweñ samteinger oss so vid Christum, ad hun giører oss Eitt med hønum, og giører af Christo og oss, svo sem eina Mañeskiu.

Þeir sem nu svo eru i Christo, og Eitt med hønum fyrer Trwna, þeir kuña þeim Eilijfa Daudanum ecke ad deya, þvi ad Christ-

Christur er þeirra Lijf. Saa sem helldur sig med Trwñe vid Gud siñ, hañ verdur eirn Ande med hønum (svo sem Skriftiñ vottar) og þvi kañ saa hiñ Trwade ecke ad deya ad Eilijfu, þviad Ande Guds er hañs Lijf.

Israels Foolk ferdadest i giegnum Rauda Hafed til þess Fyrerheita Landsins, Eñ Pharao og hañs Herlid druckuade i þvi sama Hafe, Eins er Daude þeirra Gudhræddu, so sem Iñgaangur til þess Eilijfa Lijfsins, og svo sem Dyr til Paradijsar. Eñ Daude þeirra Illu og Ogudlegu er aungvañeigeñ Euding Stundlegra Eymda, helldur er hañ so sem eirn Hleckur, sem samañ teingslar þær Eilijfu Eymder vid þær Stundlegu, og þær Epterkomande, vid þær Nærverandu. Þeir sem so deya Illa, þeir framfara fra þeim Fyrsta Daudanum til þess añars Daudans. So er nakvæmleg Samteinging a millum Christi, og hañs Trwadra Maña, ad hun kañ ecke ad riwfast nie sundurslitna i siaalfum Daudanum. Midt i Daudans stærstu Diñn liosmar fyrer þeirra Saalar-Augum, þad skiæra Lioos Gudlegrar Myskunar og Naadar. A þeirre Hættusømu Daudans Leid, sender Gud sijnum Þienurum, þa Heilogu Einglа til Verndar og Leidarvijsers. Lijkamer þeirra Gudhræddu eru Mustere Heilags Anda, og þvi mun sa goode Heilage Ande ecke leyfa, ad hañs Mustere niddurbriootest svo i Daudanum, ad þad eige ecke Uppriseñar og Uppbyggingareñar aptur Von. Guds Ord er eitt Oforgeingelegt og Guddoomlegt Sæde, Þar fyrer kañ Dauden þad ecke wtslocka, helldur hylst þad og dylst i Hiortum þeirra Gudhræddu, og a sijnum Tijma, mun þad þaug Hiortun (i hvørium þad er faled og fooldgad) Endurlijfga og af Daudanum uppvekia til Lijfsins, A M E N.

## Fertugasta og Fioorda Hugvekia.

Huggun fyrer þa sem missa sijna Ast-Vine.

Heinktu Christeñ Saala til þijns goođa Endurlausnara JEsu, og þa mun þier ecke kuña ad Ofbiooda Daudans Ognan. Grimd Daudans er ad sönu mykel og mættug til ad hrella, eñ længtum meire er Millde þijns Endurlausnara, og mektugre til ad hugga.

Israels Lijdur gat ecke drucked Vatned af Bruñenum Mara i Eydemørkuñe fyrer Beyskleika Vatnsins; Eñ sem Moyses epter Guds Avijsan, kastade Trienu i Vatned, þa vard Vatned sætt og aan Beyskiu; Eins er þvi og svo vared, ef þu þykest i þijnu Hiarta ecke gieta stadest Beyskleika Daudans, þa vijsar Gud þier til þess Triesins, sem þeirre Beyskiu Daudans hefur umsnwed i Sætleika.

Þetta Tried er sa Edla-Kvistur af Root Jesse uppvareñ, sem er HErrañ JEsus Christus sialfur, hvør ed soddañ Sætleiks-Krapt i sier hefur, ad ef nockur varđveiter hañs Ord, Sa hiñ same kañ ecke ad smacka Daudañ Eilijflega. Þetta Lijf er fullt Þyngsla og Þiaaningar, og

þvi odlast þeir stoora Hvijld og Lietter, sem fyrer Daudañ burt sofna fraa þessu Lijfe.
Pad maa so reiknast ad alldrei deye nockur Riett-Christeñ (þviad hañs Saal lifer hia Gude) helldur deye alleinasta hañs Eymder og Mootlætingar. Þetta sem oss sijnest Daude, er ecke Daude, helldur eiñ Vegferdar Reysa, og þo soddañ Vegferdar Reisa, sem ecke maa reiknast Burtfør, helldur Apturkoma til þess rietta Heimelesins. Ecke missum vier vora Astvine þa þeir deya, helldur so sem ferdast þeir undañ uppa Veigeñ, þangad sem vier iñañ skams komum a epter. Þeirra Daude maa ecke reiknast Undergaangur, helldur Uppgaangur; Ecke Burtfør, helldur Undañfør. Daude Guds Barna er eiñ Fæding til eilijfs Lijfs, og þvi er hañ øngvañeigeñ Tioon, helldur Abate. Pad vorer Astviner deya i burt; Hvad er þad añad, eñ þeir giefa þa upp ad syndga, þeir giefa upp ad hrekiast og velkiast i þessum Heime, þeir giefa upp ad lijda Eymd og Anaud? Pad vorer Astviner deya i sañre og stødugre Trw; Hvad er þad añad eñ þad, ad þeir ferdast i burt wr Skugga

stundlegs Lijfs, og koma i þañ Fegurdar Lioma eilijfs Lijfs, fra Sorgeñe til Fagnadarens, fra Moñunum til Guds? Þessu Lijfe mæ vel lijkia vid eina Sigling: Eñ Ending Lijfsins edur Daudans, vid eina gooda og Hættulausa Hofn, og þvi er ecke tilbærelegt, ad vier of-miog hormum þott vorer Viner og Nærungar i burt deye, helldur ættum vier ad samfagna med þeim, ad þeir eru yfer þad Hættusama Haf Lijfdagaña tñ i þa goodu og Uggalausu Daudans Hofn komner. Þessu Lijfe mæ vel lijkia vid eina Dyblyssu, edur Fængelses Hws; Eñ Daudanum vid Frelse edur Utfarar-Leife af þvi Fængelse, og þvi bidur sa goode gamle Simeon so, a moote sijnu Andlaate, seigiande: Lættu nu Drotteñ lausañ Þioon þiñ i Fridе, edur glef nu Þioone þijnum Utfarar Leife: Uñ Utfarar-Leife edur Lausn bidur hier sa goode gamle Guds Mañ, af þvi hañ fiñur og formerker sig i Daudlegum Lijkama iñeluckt-añ, so sem i ødru Fængelse; Þar fyrer ættum vier ad samfagna og glediast med vorum Astvinum, ad þeir eru frialser ordner wt af þessare Myrkva Stofuñe, og eru

komner

komner til þeſs fullkomna Frelſis. Poſtulleñ Paall Oſkar ſier ad hañ meige verda laus, og lifa med Drottne: Hier hefur hañ hugleidt, hvørneñ Mañſins auma Saal er i þeſſu Lijfe ſo ſem bundeñ vid þañ daudlega Lijkama, med einu ſterku Prældooms Bande, hvørt Band hañ Oſkar upp mætte loſna fyrer Lijkamlegañ Dauda, ſo Ondeñ mætte verda frij og lifa hia ſijnum Drottne og Skapara. Skylldum vier þa hryggiaſt þar vid, þegar vorer Aſtviner loſaſt wr þvilijkum Bondum, og faa fyllelegt Frelſe og Lauſn? O! Nei i øngvañ Maata. Hvar til ſkylldum vier taka uppa oſs Svart Sorgar-Klæde, epter Frafall vorra Naaunga; Þar þeir hafa Jklædſt hvijtum Fagnadarens Skrwda? Þvi ſo er þad ſkrifad, ad þeim Utvøldu ſieu giefeñ hvijt Klæde, fyrer Saker þeirra Meinleyſis, og ad Paalma-Vidur ſie i þeirra Høndum, vegna þeſs Sigurs ſem þeir hafa uñed. Þvi ſkulum vier þiaa oſs med Harme og Sorgar-Taarum, þar vier vitum þo, ad Gud hefur þerrad oll Taar af þeirra Augum? Þvi ſkulum vier auka oſs ſiaalfum Onaad þar med, ad harma vora Burtſof-

nada, þar þo þeir eru i þvillijkum Sælldar Stad, þar ecke heyrest framar meir Kvein, Hormung edur Hroop nockurt, helldur hvijlast þeir þar af sijnu Ervide? Þvi skulum vier kvelia vora Ønd i ofmyklum Harme, vegna þeirra sem nu eru i þeirre allra stærstu Glede og Unadsemd stadder, a medal Guds H. Eingla? Þvi skulum vier med graatlegre Roddu hroopa og kveina epter þa, sem standa fram̃e fyrer Lambenu og sijngia eirn nijan̄ Fagnadar Lofsaung, hafande Gullegar Horpur og Streingia Hliodfære i Hondum? Þvi skylldum vier harma þad, þott þeir hafe vered i burtkallader wr þessum Heime, þar þo þeir siaalfer fagna og gledíast sem mest þar wt af? Hvad Gott og Æskelegt sie, ad skilia vid þen̄an̄ Heim, avijsar Christur i þem Ordum, þar han̄ seiger til sijn̄a Læresveina: Ef þier elskudud mig, þa mundud þier gledíast þar af, ad eg fer hiedan̄ wr þessu Lijfe. Læresveinarner hryggdust þar af, ad Herran̄ Christur sagde þeim fyrer sijna Burtfør wr þessum Heime; En̄ þar uppa svarar Christur þeim og seiger: Ad ef þeir hefdu rietta Elsku til sijn, þa mundu þeir ecke

misuña sier þeirra sarsælu Umskipta, ad
skilia vid þessaEymd og iñgaanga i þa eillijfu
Dijrd. Være svo ad þu værer staddur
i Sioo eda i Siglingum, og þu sæer fyer
Storm og Siafar Olgu, sem Skipenu
kyñe ad tortijna, munder þu ecke giarnañ
og feigeñ vilia flijta þier til goodrar Hafnar?
Hugleid nu og siaa, hvørsu þesse Heimur
er so sem a fallanda Foot komeñ, og
fer DaglegaDags meir og meir hrørnande,
so auglioost er, ad ecke mune laangt þess
ad bijda, ad hañ med øllu kollsteipest og eydleggest;
Þvi skyllder þu þa ecke þacka
Gude þar fyrer, og samfagna med þijnum
Astvinum, ad þeir eru fyrre eñ seirna frelster
med einum skaplegum Dauda, undañ
þeirre Oognarlegu Hrapan og þvi hættusama
Skipbrote þessa Heims, hvørs ecke
hefde vered gott ad bijda.

J hvørs Høndum meinar þu Ohættara
edur betra ad eiga Velferd þiña Ast-Vina,
eñ i Høndum HErrans Christi?
J hvørium Stad meinar þu, ad Ønd þiña
Vina og Naunga kyñe Ohættara edur
Ugglausara ad bwa, eñ i þvi Farsæla
Paradijsar-Rijke? Athuga hvad Postul-

eñ seiger uñ Daudañ: Daudeñ er Abate (seiger hañ) Jaa, ad soñu er þad stoor Abate, ad hindrast fraa Synda-Idneñe; Stoor Abate er þad, ad skilia vid þad verra, eñ taka i Stadeñ þad betra; Hafe þiñ Ast-Vinur, saa i burt sofnade, vered þier iñelega Astfoolgeñ og Hiartkiær, þa skal þo og aa, Gud ad vera þier eñ þa laangtum Hiartkiærare, hvørs Ville þad var, ad taka þañ þiñ Ast-Vin til siñ; Siaa þu til ad þu reidest ecke vid DRotteñ, þvi hañ took eckert añad i burt fraa þier, eñ þad sem hañ hafde þier aadur giefed, hañ took sitt aptur, eñ þitt ecke; Laattu þier þad ecke mislijka, þoott DRotteñ take þad edur heimte aptur, sem hañ hafde þier feinged til Laans, eñ ei til Eignar. DRotteñ er saa sem sier fyrer Okomna og yferhaangande Olucku. Og þvi skalltu þeinkia, ad af siñe Fodurlegre Forsioon fyrer þijnum Framlidnum Vin, þa hafe DRotteñ kallad hañ i burtu, uppaa þad hañ skyllde ecke falla, i þa Yferhaangande og Epterkomande Ohamingiu.

Þeir sem sofnader erú i DRottne, hvijla þa sætlega og vært i sijnum Grofum, þegar

Þegar þeir sem epter lifa kveliast miøg og Onaadast, midt i sijnu Haasæte og Høllum sijns Rijkis. Hafer þu mist aastwdlega Vine, þa giættu þar ad, ad þu munner fiña þaa aptur laangtum aastwdlegre.

Þetta er stuttur Tijme, sem þu verdur vid þaa skileñ; Eñ saa Tijmeñ sem yckar Funde samteinger aptur, tekur alldrei Enda, þvi þad er su Blessada og Andvaralausa Eilijfd, Þviad epter Obrygdulu Guds Fyrerheite vonum vier og þess, ad vier munum hiedañ fara wr þessu Lijfe, hvadañ nockrer vorer eru undañ oss farner, og vær munum til Lijfsins iñgaunga, þar sem ad vorer Ast-Viner skulu oss verda þess Hiartkiærare, sem þeir hafa oss aadur vered kuñugre.

Jaa, vær skulum þar svo elskast iñbyrdes, ad þar skal alldeilis eingeñ Kvijde vera fyrer nockra Sturlan edur Sundurlynde, þar verdur hiñ same Fagnadur og Roosamur Stadur til reidu, bæde þeim sem undañ eru farner, og þeim er a epterkoma. Þar mun hvør þeckia sijna Ast-Vine, Ætt Meñ og Naunga, og med Elskulegum Ununarsømum Samrædum, hvør añ-

añ gledia. Par mun Brooder og Syster til samans vera, Borneñ hiaa Forelldrunum. Og aa hvilljkum Glede-Dogum, mun eckert Kvolld Ending giora.

Alijttu par fyrer, ecke svo Skilnadar-Tijmañ, par þijner verda fraa hier skilder i Andlaatenu, ad þu ecke myklu framar athuger og yferveiger, Tijma Fundaña, þegar þijner Ast-viner verda hier aptur samteingder i Upprisuñe. Hvor sem stadfastlega trwer Upprisu þeirra Framlidnu, honum sijnest Dauden ecke ad vera par, añad eñ ein hæg Rooſemdar-Hvijld.

Allt hvad i Hemenum er, þad hefur i sier og med sier liooſa Merking og Fyrermyndan Upprisuñar. Dags-Liooſed, þo þad Daglega gaange under ad Kvollde, þa reñur þad þo æ-jafnañ upp aptur ad næsta Morgne; Graſed sem aa Vetureñ deyr og folnar, þad Lifnar og Bloomgast aptur ad Vorenu, þegar Tijmarner Arsins, edur Maanadaña taka Enda, so tekur strax Upphaf aptur aa odrum nyum Tijmum, Avexterner falla af, og vaxa sijdañ aptur ad nyu, Sæded kañ ecke ad friofgast og vaxa upp aptur wr Jorduñe, utañ

þad

þad rotne þar ꜳdur. Þa Fuglen̄ Phenix hefur brent sig til Ösku, þa lifnar þar einn ungur Fugl aptur wr Öskun̄e; Svo siꜳum vier alla Hlute Endurnyast, epter sijna Foreiding.

Hvør vill þar fyrer trwa ad Gud mune hafa til Onijtis lꜳted soddan̄ Fyrermyndan skyna og siꜳst i Nꜳtturlegum Hlutum? Eda vill nockur meina, ad Skiepnun̄ar Nꜳttura, hvør ed soddan̄ Jmynd Upprisun̄ar i sier ber, hun sie krøptugre en̄ Gud, sem lofad hefur, ad vort Holld skyllde epter Daudan̄ upprijsa; Han̄ sem ad Endurlijfgar Sædes-Korned i Jørdun̄e daudt og roted, so þu meiger vid þad lifa, og þier þad til Atvin̄u hafa i þessu Lijfe; skyllde han̄ ecke myklu helldur Endurlijfga bæde þig og þijna, so þu og þeir meige eilijflega til samans lifa? Gud hefur kallad sijna Elskanlega in̄ i þeirra Svefn-Herberge, þar fyrer misuntu þeim ecke þeirrar Hvijldar og Rosemdar, sin̄ þeir hafa, in̄an̄ skams mun Upprisu-Tijmen̄ koma.

Þu meinter (kan̄ skie) ad þin̄ Astvinur munde meiga verda Gagnlegur Limur Guds Christne, sem strijder hier i þessu Lijfe, ꜳdur en̄ han̄ i burtu dæe af Verølldene, En̄ Gud villde ad han̄ skyllde vera Limur sin̄ar Christ-

ae sem Sigrenum hroosar i Himnenum, DRotteñ villde þad so hafa, Þar fyrer lœttu þier þad og eirneñ vel lijka. Þu þeinkter (kañ skie) ad þiñ Framlidne Astvinur, skyllde hier læra goodar Iþrootter, Ment og Speke, Eñ Gud villde ad hañ skyllde i þeim Himneska Hœ Skoolanum læra þa riettu og sañu Speke sem alleina mœ Speke kallast, DRotteñ villde þad so hafa, Þar fyrer lœttu þier þad eirneñ lynda og lijka. Þu vonader (kañ skie) ad þiñ Ungmenne, sem nu er i burtu sofnadur, munde komast til meire Tignar œdur hañ dæe, og munde einhvørn Tijma meiga sitia a medal Herra og Høfdingia, Eñ Gud villde hafa hañ sitiande a medal þeirra Himnesku Høfdingiaña, sem eru hañs H. Einglar, DRotteñ villde hafa, ad þad skyllde so skie, Þar fyrer lœttu þier þad og so lynda. Þu vonader (kañ skie) ad þiñ Framlidne Astvinur munde verda Audugur, og safna myklu Gotze, œdur eñ hañ dæe, Eñ Gud villde hañ skyllde sœ ad verda Audugur i Dijrdareñar Rijke, DRotteñ villde hafa ad þad skyllde so skie, Þar fyrer lœttu þier þad og so vel lynda.

Þu Heilage HErra Gud, þu tokst þad eina i burt, sem þu hafder siœlfur giefed, Sie þitt Nafn Lofad og Blessad um allar Allder Allda, Amen.

# Fertugasta og Fimta Hugvekia.

Um þañ Sijdasta Doom.

FAdereñ dæmer øngvañ, helldur hefur hañ giefed Synenum alla Magt og Valld ad dæma.

Þar wt af veit eg vel, O! HErra JEsu Christe, ad þu muner koma eirn strangur og Riettlœtur Doomare, og muner auglysa og framleida allra Maña heim-

uglegar

uglegar og huldar Athafnet, hvørt þad eru helldur Giørder, Ord edur Þaankar. Þa mun upp yfer þeim Aumu Mañskiepnum, sem fyrer þañ Dooms Urskurd koma, vera eirn Vægdarlaus og straangur Doomare; Nidurunder þeim oped og gapande Helvijte, Jñañ fyrer i Briooſtenu nagande Samvitska, Hid ytra sa upptendrade Kvalaña Elldur, Vid hægre Sijdu Syndernar med siñe hardre Aklogun, Vid Vinstre Sijdu Dioflarner med hrædelegre Ognan Kvalaña. Þar munu vera naalæger þeir goodu Einglarner sem veria Syndugum Jñgaungu i Sæluna, og þeir illu Einglarner sem þa med sier hrekia og draga i Kvølena. Hiaa hvørium skal eg þa Skiools og Hæles leita; O! Herra Jesu; J soddañ hættulegre Þreingingu? Eg Ottast øll mijn Verk og Athafner, sem eg hefe framed, þvi eg veit þu væger ecke þeim sem syndga.

Þar verd eg komeñ midt i millum Tijmans og Eilijfdareñar, Tijmeñ hefur þa Enda, eñ þa er Eilijfdeñ epter fyrer Høndum sem alldrei kañ ad endast. Þeir illu Ohreinu Andar heimta, ad i Lioos leidest

øll þau Jllsku-Verk, sem epter þeirra Aeggian og Jñblæstre hafa frameñ vered; Jaa, þeir tiaa og framtelia hvørn eirn og eirn Glæp, uppa þad ad þeir nææ Saaluñe i siñ Selskap med sier til Kvalaña. Pa mun hiadna og ad øngvu verda allur Himensins Her(þad eru Stiørnur og Himen Tungleñ) og Himnarner sialfer munu samañvefiast, so sem añad Blad, og allur Himensins Her mun nidur hrynia, so sem Lauf-Blad hrinur og fellur af Viin-Trie edur Fijkiu-Trie. Sooleñ mun rodna, eñ Tungled blikna.

Nu ef þesse Verk þiña Handa, hvør þo eckert Jllt hafa giørt, flya so og skyla sier fyrer þijnu Auglite; Hvørneñ fæ eg aumur Syndare stadest ad koma fyrer þijna Augsioon? Himnar Hiñnaña, edur þeir hædstu Himnar eru ecke aan Saurgunar i þijnu Auglite; Hvad mun eg þa aumur vera aan Saurgunar, þar eg iñdreck Raanglæted svo sem añad Vatn? Nu ef sa Riettlaate kañ naumlega hoolpeñ ad verda; Hvar mun þa sa hiñ Synduge byrtast? Hvort skal eg þa flya? Hiaa hvørium skal eg mier Skiools leita, nema Hiaa

hiaa þier miñ Herra JEsu? Þu hiñ same verdur Doomare, yfer mijnum Syndum, sem vegna miñа Synda ert a Krossenum daaeñ; Þviad svo seiger Skrifteñ, ad Fadereñ dæme øngvañ, helldur hafe hañ Synenum giefed allt Valld til ad Dæma. Fadereñ gaf Synenum allt Valld til ad Dæma, eñ Sonureñ gaf sig sialfañ i Daudañ, so hañ þyrfte oss ecke ad fordæma, og Fødursins Riettlæte yrde samt Fullnægia giørd; Þvi svo stendur þad skrifad: Ad svo Elskade Gud Heimeñ, ad hañ gaf wt siñ Eingieteñ Son, ecke uppaa þad ad hañ skyllde fordæma Heimeñ, helldur ad Heimureñ yrde hoolpeñ fyrer hañ. Hvørn eñ kañ þa ad skie, miñ goode HErra JEsu, ad þu fordæmer mig, þad fyrst þu ert þar til af Fødurnum sendur, ad eg skule fyrer þig hoolpeñ verda? Þu hefur Fullnægiu giørt Vilia þijns Himneska Fødurs, i øllu, Hvørnen skyllder þu þa, hañs Vilia ecke og so Fullnægiu giøra; J þvi ad giøra mig aumañ Saaluhoolpeñ, þad er ecke Vilie þijns Fødurs, ad eirn af þeim minstu Vesælingum fortapest: Nu er eg soddañ eirn lijtelmootlegur Vesælingur i

þijnn Auglite; Eirn lijtelmootlegur Vesalingur og eirneñ fyrer mijnu Auglite, og epter mijnum Doome; Pvi hvad er eg añad eñ Dupt og Aska? Pa er eg og eirneñ i Idkun Gudrækneñar og Christelegra Dygda of lijtelmootlegur og einskis orkande Vesalingur. Framkæm þu þar fyrer a mier aumum og lijtelmootlegum Vesælinge Vilia þijns Himneska Fødurs. Pu ert þar til hijngad komeñ; O! goode JEsu, ad þu skyllder Saaluhoolped giøra þad sem glatad var; Hvørneñ kantu þa ad fordæma þañ sem gyrnest Saaluhoolpeñ ad verda? Synder mijnar aaklaga mig ad søñu, og wtheimta af þiñe Riettvijse eirn straangañ Doom yfer mier; Eñ þu hefur mijnar Synder af mier teked, og uppa þig siaalfañ lagt. Pu hefur i burt teked Synder alls Heimsins; Hvørneñ skylldu þa mijnar Synder vera epter ordnar? Hvørneñ kantu ad vilia fordæma mig fyrer mijnar Synder, þar þu ert þo siaalfviljugur fyrer þær daaeñ, so þær yrde kvittar? Pu ert daaeñ fyrer Synder alls Heimsins; Hvørneñ skyllder þu þa ecke vera daaeñ og fyrer mijnar Synder? Hefder

þy

þu viliad epter strꜳngaſta Riette vid mig høndla, Herra JEſu, Hvad ſkyllde þier þa hafa geinged til þeſſ ad vilia nidur ſtijga af Himnañа Hꜳſæte og Jklædaſt mijnu Hollde, og lijda Dauda og Kroſſens Pijnu?

Sie ſvo ad Døſlarner ꜳſake mig og krefieſt Kvala yfer miñe Sꜳlu, fyrer þaug Verk ſem hun hefur epter þeirra Aeggian framed Pa ſvara eg þar til; Ad Høfdinge þeſſa Heims er dæmdur, og med þig hefur hañ eckert; Eñ hafe hañ eckert med þig, þa hefur hañ og eckert med mig ad giøra, þviad eg trwe ꜳ þig DRotteñ miñ, hvar fyrer þu ert i mier og eg i þier. Klage Døfulleñ mig, þa klagar hañ þar þiñ Vin, hañ klagar þar þiñ Brooder, Hañ klagar þar Barn og Erfingia þeſs Eilijfa Himneſka Fødurs, Eñ Omøgulegt er, ad þu muner ſtrꜳngañ Doom leggia ꜳ þiñ Vin, ꜳ þiñ Brooder, og þitt Barn.

Sie ſo ad Moyſes ꜳklage mig med ſijnum Doome, og hroope Bølvan yfer mier, med þvi eg hiellt ecke allt þad ſem ſkrifad ſtendur i Løgmꜳls-Bookeñe, Pa ſvara eg þar ſvo til, ad þu HErra JEſu Chriſte, ert ordeñ Bølvan miña vegna og fyrer

mijna Skulld, so ad þu feinger mig frelsad fra Løgmaalsins Bølvan. Eg hura ecke uñ þo Moyses hroope Bølvan yfer mier, þegar þu kallar mig Blessadañ, þvi er eg i fullre Von, ad eg mune aptur faa ad heyra þesse Ordeñ til mijn tølud, aasamt ødrum: Komed Blessader mijns Føðurs, og eignest þad Rijke, sem ydur er fyrerbwed, etc. Aklage mig Moyses sem hañ vill, samt muntu ecke klaga mig fyrer þijnum Himneska Fødur, helldur muntu vera miñ Medalgaangare hiaa hønum.

So Ottast eg þa ecke Bølvan Moysis, Þvi þu hefur i burt teked þa hañs Handskrift, sem var a moote mier. Sie svo ad þeir hinu Fordæmdu klage yfer mier, og wthroope ad eg hafe i sømu Glæpe falled sem þeir, og eige þvi ecke helldur Vægd ad faa eñ þeir, Þa jaata eg og medkieñe, O! Herra JEsu, J þvi ad Syndga, er eg þeirra Jafninge, Eñ þad, ad eg kañast vid mijna Synd, og snijst med riettre Ydran til þijn aptur, miñ Endurlausnare, Þad skilur a millum mijn og þeirra. Þu seiger so sialfur, Ad sa sem heyrer þitt Ord, og trwer a þañ sem þig sende, hañ hafe þad Eilijfa Lijf, og hañ skule ecke koma fyrer Dooomeñ, Nu er eg sa hiñ same sem heyrer Ord þitt DRotteñ, og trwe a þig, Eñ þott þad sie veyk Trw, þa er þad þo samt Trw. Eg trwe ad sønu HErra, Eñ kom þu til Hiaalpar miñe veikre Trw, Eg trwe, Eñ eg bid þu auker mijna Trw. Þo eg sie sekur i øllum Syndum þeirra Fordæmdu, þa muntu DRotteñ hiaalpa, svo ad eg verde ad eins i Vantrwñe ecke med þeim fundeñ.

Aller

Aller þesser Aklagendur skielfa mig, Eñ þu sem ert Doomareñ, þu Hughreyster mig aptur, Þviad þier fieck Fadereñ alla Magt til ad Dæma, Hañ gaf allt i þijnar Hendur, eñ þu wtgaist þar a moote sialfañ þig fyrer alla Meñ, Jæ, þu wtgafst sialfañ þig, fyrer þiñ Søfnud, so ad þu hreinsader hañ, og helgader med Laug Vatnsins i Ordenu. Hvørneñ er møgulegt þu feller stræingañ edur hardañ Doom yfer þa, fyrer hvøria þu hefur wtgiefed sialfañ þig i Daudañ, Jæ, i Krossens Dauda? Þu munt vissulega þitt eiged Hollð ecke hata, Nu erum vier Limer þijns Lijkama, Hollð af þijnu Hollde og Bein af þijnum Beinum, Amen.

## Fertugasta og Siötta Hugvekia.

Um þad, hvørneñ Mañ skal læinga epter eilijfu Lijfe.

Ecke æittu Saala mijn, ad elska þetta fallvallta Lijf, sem skyndelega tekur eirn Enda, helldur hitt sem a epter kiemur og øngvañ Enda tekur. Uppstijg þu þaingad i heilagre Gyrnd þijns Hiarta, þar sem ad er Æska fyrer utañ Elle, Lijf fyrer utañ Dauda, Glede fyrer utañ Hrygd, Rijke fyrer utañ Umskipte.

Hafe þitt Hiarta Lysting a Fegurd og Frijdleika, þa vit þu, ad þeir Riettlætu skulu skijna so fagurt sem Sooleñ, Þocknest þier Styrkleike, og Liettleike, þa skalltu vita, ad þeir Utvolldu munu vera lijker Einglum Guds. Giedjest þier læinger

Lijf-Dagar med sijfelldre Heilbrygde, þa skalltu vita ad þar verdur eilijf Heilbrygde og Heilbrygdur Eilijfleike. Lyste þig ad hafa allskins Nægd, þa vittu, ad Utvalldꝫ er munu sediast af allra handa Nægd, þeg- ar Diirdeñ DRottens verdur openberud. Hafer þu Skemtun af fögrum Saung-Hlioodum, þa sijngur þar Einglaña Flo- ckur sætlega, fyrer utañ Enda og aan Af- laatz. Gyrne þig ad hafa Epterlæte, og hreinferduga Vellysting, þa siaa þu, Gud mun þa dryckia sijna med sijfelldum Str- aume hvilijkrar Vellystingar. Gyrnest þu Vijsdoom og Speke, siaa, ad siaalf Spekeñ Guds lifanda, mun sig þar fyrer þeim Utvolldu Openbera, og liooslega laa- ta sig siaa og þeckia af öllum. Glediest þier Vinaatta og Kiærleike, þa siaa þu Ut- valder munu elska Gud framar eñ siaalfa sig, og hvör aññ iñbyrdes svo sem siaalfa sig, og Gud mun og elska þa framar eñ hv- or eirn kañ ad elska siaalfañ sig. Hafer þu Lyst a goodu Samlynde, þa siaa þu, þar vilia aller eitt. Gyrnest þu Magt og Kra- pt til ad koma þvi af stad sem þitt Hiarta gyrnest, þa siaa þu ad þeim Utvoldu ver-

dur

dur hægt allt þad ad giora og framkvæma sem þeir vilia, en̄ þeir vilia eckert utan̄ þad sem Gud vill. Þeir gyrnast þad eckert, sem þeir giete ecke til Leidar komed; Þvi þeir gyrnast eckert utan̄ þad sem Gud vill þeir gyrnest. Giediest þier Metord og Rijkedæme, þa siaadu, Gud mun setia sijna Trwlynda Þienara yfer myked. Þocknest þier ad lifa i Uggaleyse og aan Otta, þa siaa þu, ad þeir enn̄ Utvøldu, eru svo visser þar uppa, ad þeir munu þa eilijfu Sæluna alldrei med nockru moote missa, So sem þeir eru visser þar um̄, ad þeir vilie hen̄e alldrei siaalfkrafa edur viliuger sleppa; Þvi þad vita þeir vel, ad ecke kan̄ Gud, sem þa elskar, ad taka þa Farsælld fra sijnum Elskendum Naudugum; Þeir vita þad og eirnen̄ vel, ad Gude er eingen̄ Hlutur yfersterkare, sem kun̄e Gud og þa Nauduga ad skilia.

Hvad sem þaa Utvøldu kan̄ til ad laanga edur gyrnast, þad fin̄a þeir þar strax, þviad þeir siaa þar þan̄ fyrer sier Auglite til Auglitis, i hvørium ad eru aller Hluter. Svo stoor eru Giæde þess Lijfs, ad þar kan̄ eingen̄ Mæling aa ad komast, so

 morg,

morg, ad þaug kuña ei teliast, so Dijrmæt, ad þaug kuña ei metast. Þar er Eilijf Heilbrygde Lijkamaña, þar er lioomande Hreinferdugleike Hugskotaña, þar er Dyrd og Nægd Gudlegrar Vellystingar; Þar er Unan og Fognudur, vegna Utvaldra Iñbyrdis Samteingingar. Þar er furdanleg leyptrande Fegurd aa Lijkamanum, og allur Ofullkomlegleike i burt tekeñ fraa Saalunum. Þeir Utvoldu munu þar glediast, vegna þess Lystelega Unadar-Stadar, sem þeir þar hafa vegna aastwdlegrar Uñgeingne Heilagra, i hvørre þeir skulu Rijkia, og vegna þeirrar Vegsemdar sem þeir þar faa ad þiggia; Þeir hroosa þar Sigre yfer Heimenum, hvørn þeir hafa forsmaad; Og yfer Helvijte, sem þeir hafa umflwed. Sw minsta Dyrdareñar Korona i eilijfu Lijfe, Hun verdur myklu Dijrmætare eñ Heimureñ Pusund Siñum reiknadur, þvi hun er Oendanleg, Eñ hañ Endanlegur; Þar þarf ecke þad ad Ottast, ad eirn mune þar aññañ øfunda, þott aññar skijne þar fegra i Dyrdeñe eñ aññar, þvi þar er i einum og sierhvørium rijkiande Eining Kiærleikans, vegna

þess

þess Hædsta Kiærleika sem i þeim ollum bijr og bygger. Hvoria Vegsemd sem eirn Utvaldur fær, þa munu aller hiner adrer, þar so yfer glediast og fagna, so sem þeir hefde hana siaalfer ødlast.

Þar er eingeñ Hlutur a Himne nie a Jordu svo goodur sem Gud, þvi kuñe ecke ad vera a Himne nie a Jordu svo stoor Giæde nie þvilijk Glede, sem ad siaa Gud og eignast Gud; Þar fyrer, ef nockur sære Gud um̃ Eitt Augnablik, þa geinge sw Glede yfer alla adra Glede, sem vier kuñ-um ad skynia; Þviad i þvi Dijrdareñar Rijke, þa munum vier siaa Gud i siaalfum sier; Vier munum þar siaa Gud i oss og oss i Gude. A Vegferdar-Leid þessara Lijf-Daga, þa er Christur hia oss, eñ þo svo sem duled og huled i Ordenu og Sacramentunum. Vier þeckium hañ nu wt af hañs Orda Kieñingu; Eñ i þvi Okomna Lijfenu, þa munum vier þeckia hañ af nærverande Asijnd og Alite; Þegar hañ wtbijter oss Braude eilijfrar Sadningar.

Þvi þad mun eins far a, og þegar Læresveinarner þecktu ecke Christum a Leid-eñe, fyrre eñ um̃ sijder, þar þeir voru kom-

ner til Nattstadar; J þvi hañ Brauk Brauded.

Sw Himneska Jerusalem, hefur eckert Mustere, þad sem med Høndum sie giort, og ei Sool nie Tungl, þvi heñar Mustere er Gud, hvør og eirneñ er heñar Byrte og Lioos; J þvi Okomna Lijfenu siaaum vier þad sem vier høfum vonad, og unum oss med fullkomlegum Notum vid þad sem vier høfum hier elskad. Þegar upp var smijdad Jerusalems Mustere; Þa heyrdest hvørke Axar-Hliood, nie Hamars Hliood; So mun þad og tilgaanga, i þeirre Himnesku Jerusalem; Þar mun hvørke heyrast Straff nie nockur Hørmung, þviad þeir andlegu Steinarner, med hvørium þad Mustere verdur uppbygt, (þad eru Guds Utvalder) þeir eru aadur fyrre hier i Heimenum tilreidder og høggner, med Øxe Mootlætesins og Hørmungaña.

Drottningeñ sem kom til Kongsins Salomonis, hun er ein Figwra og Fyrermyndan, uppaa hvøria og eina Christna Saal, sem kiemur i þa Himnesku Jerusalem til Christum; Hun geingur iñ med mykelle

Fylgd

Fylgd og Forumeyte Heilagra Guds Eingla, berande Gull og Gimsteina, adskilianlegra Mañ-Kosta og Mañ-Dygda. Og sem hun er þar iñgeingeñ, mun hun furda sig uppaa Speke Kongsins Christi, Item, uppaa adskilianleg Embætte Piendraña, þad er Heilagra Eingla og Utvaldra Maña; Hun mun og eirneñ daast ad Rietta-Fioldanum, þad er ad øllu þvi sem þa Andlegu Sadning giefur. Hun mun og daadst ad þeim dijrmætu Klædum i þessa Kongsins Høllu, þad er, ad Dijrd og Vegsemd Lijkamaña, þeirra Utvøldu Christi. Hun mun og laata sier myked fiñast til Hwssens Fegurdar, þad er til Stærdar þeirrar Himnesku Hallareñar. Hun mun og lijka furda sig uppaa þaug mørgu Offur, sem hun þar sær ad siaa, þad er, hun mun med Furdu heyra uppaa þa margfølldu Lofgiørd, sem DRottne verdur færd i Himnenum, og mun þvi med stoorre Forundran medkieña, ad sier hafe ei vered mogulegt øllu þvi ad trwa sem hun nu sier og heyrer.

Vertu nu Hughraust þu Riett-Trwud Saala, og hugleid og skoda einvirdelega

hvad myked gott þier er fyrerbwed, þaangad skyllde Hugskots Andanum reña, sem hañ a sijdar meir ad koma; Pad er tilbærelegt þott vier kieppunst þaangad, i Tijmanum, sem vier skulum sijdañ vera i Eilijfdeñe.

Hvør ecke hefur Hiartans Gyrnd til ad gaanga iñ i þessa Dyrd sijns HErra, hañ kiemur þar ecke; Vilier þu þa vænta þier ad meiga seirna meir koma i Auglit Drottens, svo stunda þu epter Heilagleikanum, þvid hañ er siaalfur Heilagur. Vilier þu meiga vænta þier Samfielag skapar þeirra heiløgu Eingla; So siaadu vel til, ad þu med þijnum Syndum reker ei fra þier þeirra Pioonustu. Sie so þu vænter þier þess Ellijfa; Hvar fyrer gyrnest þu þa so frekt þad stundlega? Sie so þu leiter epter þvi Okomna Heimllenu; Pvi gyrnest þu þa ad hafa hier fastañ Samastad? Sie so þu hafer Hiartans Gyrnd ad koma til Christum, þvi skalltu þa Ottast Daudañ? Pad være hañs ad Ottast Daudañ, sem ecke acktade uppa ad koma til Christum.

Sie so þu vilier gaanga iñ i þa Himnesku Jerusalem,

ecu, Hvar fyrer kvolar þu þig i so mørgum og myklum Syndum? Þar þo so stendur skrifad, ad eckert Saurugt skule þar iñ gaanga? Vilier þu neyta nockurn Tijma af Lijfsins Trie, þa naadu Christo hier i þessum Heime med Trwñe, Hvor ad er þad rietta Lijfsins Tried, Þvi so stendur þar skrifad: Sæler eru þeir, sem þvo sijn Klæde i Lambsins Bloode, so ad þeirra Magt sie a Lijfsins Trienu, og þeir uñ Hlided iñgaange i Borgena. Ut af þeirre Borgeñe verda Hundarner wteluckter, Þar fyrer varastu alla Otuckt og Saurlifnad. Þar eru wtelukter Mañdraaparar, Þar fyrer varastu Heypt og Reide. Þar eru wtelukter Skwrgoda Dijrkendur, Þar fyrer varastu Fiesijnk og Agyrne. Þar eru wtelukter aller Lygarar, Varastu þvi alla Syndareñar Voudsku (allar Synder kallast Lyge i Heilagre Skrift). Gyrnest þu ad vera Giestur i Lambsins Brwdkaupe, So laattu þig lannga epter Brwdgumans Tilkomu. Andeñ og Brwdureñ seigia, Kom þu. Hafer þu ecke Þant Andans, fyrer hvorn þu hroopar og bidur ad DRottiñ vilie koma, þa mun Brwdgumeñ alldrei Iñleida þig i þad Himneska Brwdkauped. Þu ert þa ecke rietteleg Brwdur, ef þu gyrnest ecke Tilkomu Brwdgumans. Sie so þu gyrnest ad faa Samastad i þeim nija Himne, og þeirre niju Jord, Hvar fyrer helldur þu þier þa so fast vid þeñañ Gamla Heim, so sem þu villder ecke vid hañ skilia? Vilier þu faa ad ødlast Skaparañ, Þvi lijmer þu þa þitt Hiarta so fastlega vid Skiepnurnar? Sie so þu vænter hier Uppbyggingar af Gude a þvi þijnu Hwse sem ecke er med Høndum giørt, og skal vera Eilijft a Himnum, Þvi skalltu þa ecke gyrnast, ad þetta Jardneska Hreyse i hvoriu vier bwum, mætte nidurbriootast? Sie so þu vilier Yfer-Klædeñ ødlast, þvi sier þu þa ecke til, ad vera ecke fundeñ alldeiles Nakeñ under? Bwe ecke sw Heilaga Þreñing i þijnu Hiarta, hier med Naadeñe, þa mun hun ei helldur þar bwa sijdar meir i Dijrdeñe. Faer þu ecke i þessu Lijfe nockurn Smeck Eilijfrar

Farsælldar,

Farsællbar, þa fær þu þañ alldrej fyllelegañ i Ókomnu Lijfe, AMEN.

# Fertugasta og Siøunda Hugvekia.

Uñ þa Farsælld, þegar Madur fær sijdar meir ad sia og skoda Gud i Eilijfu Lijfe.

Hwse mijns Føđurs eru margar Verur seiger Endurlausnareñ. O! DRotteñ, eg gyrnest ad sia þañ Stad, þar þu hefur mier ellijfa Vistarveru fyrer-bwed, þviad eg er hier ecke Heimilis-Madur, helldur Vegfarande, svo sem aller mijner Forfedur. Mijner Vegferdar Dagar eru fáer og iller; Þar fyrer laangar mig wr þessare Utlegd epter þvi Himneska Føđurlande.

Eg gyrnest ad sia Nægd Audæfa og Giæda Drotteñs a Lande lifande Mañа. Þesser Lijfdagar lijda i burt so sem añar Skugge. Mijner Lijfdagar hafa eirn vissañ Skamt, og mitt Lijf er so sem ecke pared fyrer þijnu Auglite; Hvad skal eg vona añars eñ uppa þig DRotteñ?

O! Drotteñ JEsu, nær mun þad koma, ad eg meige þig siña og vera hia þier? Nu skal eg Openberast fyrer þijnu Auglite. So sem Hiørteñ laangar epter Vatns-

Brũnenum, so lenngar mijna Ond epter þier miñ Gud.

O! þu Fognudur yfer Fognud, ꝏn hvørs ad þar er eingeñ Fognudur; Nær skal eg til þijn iñgꝏnga, so eg meige siꝏ Gud miñ, sem þar bygger i þier? Fyrer þijnu Auglite, fæ eg Nægd Fagnadar, og gledelegt Lijf til þiñar hægre Handar æfenlega. Þu giører mig druckeñ af Nægdar Giædum þijns Hwss, og muntu dryckia mig med Lystingu, svo sem med reñanda Vatne, þviad hia þier er Lijfsins Uppsprettu Bruñur; O! hvad æskelegt Lijf. O! hvad Blessud Farsælld, þar su allra Helgasta Preñing mun uppfylla alla vora Hiartans Gyrnd og Epterlꝏngan, hvar su blessada Preñing mun af oss sien verda fyrer utañ Ending, elskud fyrer utañ Leida, Lofud fyrer utañ Mædu og Preyting. Ad fꝏ Gud ad siꝏ, þad mun gꝏnga yfer allañ Fognud, og ad siꝏ Christum og lifa med honum, og heyra hañs ꝏstwdlegar Samrædur, þad mun gꝏnga yfer alla Gyrnd vors Hiarta.

O! JEsu, ꝏstwdlegaste Brwdgume miñar Saalar, nær villtu iñleida þijna Brw-

de i þiñ Konunglega Sal? Hvad kañ þar ad vanta? Hvad kañ þar ad þikia aa-faatt? Hvad kañ þar framar ad Oskast, þar sem Gud er allt i øllum? Þar verdur Gud Fegurd fyrer Augum þeirra Riettlaatu, Hunaangs Sætleike i þeirra Smeck, Feg urdar-Saungur i þeirra Eyrum, Ilmande Balsam fyrer þeirra Vitum. Hid miwkasta Bloomstur fyrer þeirra Ahreif-ingu. Gud mun vera allt, og wtdeila so þar af hvørium þad Gooda, sem hañs Hiarta gyrnest.. Hvør þar gyrnest Lijfed, Heil-bryadena, Frideñ, Vegsemdena, þad skal Gud vera allt i øllum. Þa Leyndardoo-ma DRottens, sem þeir Yppurstu Christ-neñar Lærefedur og Doctores hafa ei kuñ-ad ad skilia hier i Lijfe, þa munu Smaa-Børneñ kuña ad skilia þar og understan-da; Þar mun hiaa oss vera Christur i sij-num Mañdoome, og med liwfustu og El-skulegustu Ordum kieña oss ad skilia þa stooru og huldu Leyndardooma, sem aa-hræra vora Saaluhiaalp. Hvad mein-ar þu ad sætleg mune þa hañs Rodd, Og hvad Dijrdarlega føgur hañs Asiaana? Meinar þu ecke, wthellt Myskun mune

flioota

flioota og driwpa af hañs Vorum, og hañ mune ecke med Dyrd og Vegsemd Koronadur framgaanga? Nu þad fyrst Gud verdur allt i ollum, þa verdur hañ fullkomlegt Vijsdooms-Lioos i Skilningenum, Gnægd Fridarens i Viliauum, Tilhlackan til Oendanlegrar Eilijfdar i Miñenu. Sonureñ mun sedia Skilningeñ med fillelegre Þeckingu. Heilagur Ande mun sedia Viliañ med sætlegre Elsku, eñ Fadereñ mun Miñed Mañsins sedia og gledia med þvilijkrar Þeckingar og Elsku Jñdælle Endurmiñingu.

Þu goode Gud munt vera þad Lioos i hvoriu vier siaaum Lioosed; Þad er, vier munum siaa þig i þier siaalfum; Jaa, vier munum siaa þig i Liooma þijns blessada Andlites, þegar vier lijtum þig Auglite til Auglites; Jaa, vær munum ecke ad eins siaa þig helldur munum vier og eirneñ lifa i hia þier, og ecke ad eins lifa i hia þier, helldur og eirneñ lofa þig, og ecke ad eins lofa þig, helldur og eirneñ glediast aasamt med þier; Ecke ad eins med þier glediast, helldur og eirneñ verda þijnum Heilogum Einglum Lijker; Jaa, ecke ad eins verda Ei-

 nglum,

nglunum lijker, helldur og eirneñ ad verda sialfum þier lijker, þu sem ert Gud Blessadur um̃ alla Eilijfd.

Hier uppaa maa sig maklega laata furda hver ein Christeñ Saal, og daast ad Myskunseme sijns Endurlausnara og Saaluhiaalpara, hvør ed ecke alleina took oss sijna Ovine aptur i Saatt vid sig, fyrergaf oss Syndernar, og gaf oss sitt Riettlæte, og Arfleidde oss til Himnarijkis, helldur og eirneñ þa gierer hañ oss Einglunum og sialfum sier samlijka.

O! þu Sæla og Blessada Borg, O! þu Himneska Jerusalem, O! þu Heilaga Heimele þeirrar Heilogustu Guddoomsins Preñingar. Nær mun sa Tijmeñ koma, ad eg meige iñgaanga i þitt Mustere? Mustere þeirrar Himnesku Jerusalem, er Lambed Guds, Jaa, þad Lambed Guds, sem burt tekur Veralldareñar Synder, og giefur oss sitt Riettlæte, og er slaatrad þeirra vegna fraa Heimsins Upphafe. Nær mun eg i þessu Mustere meiga tilbidia miñ Gud? Jaa, tilbidia Gud i Gude?

Nær mun sig Sooleñ mier uppreña, sem upplioomar þa heilogu Borg? Eg er

eiñ

eñ nu i Utlegd og Fiarlægd fra mijnu Fødur-Lande, eñ samt er mier ætlud stoor Arfleifd, þvi þeim Riett-trwudu er fyrer Christum giefeñ Magt Guds Børnum ad verda; Eñ sieum vier Guds Børn, þa erum vier og hañs Erfingiar; Jæ, Erfingiar Guds, eñ Sam-Arfar Christi.

Tak þig nu upp Sæl mijn, og ber þig ad næ þijnum Arfe, DRotteñ er miñ Erfda Pantur, og mijn stoor Laun. Hvad er þad sem sw Myskunsamasta Milldeñ kuñe framar ad giefa? Hun giefur oss Soneñ siñ, Hun giefur oss siælfa sig, Og ef nockud være eñ nu dijrmætara og meira verdt a Himne og Jørdu, Pa munde hun þad og eirneñ giefa, Vier lifum i Gude, Vier erum Mustere Guds, Vier eigum Gud hier i Anda og Leindardoome, og þar i Raun og Medtekningu. Par mun vor Von framkvæmast, Par munum vier ecke alleina um Stund vera, helldur Heimele og stødugañ Bwstad eiga um alla Eilijfd, Amen.

# Fertugasta og Attunda Hugvekia.

Um þad allra æstwdlegasta Samlag og Umgeingne sem vier skulum hafa vid Heilaga Eingla i eilijfu Lijfe.

EPter Upprisu þeirra Framlidnu, þa munu hvørke Konur nie Karlar Gipta sig, helldur munu Meñ vera so sem Einglar Guds a Himnum. Hvør kañ Verduglega ad hroosa þvilijkre Tign og Ypparlegleika þeirra utvøldu? Nær mun þvilijk Dijrd og Vegsemd hafa kom-

ed i nockurs Daudlegs Mañs Hiarta, svo hañ kuñe hana ad skynia og skilia? Pa munu þeir Utvølldu so sem endurnyader af Upprisuñar Dijrd og Liooma fæ ad siæ pad blijda Auglit DRottens, af hvøriu þeim stendur øll Heill, øll Blessan, og allt Ynde og Epterlæte. Pa mun vera laungt i burt allur Daudans Otte og Kvijde, og øll Spilling og Hnignan Natturuñar. Eg sæ Gud fra Auglite til Auglitis, Og mijn Saala vard hoolpeñ, seiger sa Heilage Forfader Jacob. Nu ef pad kuñe svo miøg stoora Glede med sier ad færa, ad fæ ad siæ Gud um̃ Stundarsaker, Hvad mun pa hitt orka storrar Glede og Fagnadar, ad fæ ad siæ hañ um̃ alla Eilijfd? Ef pad færde med sier Sæalareñar Lijf og Hiaalpræde, ad meiga siæ Gud i Mañlegre Mynd; Hvad mun pa myklu framar pad færa med sier eilijft Lijf og Farsælld, ad meiga siæ hañ Auglite til Auglitis? Hvad kañ pa framar meir ofañ a soddañ Farsælld ad aukast? Edur hvad skulu þeir Utvølldu gyrnast meir eñ þessa farsælu Fridar-Stioonena? Samt sem adur veiter Gud þeim eñ pa pad Epterlæte,

lœte, ad þeir meiga faa ad vera i þeirre aastwdleguſtu og ſœtuſtu Umgeingne Einglañа, Jaa, ei alleinaſta ad vera i þeirra Umgeingne, helldur og ſo ad vera þeim samlijker i Lijkamans Hægd, Liooma og Odaudlegleika.

Vier munum Jklœdaſt ſama Bwnade og þeir, ſem ad eru þaug hvijtu Klœdeñ, i hvørium vier munum ſtanda frame fyrer Lambſins Stoole, ſyngiande DRottne eirn eilijfañ Lofſaung. Vier munum og ſkijna og liooma under ſømu Dyrdareñar Koronu og þeir; Vier munum og hafa ſømu Odaudleikans Frijheit ſo ſem þeir.

Vid hofum ſied Eingel DRotteñs, og munum þvi deya, ſagde Manoha Fordum. Eñ lœngtum ødruvijs verdur þvi hœttad fyrer oſs, þvi ad vier munum ſiaa Puſund Puſunda, og Tijn Puſundſiñum Hundrad Puſunder Eingla, og munum lijfa Eilijflega. Epter þvi vier eigum ad vera samlijker Einglunum, þa þurfum vier ecke þad Ottaſt, ad Syndeñ mune framar meir giora oſs þeim Olijka; Vier munum afklœdaſt Ham Syndſamlegrar Nœtturu og munum ſo Jklœdaſt aptur Klœde Hiar-

 ſprœde

lpræðesins, og munum þar utañ yfer J-
færder verda i hañ Sakleysesins og Mein-
leysesins Skrwda. Þegar þar er komed,
þa verdur eingeñ stygdur, þar reideſt og so
eingeñ, þar er eingeñ Gyrndar-Brune,
Eingeñ Metnadur nie Æru-Girrugheit.
Þar þreytunſt vier ecke under neirnre
Synda-Byrde, og ecke þurfum vier þar
Synder vorar ad syta og grææta, og ecke
framar meir ad Ottaſt nein Daudleg
Sææltreñar Saar, þvlad Leoned af Ky-
ne Juda hefur yferuñed og Sigureñ feing-
ed, og vier høfum og eirneñ aller i hañs
Krapte Sigureñ feinged.

Epter þvi vier eigum ad verda Sam-
lijker Einglunum, þa læængar oſs hvørke
til Matar nie Dryckiar. Gud siaalfur
mun vera vor Fæda, af hvørs Elsku vier
munum sadder og mettader verda. Gud
mun vera vor Fædsla, sem alleina Endur-
nærer og alldrei tæler. Þa Utvølldu mun
hvørke Hwngra nie Þyrsta; Þa mun hv-
ørke Soolsnie Tungl nie Hite breña, þvi-
ad þeirra Myskunar Herra stijrer þeim,
og hefur Hønd yfer þeim, og hañ mun gi-
efa þeim ad drecka af Vatns Bruñenum.
Þar

Þar mun wt af þeirra Lijfe frammsliota Brunnur þess lifanda Vatnsins; Þar verdur tilreidt eitt feitt Giestabod, af klaaru Vijne, af Feite, af Merg, af Dreggialausu Vijne. Ad þessare Veitslunne munum vier sitia, Gladværer verda, og af Hiartans Glede haatt Lof siyngia.

Allt þetta, O! Herra Jesu, mun frammkoma, og fullkomnast i Anda og Sannleika; Þviad þaug Ord sem þu hefur til vor talad, eru Ande og Lijf, og med þeim Ordum sem hier i þessu Lijfe eru tijdkud, þa wtmaalar þu oss og fyrer Siooner setur Glede og Fognud þess eilijfa Lijfsins, þvi epter þvi vier eigum ad vera Einglunum samlijker, þa mun og Daudans Otte verda fra oss numenn. Daudenn er þa uppsvelgdur i Sigur, Daudanum er þa nidur hrunded ad eilijfu, og Gud þurkar þa øll Taar af Augum sijns Foolks, þar fyrer mun þa vera Glede aan Hrygdar, Heilsa aan Harmkvæla, Lijf aan Mædu, Lioos aan Myrkra. Elskann mun alldrei koolna; Gledenn mun alldrei mijnka; Þar skal alldrei Andvorpun heyrast, og alldrei til nockurs Meins kunnast, og ecke neitt hryggelegt siaast, helldur

ur allt Gledelegt og Ununarsamlegt. Par verdr hid stærsta og besta Andvaraleyse, og Andvaralaus Roosemd, Roosamleg Unun, Unun arsom Farsælld, Farsæl Eilijfd, Eilijf Blessun, Blessud Preñing, Preñingareñar Eining, Einingareñar Guddoomur, og Guddoomsins farsælleg Sioon ad Eilijfu.

Tak þig nu upp Sæl mijn, og athuga eñ nu Jñvirdelega, þa Æru og Vegsemd, sem ockur er veitt af Christo. Vid skulum vera i Samfielagskap Englaña, og Hofud-Englaña, Thronaña og Herra-Stiett aña, Høfdingiaña og Magtar-Valldaña, Jaa, ecke ad eins eigum vid ad vera i þeirra Samfielagskap og Umgeingne, helldur eigum vid ad verda þeim samlijk.

Par skulum vid faa ad siaa og þeckia þa Heilogu Eingla, sem ockur hafa ædur fyrre i þessu Lijfe vered af Gude tilskickader til Verndar og Pioonustu. Eñ ecke munum vid upp fraa þvi þurfa leingur vid þeirra Pioonustu, helldur munum vid þa una ockur vid þeirra Sambwd og Nærveru. Vid þurfum þa ei leingur ad gyrnast þeirra Vernd, helldur skulum vid

þa

þa gledia ockur af þeirra Samvistum, og skoda klaarlega þeirra lioomande Fegurd med ockar forklaarudum Augum.

Epter þvi vier eigum ad verda Einglunum lijker, þa munu vorer Lijkamer, sem hier eru Svottþætter, Vanmaattuger og Daudleger, umbreytast og verda Andleger, Kroptuger og Odaudleger, Ja, Vissilega munu þeir verda Liomande, þvi þeir munu verda Naaleger Gude, hvor ed bijr og bygger i þvi Liose sem eingen kan til ad komast, og er Liosenu Iklæddur. Oforgeingeleger munu vorer Lijkamer verda, þviad þeir munu vera Einglunum, og lijka Forklaarudum Lijkama Christi samlijker. Þeim verdur nidursaad Forgeingelegum, en þeir upprijsa aptur Oforgeingeleger. Þeim verdur saad i Vansemd, En munu upp aptur rijsa i Vegsemd. Þeim verdur nidur saad i Veikleika, En rijsa upp aptur i Krapte. Þar verdur nidur saad Kistlegum Lijkama, en rijs upp aptur eirn Andlegur Lijkame, hvor ed mun lioma so sem Geyslar Himensins ad Eilijfu.

Kom HErra JEsu, og dvel ecke, Kom HErra JEsu og laat oss saa ad naa þvilijkre Dijrd og Vegsemd, Amen.

## Fertugasta og Nijunda Hugvekia.

Um þær Feikna Kvaler sem þeir Fordæmdu verda ad lijda i Helvijte.

Hugleid Christen Saala, hvad hardar og þwngar ad sieu þær Helvijtsku Kvaler og Pijsler, og so muntu hæglegast hept gieta Gyrnd og Vilia þijnnum, til ad syndga aa mote Samvitskunne.

I Helvijte er Outskijranleg Mergd og Nægd af øllu Illu, En þar þvert aa moote

Skortur og Ohægd aa øllu Goodu, hvad kañ þa ad vanta af øllu Vondu, sem straffader eru, fyrer þa mestu og stærstu Vondsku, þad er Syndena? Hvad gott kuña þeir ad hafa, sem eru fraaskilder og wtelucktter, fraa þvi Ædsta Gooda, þad er fraa Gude? Jaa, J Helvijte mun standa Obærelegur Hite af Elldenum, og nijstande Grimd af Kuldanum, Þar verda sijfelld Myrkur, Þar verdur Svæla og sijfelldur Harmur, Þar verda fyrer Sionum Ognarlegar Mynder Oloflaña, Þar verdur Hroop og Veinan ad Eilijfu, Þar verdur Þurkur og Þorste, Þar verdur ein andstyggeleg Breñesteins Lyckt, Þar verdur nagande Ormur Samvitskuñar, Þar verdur Otte, Þar verda Harmkvæle, Þar verdur Skøm og Svivirding, vegna allra giørdra Synda, sem þa eru øllum ordnar augliooſar; Þar verdur Ofund, Þar verdur Hatur, Þar verdur Faatækt, Þar verdur Skortur a Asijnd og Skodun Guds blijdg Auglites; Jaa, Þar verdur eingeñ good Von epter.

Gud mun med sijnum Krapte fraskilla Elldsins Birtu og Looma fra hañs Hita

og

og Bruna. Brune Elldsins skal þierra til Kvala þeirra Topudu; Eñ hañs Fegurdar Lioome til Fagnadar þeirra Utvelldu. Su litla Birta eda Skijma, sem þar verdur hia þeim Fortøpudu, hun mun ecke verda þeim til neinnrar Ununar, so þeir kuñe vid hana ad siaa, þad þeir meige glediast af, helldur skal hun vera þeim til Sturlunar, þvi þeir munu i giegnum hana siaa þad eina, sem þeir meiga hrygglast af. Þeir Fordæmdu skulu hvorke faa ad lijta Sool nie Tungl, nie Stiørnur, ei helldur Christum siaalfañ, nie hañs Utvalda, helldur munu þeir verda med sijfelldum Taarum og Trega, ad horfa uppa þær herfelegu Mynder Dioflaña og aunnra Maña. Med Eyrunum munu þeir verda ad heyra uppa Vein og Væl Tapadra, og uppa Grenian og Gudlastan Dioflaña i Kvalaña Baale. Þeirra Muñur og Mage mun kveliast i Hwngre og Þorsta, og ecke af neinum lystelegum Smeck Matar nie Dryckiar Endurnærast. Fyrer þeirra Vitum skal vera Obærelegur Breñesteins Odaun, og þeir skulu bæde hid Iñra og Ytra fiña til þess stelkiande Loga, sem sig læser

allt

allt iñ i insta Merg Beinaña. Lijkamer þeirra Tortijndu, munu vera O-æstæleger, dockver, þwnger a sier og seiner; Þeirra Miñe mun kvellast af Uñþeinkingu Syndaña, og þo munu þeir Topudu ecke so ængrast þar af ad þeir hafa syndgad, so sem þar af, ad þeir verda ad missa allar Vellystingar.

Eirn Neiste af þeim Helvijtska Ellde, mun giora meire Kvøl og Pijnu þeim topudu Syndurum, helldur eñ ein Joodsiwk Kviña kuñe ad hafa, þoott hun lægei Neyd sijns Barnburdar upp i heil Þusund Ar. Þeir munu æpa wt af Oltjdanlegum Kvølum, Eñ gnysta Toñum wt af Heiptar-Huga, og Ofund vid Gud og Utvalda. Sierhvør ein Synd og Løstur mun hafa sitt eiged Straff og sierlega Kvøl. Eins og þad ad Mañ kañ epter aungvu þvi ad længa i eilijfu Lijfe, sem hañ fææ ecke! So fær Madur þad eckert i Helvijte, sem hañ epterlængar og gyrnest.

Þeir Fordæmdu munu øngva Hugar-Hægd þar af hafa, þott þeir hafe i þessu Lijfe leiged i adskilianlegum Vellystingum, helldur mun Miñing og Uñþeinking þeir-

ra fyrre Vellystingañа þa pijna og særa þeirra Hiarta meir og framar, og þeir Fordæmdu munu øngva Hugar-Hægd þar af hafa, þott þeir hafe haft sijfellt Sælgiæte Øls og Matar hier i Heime, þvi þeir munu þar ei faa eirn Vatns-Dropa ad svala aa sijnum Oseigianlegum Þorsta.

Øngva Huggun nie Hugar-Hægd mun þeim þad helldur giøra, þott þeir hafe hier i Heime geinged i dijrmætum Klædum, þvi þeir eru þar ecke Iklædder utañ Skom̃ og Fyrerlitningu. Øngva Huggun nie Hugar-Hægd munu þeir þar af hafa, þoott þeir hafe i þessu Lijfe haft stoor Volld og Metord; Þvi i Helvijte mun eingeñ Virding nie Vegsemd vera, helldur sijfelld Hrygd og Andvarpan.

Øngvañ Frooa nie Hugar-Hægd munu þeir og helldur þar af fiña, þoott þeir i þessu Lijfe hafe aadur fordum samañsafnad myklum Aud og Rijkedæme; Þviad i Helvijte munu aller jafnt Øbyrger og snauder vera; Þeir Fordæmdu munu ecke faa ad siaa Guds blijda og blessada Auglit. Eñ þad, ad faa ecke ad siaa Guds blijda Auglit, þad mun þijngra aaliggia, eñ allar adrar

Helvijtiskar

Helvijtskar Kvaler. Være so ad þeir i Helvijte mætte ad eins faa ad siaa Guds blijda Auglit, þa mundu þeir hvørke siñа til Kvala nie Meina, edur nockra Harma.

Þeir Fordæmdu munu siña til þeirra Kvala, sem koma fraa Guds Auglite, eñ siaa þo alldrei ad siaa hañs Blessada Auglit; Guds Reide mun svo sem añar sterkur Stormur, jafnañ uppblaasa og uppæsa Elld eilijfra Kvala. Þeir Fordæmdu munu ei alleinasta missa Guds blijda og farsællega Asynd, helldur og eirneñ munu þeir hormulega kveliast, af grüñlegre Asynd Dioflaña. Þeir enu somu Dioflar munu leggia uppaa þa Refsingarnar, sem þeim hofdu stijrt og stioornad hier i Heime til Illsku-Verkaña, sie so ad Madur verde Stadlaus, og Naalegt Ofbioode, þa hañ sier uñ Stundar-Saker eina Vofu; Hvad meinar þu þa þeim aumu fortøpudu Moñum meige ofbiooda, þar þeir verda uñ alla Eilijfd ad siaa uppaa laungtum skielfelegre Mynder Diofaña.

So verda þeir Fordæmdu, ecke alleinasta ad uñgaungast med Dioflunum ad eilijfu,

lijfu, helldur verda þeir i þessare Um̃geingne af þeim Ohreinu Ondum, og so Plaagader og Pintader; Jaa, sie so ad Diøfulleñ plaage so hardlega þa enu heiløgu og Guds Utvøldu, hier i þessu Lijfe, þegar honum er þo þar til skamtad og aasett lijted Leife af Gude; Hvad meigum vid þa meina ad hañ mune pijna þa Fordæmdu, sem alldeiles eru under hañs Valld sellder, so hañ giøre vid þa epter sijnum eigeñ Villia? þeir Fordæmdu pijnast ecke einunges af Diøflenum hid ytra, helldur og eirneñ af Samvitskuñar Orme hid Jñra.

Hvør Ein og Ein Synd, sem þeir hafa drygt aa allre sijñe Æfe, hun mun vera þeim fyrer Sioonum Oaflaatanlega, og þa mun su Asynd og Jhugun Syndaña, verda þess saarara kveliande Samvitskuna, sem þa er sijdur Von aa Kvittan og Synd aña Fyrergiefningu. Strax sem þær Forsiaalu Jomfrwrnar (þad er þeir Riett Trwudu) eru iñgeingnar med Brwdguminum sijnum Christo, þa er strax apturluckt Dyrunum, Jaa, vissulega verdur apturluckt Dyrum Naadareñar, Dyrum Fyrergiefningareñar, Dyrum Huggun-

areñar, Dyrum Bonareñar, og Dyrum Ydranareñar; Peir Tøpudu munu hroopa og seigia til Fiallaña og Biargaña, fall ed nidur yfer oss og hylied oss fyrer Reide Lambsins. Eñ þad Hroop mun þa ecke stoda; Þviad Himen og Jord munu flija fyrer hañs Reide, so sem þar stendur skrifad: Allar Eyar eru i burt flwnar; Og Fiølleñ fundust ei framar meir; Hvad sem hellst ad eykur Fognud og Glede þeirra Utvølldu, þad hid sama eykur Kvaler og Harma þeirra Fordæmdu. Þar munu ad soñu sumar Kvaler vera stærre eñ sumar, eñ sem ꝏdur mun þeim sem miñe Kvaler hafa ad bera, vera Obærelegt, og ei siña til neirnra meire Hægenda, edur Vægdar þar fyrer; Eñ hiner sem meir plaagast munu þꝏ þo øfunda þar fyrer, ad þeir ecke jafnt med sier hardlega pijnast. Ecke mun þad þeim Fordæmdu nein Huggun nie Harma-Boot, þoott nockrer af þeirra Vinum edur Naaungum, sieu iñkomner i þa Himnesku Sælu, so sem og eirneñ þeir Utvølldu fꝏ øngva Sorg þar af, þoott þeir vite suma af sijnum koma i eilijfar Kvaler.

Pijna þeirra Fortopudu mun so ſtaart og þwngt aa þeim liggia, ad þeir munu ei gieta um̃ neitt añad þeinkt nie hugſad, helldur en̄ um̃ ſijna nærverande Eymd og Plaagu. Þeir Fordæmdu munu hata allar Guds ſkapadar Skiepnur. Þeir munu hata hvør añan̄ Jñbyrdis; Þeir munu hata Guds Heilaga Eingla, Ja, Guds Utvalda Men̄, og lijka vel Gud ſiaalfan̄, vegna þeirrar Riettferdugu Hefndar, ſem þeir hafa J-ratad. Hier i Heime aaſtrijder hvørn eirn fyrer ſig einhvør Ein ſierleg Plaaga edur Mootlæte, ſo ad Eirn lijdur Faatækt, Añar Sootter og Kraankleika, hin̄ Pridie er undervorpen̄ þwngum Prældome, Fioorde liggur under Roog og Laſt-Mælum; En̄ þar mun øll þvilijk Olucka, hvørium einum Fordæmdum i ſen̄ og under eins tilfalla. Þar mun hvørke Lidur nie Limur og eckert Skilningar-Vit a Lijkama þeirra Fortopudu, ſem ecke pijneſt og plaagaſt. J þeſſu Lijfe myker þad allar Plaagur og Mootlætingar, ad Madur vænter ſier og vonar einhvørrar Bootar a ſijnu Bøle; En̄ þar er øngrar Bootar nie Vægdar Von um̃

 allg

alla Eilijfd. Þær Helvijsku Kvaler eru ecke alleinasta Oendanlegar, helldur verdur og alldrei stöt nie Uppgiöf a þeim um̃ eitt Augnablik i þeirre allre Eilijfd. Hvar fyrer þoott aller Meñ sem af Adam hafa fæddst, iñ til þessa Dags, og hier epter munu fæddast iñ til Dooma-Dags, skiptu aller med sier eirnre Pijnu, hvilijkre sem ein fortöpud Saal lijdur i Helvijte, alleina fyrer eina Synd, þa munde þo so mikel Kvol koma a hvörs þeirra Hluta af þeirre eirnre Helvijtskre Plaagu, ad þær mundu laangt gaanga yfer allar þær Pintingar, sem aller Mordingiar, Raans-Meñ og Odaada Meñ hafa lided under Bödlaña Hende, allt fra Veralldareñar Upphafe, og til þessa Dags.

- O Drotteñ Gud, Gief þu oss ad vier mættum so þeinkia um̃ Helvijte, ad vær þaangad alldrei komum, Amen.



## Fimtugasta Hugvekia.

Um̃ það, Hvörneñ Eilijflega munu vara þær Helvijtskn Kvaler og alldrei þrotna.

EF þu Christeñ Saala hugar um̃ Oendanlega Eilijfd Helvijtskra Kvala, þa lærer þu þar af þess betur, ad

þeckia

þeckia hvad Obærelega þwngt mune vera under þeim ad liggia. J Helvijte er geyselegt Baal, sem er breñande um̃ alla Eilijfd. Lijf þeirra Tortijndu er ecke añad eñ Oendanlegur Daude, þeirra Daude er ecke añad eñ Oendanlegt Lijf i Eilijfum Kvølum. J Helvijte þreytast þeir alldrei sem kvelia, og þo kuña hiner alldrei fyllelega wt af ad slockna, sem under Kvølunum liggia.

Elldureñ steyker alltijd og Breñer þa Fordæmdu, Eñ þo alldrei til Fulls; Þar eykur Kvøl aa Kvøl ofañ, og verdur þo hvør ke Þrot nie Ender aa ad Eilijfu. Hvad kañ ad giefa stærre Orvænting eñ þad, ef nockur veit sig eiga nockrar þær Pijsler fyrer Hondum, sem alldrei taka Enda um̃ allar Allder?

Hvad kañ þyngra vera eñ þad, þegar þad kiemur fram̃ vid eirn sem hañ villde sijdst, eñ hitt alldrei, sem hañ elskade hellst; Nu er þvi so vared og hattad fyrer þeim Fordæmdu, ad þeir faa alldrei um̃ alla Eilijfd þad þeir gyrnast, og verda þo þad ad lijda Oendanlega, sem þeir villdu sijst. Under eins og Reide Guds vid þa

Fordæindu rienar, under eins mun og so þad Helvijska Straff linast. Nu rienar hun alldrei um̃ Allder Allda, þar fyrer er ecke nein Von ad þad Straff og þær Kvaler nockurn Tijma þverre. Under eins og þeir Fordæmdu giøra rietta Ydran fyrer sijnar giørdar Synder, Under eins þa munu þeir faa Upplausn a sijnum Illgiørdum; Nu er þar wte og endadur allur Tijme Idranareñar, þar fyrer er þa eingeñ Von Fyrergiefningareñar epter. Under eins og þad Dioflunum leidest ad pijna Saalernar, under eins munu Fordæmder faa Frijun fyrer Pijnunum. Nu lætur Grimd Dioflaña alldrei af; þar fyrer slotar og alldrei Kvølum þeirra Fordæmdu. Under eins og Guds Riettlæte um̃breytest, þa munu Um̃skipte verda a Pijnu þeirra Fordæmdu.

Nu er Guds Riettlæte Oum̃breytanlegt, þar fyrer verda og eingeñ Um̃skipte aa Kvølum þeirra Fordæmdu. Þad er saa Riettvijse Urskurdur þess straanga og Riettlaata Doomara, ad þeir sem hier i þessu Lijfe villdu alldrei vera aan Synda, þeir skulu i eilijfu Lijfe alldrei vera aan

Kvala-

Kvala. Pad er Riettvijst og tilheyrelegt, ad alldrei liñe Hefndeñe af þeim Fordæmdu, þar þeir villdu alldrei liña ad syndga, þegar þeir gaatu þar vid spornad. Þeir Fordæmdu syndgudu so leinge sem þeirra Eilijfd yferstood (þad er so leinge sem þeir lifdu) þar fyrer er Riettvijst, þo þeir kveliest i Guds Eilijfd, þad er, fyrer utañ Enda. Þeir gaatu þvi ecke syndgad leingur, ad þeir lifdu ecke leingur, hefdu þeir maatt lifa hier Æfenlega, þa hefdu þeir og eirneñ haft Vilia til ad syndga Æfenlega. Ellds-Kveikia þess Helvijtska Kvalaña-Baals, er eillijf, sem er Syndaña Saur, þar fyrer er og Kvøleñ i þvi Baalenu eilijf. Ljoot-leike Synda þeirra Fordæmdu, er Gude alltijd fyrer Augum; Hvørneñ kañ þar fyrer ad burt takast su stoora Hefnd, sem Gud hefur eitt Siñ tilskickad þvilijkum Andstygdar-Verkum? Þar til og so, þa er Synden ein Endalaus Vondska, þvi hun er giørd og frameñ a moote þeirre Oendanlegre Giæsku (þad er a moote Gude) Hvar fyrer og eirneñ Christur vard ad gialld a fyrer Syndena Oendanlegañ og Omælanlegañ Bitaling. Þar fyrer er

 verdugt

verdugt, þo þeir sem i sijnum Syndum de-
ya, hreppe Oendanlegt Straff og Pijnu.
Þeir Töpudu wtslocktu i sier, og siñe Saa-
lu hier i Heime eilijfa Guds Myskun, þar
þeir villdu ecke sinwast, þar fyrer er þad ep-
ter Guds Riettferduguin Doome tilheyre-
legt, ad þeir falle i eilijfa Guds Riettlæt-
es Hefnd i ødrum Heime. Gud skapade
Mañeñ i Upphafe, epter siñe eigeñ Mynd,
so hañ kyñe ad lifa med sier ad Eilijfu, Sij-
dañ þegar Madureñ var falleñ fra sijnum
Skapara i Synd og Vondsku, þa gaf Gud
Mañenum aptur ad nyju sijna eigeñ My-
nd, fyrer Christi sijns Sonar Forþienustu,
Þar ofañ a þa hefur Gud giefed oss þaug
Medol, fyrer hvør ad vier meigum naa
eilijfre Saaluhiaalp, sem ad er sitt Ord,
og þaug heilogu Sacramenta, med hellø-
gum Anda, og hefur, oss so frañboded
eilijfa Sælu, Þar fyrer er þad riett, ad þe-
ir sem ecke vilia medtaka þa eilijfu Sælu,
þeir medtake eilijfa Plaagu. Illur Vil-
ie skilst alldrei vid þa Fordæmdu, þvi skilst
alldrei vid þa Straffed fyrer þañ Illsku
Viliañ. Þeir Fordæmdu wtvoldu sier
stundlega Vellysting, og skañviñ Heim-
sins

fins Audæfe, eñ forſmaadu þau Obriotanlegu Audæfeñ, ſem ad er Gud ſiaalfur og hañs Myſkun. Þeir kiepptuſt meir epter Rijkedæme þeſſa ſtutta og fallvallta Lijfs, eñ epter Rijkdoome þeſs eillijfa og Obriootanlega Lijfſins; Þar fyrer er Riettvijſt, ad þeir faae ad reina eillijft Hefndar-Straff og Kvaler.

O! þu Oendanlega Eillijfd, O! þu Omælelega, og allra Tijma Leingd yfergaangande Eillijfd.

O! þu Oranſakanlega Eillijfd, hvoria eingeñ Mañlegur Skilningur fær nooglega yferveged, hvad myklum Þwunga eykur þu ofañ aa Kvaler þeirra Tøpudu? Þegar Otelianlega mørg Þuſund Ara, eru yferſtadeñ i Kvølunum, þa verdur ſvo til ad þeinkia fyrer þeim Fordæmdu, ſem byriuduſt þær þa ed Fyrſta, þvi þa er eins Oendanlegur Tijme epter ſo ſem hañ var fraa Fyrſta Upphafe Kvalaña. Vier ſiaaum og vitum hvad ſtoor Kvøl þad er, ad liggia karlægur i Sæng ſiñe upp i 30. Ar, hvad meinar þu þa mune vera myklu ſtærre Pijſl ad breña og brælaſt, i þvi Helvijtſka Breñeſteins-Dijkenu, upp i Þuſund

Siñum Þusund Ar.

O! Eilijfd, Eilijfd, Þu ein ert su sem framm wr øllum Maata eykur Kvaler þeirra Fordæmdu. Þwngt er ad lijda þær Helvijtsku Kvaler, vegna þess þær eru bitrar og hardar, eñ þyngra þar fyrer, ad þær eru so marghæattadar, eñ þo allra þyngst þess vegna, ad þær eru svo Oendanlegar, ad þær liña ecke uñ alla Eilijfd. J Helvijtskum Kvølum mun Daudeñ vera Oendanlegur, þviad hañ mun þar æwallt rijkia, þar mun vera Oendanleg Ending, viad i hia Endinguñe mun ætijd nij Uppbyrian vid taka. Þeir enu Fordæmdu munu gyrnast Lioosed, og þad þo ecke ødlast, þeir munu leita epter Daudanum, og Daudeñ mun flya fra þeim. Epter Hundrad Siñum Þusunder Þusunda Ara lideñ, munu ad nyu aptur uppbyrlast þær fyrre Kvalernar, eins og þær take þa hid fyrsta til, og mun þa eñ Eillifd og Oendanlegur Tijme vera fyrer Hende epter. Þeir enu Fordæmdu munu meir og framar kveliast hid Jñra, af Tilhurun Obrlootanlegleika Kvalaña, eñ hid Ytra af Tilfiñingu Pijslaña. Hvad kañ ad vera Hermu-

Hermnulegra eñ þad, ad deya, so ad Madur i þeim Dauda alltijd hiare, og lifa so, ad Madur i þvi Lijfe alltijd deye?

O! þu bañvæna Lijf, O! þu lifande Daude, siertu riettelegt Lijf, Hvar fyrer deyder þu þa? og siertu riettelegur Daude, hvar fyrer giører þu þa ecke eina Ending Lijfsins um̃ sijder? Vier kuñum ecke fyllelega ad skynia nie þeckia, hvad Eilijfdeñ sie, þviad þad fyrst hun kañ ecke med nockre Tijmaña Leingd mællt nie meteñ ad verda, þa er og ecke helldur Von hun kuñe af nockurs Mañs Hugskote verda skileñ nie understadeñ; Eñ vilier þu nockud dæma um̃ Lęngiædlegleika Eilijfdareñar, þa huxadu um̃ þañ Tijma, sem vered hefur fyrer þad, ædur eñ Heimureñ var skapadur. Gieter þu nu þa uppgrenslad, med þijnum Þaunkum, nær Gud hafe fyrst teked til ad lifa og rijkia i siñe Almættis Dijrd, þa kañtu og so ad uppgrensla og siña nær ed Kvaler þeirra Fordæmdu skule endast.

Lættu so sem þar være eitt myked og ofur hætt Fiall, sem stærra være eñ bæde Himen og Jørd, og þar kiæme eirn lijtell Titlingur æ hvørra Þusund Ara Freste,

og bære i burtu i ſijnu Nefe eitt lijted Sand-Korn af þvi Fialle i hvert Siñ, þa være nockur Von til uñ ſijder, epter mørgum Siñum Þuſund Þuſunda Ara, mætte þad Fiall eydaſt og þrotna. Eñ ad ſaa Helvijtſke Kvalaña Elldur nockurn Tijma þrotne edur eydeſt, þar er alldeilis eingeñ Von til. So ſem þad, ad Verdkaup þeirra Utvølldu þrotnar alldrei i Sæluñe; So þrotnar og ecke Straff þeirra Fordæmdu i Kvøleñe; Þvi ſo ſem þad, ad Myſkunſeme Guds vid þa Utvøldu, tekur øngvañ Enda; So tekur og Riettlæte hans vid þa illu og Ogudlegu øngvañ Enda. Laattu ſem ſvo mørg være Kvalaña Kyn hia þeim Fordæmdu, ſo ſem ad eru Dropar i Hafenu, og eirn lijtell Fugl kiæme iñañ Þuſund Ara eitt ſiñ og tæke ad eins eirn Dropa af þvi ſtoora og vijda Hafe i burtu med ſier, þa være þo nockur Von til, ad ſkie mætte uñ ſijder ad uppeyddeſt ſvo ſtoora og mykla Gnoogt Hafſins; Eñ þad, ad endaſt kuñe Kvaler Fordæmdra, þar er alldeilis eingeñ Von til.

Saala mijn, Saala mijn, Laat þier ætijd vera fyrer Sioonum þær eillijfu Kval-

er og Pijsler þeirra Fordæmdu, þviad sijfelld Umþeinking þess Helvijtska Kvalaña Baals, varnar Mañe ad koma i þad Kvalaña Baal. Laat þier Saala mijn vera uñhugad, ad giora Ydran medañ Naadareñar og Fyrergiefningar Tijmeñ er fyrer Hondum. Ellds-Matur þess Helvijtska Elldsins er ecke añad eñ Syndernar, þar fyrer, þess fleirum Syndum sem þu safnar, þess meire Ellds-Kveikiu safnar þu þier i þeim eilijfu Kvolum.

O! Drotteñ JEsu, Þu sem fullu bitalader a Krossenum fyrer vorar Synder, Laat oss ecke rata i þær Eilijfu Kvalaña Eymder, AMEN.



## Fiñtugasta og Fyrsta Hugvekia.
Um Andlega Upprisu Guds Barna.

(Þesse Hugvekia hefur af Authore vidaukeñ vered, sijdañ Bokeñ i Fyrsta Siñ aa Prent wtgieck.)

Ecke stodar þig Christi Upprisa, nema Christur upprijse og so i þier, So sem Christo byriar ad verda gleteñ, lika og fædast i þier, So byriar honum og so ad upprijsa i þier. Daudeñ fer jafnañ undañ Upprisuñe, Þvi ei maa añad upprijsa eñ þad sem aadur var falled, Svo er þvi og so vared i þeirre Andlegu Upprisuñe. Ecke upprijs Christur i þier, nema Adam deye fyrst i þier. Ecke upprijs sa Jñre

Madur,

Madurenn, nema sa Ytre sie adur grafenn. Ecke auglijsest Andans Endurnijung fyrre, enn adur hyliest Elle-Holldsins, og ecke er þad noog ad Christur uppriise Einusinne i þier, þviad sa Gamle Adam kann ei ad wtslockna a einu Augabragde. Sa Gamle Adam vill giarnann Endurlifna i þier Daglega, Þvi byriar þier ad deyda hann Daglega, so ad Christur meige Daglega taka til ad lifa i þier. Ecke uppstie Christur til Himna, nie inngieck i sijna Dijrd, adur enn hann uppreis af Dauda, So kautu ei ad inngaanga i Himneska Dijrd, nema Christur adur uppriise og life i þier. Ecke er þad Limur Andlegs Lijkama Christi, sem Christur lifer ei i. Og ei mun sa leidast af Christo til þess Sigre-hroosande Safnadar, sem ei hefur adur vered Limur hanns Lijkama, i þeim striidanda Sofnude. Trwlofunenn geingur undann Hiooonabandenu, þvi kann sw Saal ecke ad Innleidast i Brwdkaup þess Himneska Lambsins, sem ei er adur Trwlofud Christo i þessu Lijfe, og med Pant H. Anda Innsiglud. Lat Christum þess vegna uppriisa og lifa i þier, so þu lifer i honum Eilijflega. Þetta er sw Fyrsta Upprisa. Sæll er sa og Heilagur sem Hlutdeilld hefur i hinne Fyrstu Upprisu, yfer hvilijkum hefur sa annar Daude ongva Magt. Ef þu villt i Upprisu Lijkamanna til Lijfsins framganga, þa verdur Christur Daglega ad uppriisa i þier i þessu Lijfe. Þa Christur uppreis, upprann og so Soolenn, so og lijka ef Christur

stur rijs upp i þier Andlega, þa mun og so upp rēna i Saalu þiñe Lioos Heilsusamlegrar Guds Kyñingar. Eñ hvorneñ skyllde þar kuña ad vera Lioos Heilsusamlegrar Guds Kyñingar, þar eñ nu hafa siñ Stad mestu Myrkur Syndaña? Otte Drottens er Upphaf Vitskuñar, Hvorneñ kañ þa þad ad vera Himnesk Vitska, þar sem Otte DRottens hefur alldrei Stad feinged? Eñ sa sem ecke hefur Lioos Guddoomlegrar Þeckingar i þessu Lijfe, Hvorneñ kañ sa ad verda Hluttakande eilijfs Lioos i Tilkomanda Lijfe? Liossens Born fara alleinasta til eilijfs Lioos, Eñ Myrkraña Born til eilijfs Myrkurs. Þa Christur uppreis, hroosade hañ Sigre yfer Daudanum, Eins fer sa fra Daudanum, til Lijfsins, i hvorium Christur Andlega upp rijs, Þvi ecke kañ sa ad yfervinast af Daudanum, i hvorium ad lifer Daudans Sigurviñare. Þegar Christur uppreis, hafde hñ med sier fullkomed Riettlæte, Þvi hañ er daaeñ vegna vorra Synda, og uppriseñ oss til Riettlætes. Eins lijka er sa Riettlaatur orden fra Syndeñe, i hvorium Christur Andlega upprijs, þvi hvorneñ kuña Syndernar ad hafa þar Stad, þar sem fullkomed Christi Riettlæte lifer og lioomar? Eñ þad Christi Riettlæte tileinkast oss fyrer Trwona. Þegar Christur uppreis, fieck hañ Sigur yfer Satan, þviad hañ hafde i siñe Nidurstigningu til Helvijtes, nidurbroted hañs Rijke, hañs Holl ad Herfaange teked, og hañs Vopn sundurbroted,

broted. So og lijka kan Satan ecke ad hafa Yfer burde a þeim, i hvorium Christur Andlega upprijs, þvi ecke kan sa af Satan ad sigrast, i hvorium ad lifer Satans Sigrare. Þa Christur uppreis, vard Jardskialfte mykell, So og lijka skiedur sw Andlega Upprisa med Christo, ecke fyrer utan rietta Hræring og Sundurknosan Hiartans. Sa Gamle Adam kan ecke ad deydast fyrer utan Kijf og Mootstødu Andans, So kan og ei Christur i þier Andlega ad upprijsa aan stoorrar Hræringar. Ecke skiedur Andleg Upprisa med Christo, nema ædur verde Synden afmæd, En Synden afmæest eige, nema þar kome fyrst til Syndarenar Þecking, en þar er en nu ecke komen riett Þecking Syndarenar, sem ecke er alvarlegt Angur edur Sundurknosan, Þess vegna skier þar ecke Andleg Upprisa Christi, þar sem ecke hefur ædur komed alvarlegt Hiartans Angur og Sundurknosan vegna Syndana. Ezechias sagde so: Han sundurkramde i mier øll mijn Bein sem anad Leon, Sia hier eina mykla Hræring, en strax leggur han þetta til: DRotten þar af lifa Men, og þad Lijfed mijns Anda stendur med øllu i þvi sama, þviad þu lietst mig sofna wt af, og lijfgader mig, þu fleyer øllum mijnum Syndum a Bak þier aptur. Sia hier Andlega Upprisn af Syndunum.

Þa Christur uppreis, nidurstie Eingell Drottens af Himne, og settest a Grøfena, Eins lijka

ef Christur upprijs Andlega i þier, þa mattu gleð-
ia þig vid Einglaña Naalægd. Þar sem sa Gam-
le Adam eñ nu lifer og rijker, þar er þægelegt
Svefn-Herberge Diofulsins, Eñ þar sem Chri-
stur lifer og rijker, þar hafa Einglarner Lijst til ad
bwa, Þvi so er skrifad: Ad Fognudur sie a Him-
num yfer einum Syndugum sem Ydran giorer,
eñ þar sem ad er soñ Ydran, þar upprijs Christ-
ur eirneñ Andlega, Eñ þar sem Christur er
ecke eñ nu Andlega uppriseñ, þar er ecke eñ þa Gu-
ds Naad, eñ þar sem ecke er Guds Naad, þar er ei
helldur Einglaña Vardhalld, Þar sem Christur
er ecke eñ nu Andlega uppriseñ, þar rijker samt sa
Gamle Adam, Eñ þar sem sa Gamle Adam rijk-
er, þar rijker og so Syndeñ, eñ þar Syndeñ rijk-
er, þar rijker og so Diofulleñ. Eñ hvada Sam-
fielagskap kuña Einglarner ad hafa med Diofleñ-
um? Þa Christur uppreis, byrtest hañ sijnum
Læresveinnm, og tiaade sig þeim lifande. Eins lij-
ka ef þu ert ordeñ Hluttakande fyrer Trwna,
þeirrar Andlegu Upprisuñar, þa tiaa þig og so lif-
ande Lim Christi, fyrer Kiærleikañ. Ecke kañ
Madur ad dæmast lifande, ef hañ auglijser ecke
wtvortes Lijfsins Verk, Þar sem Christur er, þar
er og Heilagur Ande, eñ þar sem Heilagur An-
de er, þar verkar hañ og knijr til allra goodra
Verka, þviad þeir sem af Heilogum Anda stioorn
ast, þeir eru Guds Born. Þess vegna ef vier lif-
um i Andanum, þa laatum oss og so ganga i An-
danum,

danum. Soolareñar Lioos wtdreyfer alla Vega Geyslaña Liooma. Trwareñar Lioos wtdreifer og so alla Vega Breñande Elskuñar Varma. Ef þu gietur teked Liooſed fra Sooluñe, þa mar ſkie þu gieter adgreindt Kiærleikañ fra riettre Trw. Syndernar eru Daudleg Verk, Ef þu geingur i Daudlegum Verkum, Hvorneñ kant þu þa ad lifa i Christo, og Christur i þier? Syndernar hlijda til þeim Gamla Adam, Ef ſa Gamle Adam rijker eñ nu i þier, Hvorneñ hefur þu þa Andlega uppriſed med Christo? Syndernar tilhlijda Hollðſins Alldurdoome, Ef þu geingur þa i Hollðſins Elle, Hvorneñ kañ þa ſa Nije Madur ad lifa?

Upptak oſſ O! goode JEſu af Syndaña Dauda, ſo vier gaungum i Endurnijungu Lijfdagaña. Piñ Dauðe deyde i oſſ þañ Gamla Adam. Pijn Uppriſa Endurlijſge vorn Jñra Mañ. Pitt Blood þvoe oſſ af Syndunum. Pijn Uppriſa Jklæde oſſ Riettlæteſins Klæde. Til þijn þu ſaña Lijf, Andvørpum vær ſem i Syndunum erum dauder. Til þijn þu ſaña Riettlæte Andvørpum vær, ſem vegna Syndaña, erum fraahvorfner.

Til þijn þu ſaña Saaluhiaalp Andvørpum vær,
ſem vegna Syndaña erum Fyrerdæmder.
Endurlijſga oſſ, Giør oſſ Riettlaata og
Saaluhoolpna, AMEN.



